# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

Tíundi Árgángur, 1928.

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON.







WINNIPEG, MANITOBA.
GEFIÐ ÚT AF ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGI ÍSLENDINGA
1928.



# EFNISYFIRLIT





# Hildiríðarsynir

—Þáttur úr Egils sögu.—

---

Saga Egils segir frá því,
Samtíðin þótt gangi hjá því,
Haraldur er hauður vann:
Fársmenn, slægir frillusynir,
Fyrstu gerðust kóngsins vinir,—
Rægðu Þórólf, ræmdan mann.

Allra manna vænstur var hann,
Vinarþel til konungs bar hann;
Stórættaður, gildur, gegn.
Rómur vann í ræsis nafni,
Ríkismerkið bar í stafni,—
Engan trúrri átt' 'ann þegn.

II.

Hildiríðarsynir sóru:
Svikráð kóngi búin voru
Veizlu er gylfi að Þórólfs þá.
Kváðu Þórólf konung véla,
Kóngstign girnast, sköttum stela,
Ala bændum uppreist hjá.

Rógsmál aldrei var til verra,
Vondum mönnum trúði herra,—
Hatur lagði á hollan vin.
Háreki og Hrærek' treysti,—
Hilmir þá til valda reisti
Hildiríðar hrekkvíst kyn.

III.

Sonur Kveldúlfs sat að drykkju,
Sinti fátt um konungs þykkju,
Fararmungát sveit er saup. — —
Haraldur tók hús að kveldi,
Hetjan, fyrir sverði og eldi
Dauð á fætur konungs kraup.

Afarkosti enga þá hann
Úti þegar kóngs lið sá hann,—
Nauðungar var synjað sætt.
Manndóm láta, en fjör og frelsi
Fá af náð, með konungs helsi,
Það v a r ekki í Þórólfs ætt.

IV.

Kónga er umbun einskis virði,—
Óvígan í Hafursfirði,
Segir Þórólfs sagan merk.
Höldur bezti á hreysti öldum
Hné þó fyrir rógi köldum,—
—Nóg er um andans níðings verk.

Alt hið versta í eðli manna
Eigingirni stórbokkanna
Magnar, gerir manninn þý.
Þegar fégirnd föntum ræður,
Fjandinn sjálfur vítis glæður
Blygðast sín að blása í.

Til var nóg af tyllisökum,
Tál og rógur gylfa spökum
Breytti' í geigþý, grimman mann.
Enn—með gnægð af flugu fréttum,
Fjárplóg, rógi, lygum, prettum,
Egnt er fyrir almúgann.

V.

Norrænn þáttur—Þórólfs bani,
Þrællundaður slægðarvani,
Aldrei síðan út af dó.—
Hrakmenni,—í hugum lýða—
Hildiríðarsynir,—víða
Fara enn með fornan róg.

Íslendingum—Egils kyni,
Afturgengna frillusyni
Veit eg fjörráð ætla enn.
Rögn þeir smá, en ræsi tæla,
Rægsla kænna mammons þræla
Fella beztu mál og menn.

*Jónas A. Sigurðsson.*

# Um Vœringja, Rússa og íslenzk fossanöfn í Rússlandi.

Eftir *Pál Bjarnarson.*

Langæð sundurþykkja hefir staðið um þjóðaheiti þessi milli hinna veglegustu sérfræðinga og miklu meiri ræða flotið um þau af þeirra hálfu, en eg kann frá að segja. Sundurþykkjuna þarf menn heldur ekki að furða; því að það, sem mönnum lízt um heitin, ræður mestu um það, hverri þjóð menn kenna þann frama, að hafa komið fótum undir Rússaríki, stórveldið mikla, sem fyrrum bar ægishjálm yfir austlægri Evrópu og nú er mestur viðbjóður amerískum burgeisum fyrir alþýðuánauð og kvennréttarspell. Það var lengi haldið, að Norðmenn hefðu stofnað Rússaríki, þangað til að slafneskir sérfræðingar tóku að bera brigður á það undir og sakir tímamótanna, er í hönd fóru. Svo segir í annál Nestors, Kænugarðsmúnks, að Slafar hafi gert menn til Varangi og beðið þá koma og stjórna sér og þá hafi Rússar farið til þeirra og stofnað með þeim ríki í Novgorod. Það var árið 862, að talið er, og 1862 var þúsundára afmæli ríkisins haldið á Rússlandi og veglegur minnisvarði reistur í Novgorod til minningar um það: Steinriðs stöpull mikill og hár og ofan á honum knöttur mikill, umhorfinn alls konar líkneskjum jartegnandi ýmisleg atriði ríkisins. Hinir slafnesku fræðimenn héldu því fram, að átt væri við Slafa, eða Finna eða þá Khasarska menn með heitunum Varangi og Rússar í fornritum og að þeir hefðu fyrstir komið Slöfum í stjórnskipulegan félagsskap. En gamla haldið skorti heldur ekki formælendur og fyrir löngu er sundurþykkjan nú niður kveðin einkanlega af þeim sagnfræðingunum E. Kunod og Pogodin á þá leið, að Rússaríki hafi í fyrstunni verið stofnað af Norðmönnum, og smiðshöggið á þá niðurstöðu rak hinn alkunni danski orðtengðafræðingur, Vilhelm Thomsen, með riti sínu: The Relation between Ancient Russia and Scandinavia and the Origin of the Russian state (Samhengið milli Rússlands forna og Norðurlanda og uppruni Rússaríkis).

Niðurstaða þessara fræðimanna kemur og prýðilega heim við íslenzk fornrit. Það er kunnugt af þeim, að Norðmenn herjuðu bæði í Vesturveg og Austurveg. Í Vesturveg lauk víkingunni með því, að Norðmenn brutust þar til landa og bólfestu og austurvíkingingin fór vitaskuld á sömu leið. Sá hét Rurik (Hrærekr), er fyrstur gerðist konungur í héruðunum suður af Kyrjálabotnum, reisti Hólmgarð við Novgorod og hafði aðsetur þar; en suður í landi brutust þeir Askold og Dir (Höskuldur og Þér) til ríkis og höfðu að-

setur í Kiew (Kænugarði). Eftir dauða Hræreks tók Oleg (Helgi) við ríki í Hólmgarði, hann feldi þá Höskuld og Þé frá ríkjum og sameinaði löndin í eina ríkisheild með höfuðaðsetri í Kænugarði. Ríkið var kallað Garðar eða Garðaríki af Norðmönnum líklega af því, að þeir gerðu sér garð þ. e. virki eða vígi, á aðsetrum sínum til vara og varnar við aðsúgi landsmanna, og stóð frá Eystrasalti nálega suður til Svartahafs. Dnieper réð mærum að vestan, en austan við Moskowa-hérað bjuggu Tartarar og norður hvarf ríkið yfir 60 mælistig norðl. breiddar út í frostmyrkur og forynjugeima Gandvíkur-héraða. Það var kögg-ullinn, sem veldi Rússa hnauðst saman um. Austurvíkingin lengdist með stofnan ríkisins ofan Dnieper suður á Svartahaf og Garða-konungar fóru oftar en eitt sinn leiðangur til Miklagarðs. Norðmenn sóttu af Norðurlöndum austur til Garða; fóru þaðan í víkingu suður á Svartahaf og herjuðu um suðurstrendur þess og gerðu nafni Væringja og Rússa sama orðstírinn í Austur-Rómaríki og Norðmönnum var sunginn í vestlægri Evrópu og Miðjarðarhafslöndum. Þegar löndin kristnuðust, gengu Norðmenn á mála í Miklagarði og gerðust hin fræga lífvarðarsveit stólkonungsins, Væringja sveitin, sem yngdist ár og síð og alla tíð upp af Norðurlöndum, af þeim, er sóttu þangað til að leita sér fjár og frama, af skógarmönnum og Jórsala förum þeirra. Ríkið stóð með miklum blóma á dögum Jarisleifs konungs, Valdimarssonar, Sviatosleifssonar. Ingvarssonar, Hrærekssonar þess, er reisti Hólmgarð, og var þá mikið athvarf Norðmanna. Þangað leitaði Ólafur helgi Haraldsson, er hann flúði úr landi fyrir ofríki Knúts hins ríka, og þaðan efldist hann af Jarisleifi til að sækja aftur til ríkis í Noregi, sem lauk með falli hans í Stiklastaðaorrustu, og austur til Garða flýði Haraldur Sigurðsson úr orrustunni, þá 15 vetra, eins og segir í sögu hans; og þar dró hann saman, í austurvíking og forystu sinni fyrir Væringjum, það ógrynni gulls og silfurs, sem hann helmingaði seinna við frænda sinn, Magnús góða, gegn hálfum konungdómi í Noregi.

Sú varð raunin Garðaríki, að enginn má við margnum. Það hlaut sömu niðurlög og ríki Norðmanna í Normandi og ríki þeirra á Sikiley. Þá er Norðmenn ílendust eystra og mægðum jók með þeim og landsmönnum, þá yfirbugaði Slafneskan þá smásaman. Norrænan rénaði og hvarf og landið varð aftur alslafneskt. Það hjálpaði og til, að Eystrasaltslöndin gengu snemma undan og svo brutu Tartarar niður suðurhluta ríkisins. Nöfnin Garðar eða Garðaríki og Girskir liðu undir lok fyrir heitunum Rússía og Rússar, sem Slafar tíðkuðu, og svo algerlega fyrndi minninguna um afrek og athafnir Norðmanna þar í landi, að sumir rússneskir fræðimenn eru til með að eigna Slöfum norræn verk ofan í tvímælalaus sögurök alveg eins og sumir norrænufræðingar eiga það

til, að eigna Eddurnar Norskum, þótt alkunna sé, að Íslendingar, einir allra Norðmanna, gerðu tunguna bókmál og rík sögurök séu til, bæði af hálfu Íslendinga og Norskra, um það, að Noregur myndi hafa reynst jafnauður fornskjölum tungunnar og hin löndin, Danmörk og Svíþjóð, nema fyrir viðskiftin milli hans og Íslands.

Séra H. H. Milman, sá sem bjó undir endurútgáfu hið orðlagða sögurit Játvarðar Gibbons, The decline and fall of the Roman Empire, og jók athugagreinum og viðbótum núlegs sögurannsaks, fer svofeldum orðum um ágreiningin um stofnan Rússaríkis í X. bd. ritsins viðb. 8: "Enginn alminnilegur rýnir efar nú það, að Rússar þeir voru af Norðurlanda kyni eða norrænir, sem settu á stofn ríki í Novgorod og Kiew, lögðu slafneskar þjóðir undir sig og komu þeim í stjórnskipulegt ríki—sem í stuttu máli að segja bjuggu til Rússaríki. Því er óþarfi að fara með þetta framar sem nokkurt vafamál, þótt enn séu til "and-norðmenn" í Rússlandi; nægir að drepa á helztu vitnin. Vitnisburður þeirra er ósligandi í rauninni, nema ósligandi einþykkni." Svo vísar hann stuttlega á helztu heimildirnar undir 4 töluliðum.

Þótt nú niðurstaðan standi stöðug og óhagganleg, eins og hún er stödd af fyrgreindum ágætismönnum og öðrum sérfræðingum, að Norðmenn hafi sett Rússaríki á stofn, þá er samt hægt að bæta um sum málfræðileg rök, sem sérfræðingarnir fara með til meðhalds niðurstöðu sinni. Það má rétta þau svo, að þau beri niðurstöðu þeirra enn betur uppi. Það er nú fyrst Varangi, Varagi eða Varasi, því nafnið er stafsett ýmslega í fornritum, vitaskuld sama og Væringjar á íslenzku. Það segja þeir og, en þeir láta það merkja eiginlega bandamenn (faederati) og síðan Norðmenn, samkvæmt séra H. H. Milman á þessa leið: "Myndan Væringjasveitarinnar í Miklagarði og inntaka annarra þýðverskra þjóða (Dana, Engla, o. s. frv.) í hana færðu merkingu Væringja út úr upphaflegum ummerkjum til Norðmanna eða norrænna manna." Skýring Milmans er ofboð áheyrileg nema fyrir það, að íslenzk tunga býður mönnum nokkurn ugg á því, að Væringjar merki eig. bandamenn. Orðið hefir verið rakið til Vár, eiða og einkamála gyðja, eins og Milman drepur á, af þýskum orðtengðafræðingum og sú ættfærsla gengur síðan staflaust með norrænufræðingum. En rakningin er hæpin og margt má færa í Íslenzku fram til að styðja það, að Væringjar merki eig. Norðlingar eða Norðmenn blátt á fram. Hvað merkir Norðr?

Í A. Torps, nýnorsku orðtengðaorðabók er norðr skýrt eða rakið á þessa leið: "Nord, gno. norðr, í forskeytum líka norð-, sænsk, norr...........German. *nurþ(r)a, idg. *nrto, *nrtro, myndað með áttar atviksorða miðstigs viðskeytum *-to, *tro við rót (e)ner, niðri (grísk. nerþen, neðan); af því grísk. eneroi, þeir neðanjarðar; enerteros, neðri;

umbrisk. nertru, til vinstri; sbr. sanskrít. naraka-, undirheimar, helvíti. "Nord" líklega af "vinstri" og það af "neðri." Með því að Hel var haldin búa í norðri, sameinast hugtökin niðr og norðr í gno.: níðr og norðr, nýnorska, nord aa ned eða ned aa nord, til helvítis." Orðskýring þessi á ekki þann kost að vera sannfærandi. Norðr fer sjálfsagt ekki með neitt miðstigs viðskeyti frekar en hin áttaheitin, austr, vestr, suðr, og þau hafa það ekki, og norðr á víst ekkert skylt við hina tilvísuðu rót (e)ner. Að lesa orðskýringuna rennir í hug manni risus paschales kaþólsku prestanna. Aðrar eins orðtengðaraknúngar mætti vel kalla risus etymologorum, því þær eru jafn óþarfar orðtengðafræðinni og risus paschalis (páskagamanið) var kaþólskri trú, þangað til að það var bannað af páfa. Það hefir lengi verið kækur norskra fræðimanna að leggja út íslenzkt orð, sem þeir ekki skilja, með því að hafa upp aftur merkingu orðsins á undan því eða eftir, svo sem Eggert Briem, bóndi í Viðey, haft hefir orð á í riti sínu: Snorri Sturluson. Þessum kæk er hér brugðið fyrir sig til að skýra orðatiltækið norður og niður, merking orðanna er sameinuð eða orðin látin merkja hið sama, þótt orðin sé, vitaskuld, andstæðrar merkingar. Orðatiltækið merkir rakleiðis upp og niður og óeiginlega merkingin, til helvítis eða fjandans, er að sjálfsögðu runnin af hinu óskaða friðleysi. Stuðlan veldur tilveru orðatiltækisins eins og svo margra máltækja annara. Hún veldur því, að orðin norður og niður er tekin saman, en haldið um aðsetur Heljar kemur því ekkert við.

Norðr er ekki rakið til eig. merkingar í sumum orðtengðaorðabókum. Séra W. W. Skeat rekur það ekki í orðabók sinni og er þó óhætt að ætla honum, að hann hefði getað stiklað "vinstri" og "neðri" stigu hins norska orðtengðafræðings, og hann hefði sjálfsagt gert það, hefði hann ekki verið smeykur um að liggja í á þeim stigum. Eig. merking áttaheitanna, austr og vestr er alkunn og sammerkt heitum áttanna í hinum klassisku málum, og hið sama suðr. Heitir austr, því að áttinni verður sólar auðið, lat. oriens, en vestr (ve ritað fyrir y), ystr, er útgönguátt sólar, sólarlagsátt, lat. occidens, og suðr er sunnu átt, áttin, sem sól er jafnan í eða þá er hún gengur hæst. Eig. merking norðuráttar ein er óþekt. Það er ósennilegt að leita heitinu tengða neðanjarðar. Það er ekki ólíklegt, að áttin sé heitin eftir hinu sama og hún er nefnd eftir í hinum klassisku tungum. Á lat. heitir norðurátt septentrio eftir vagninum, hinu auðþekta sjö stjarna merki, sem áttar manni hægast á pólstjörnunni. Áttin heitir líka á Latínu Ursa, á Grísku arktos eftir stjörnumerkinu og merkir hvorttveggja orðið hið sama, birna eða bera. Þetta vísar manni til að svipast eftir einhverju háu og tignarlegu til tengða við áttarheitið og þá djarfar ekki fyrir neinu nær "norðr" en hljóðskiftis orði þess Njörðr.

Njörður er talinn hinn þriðji Ás í Eddu Snorra. Hann var uppfæddur í Vanaheimum og var Vana ættar en ekki Ása kyns. Vanir ríktu í Vanaheimum. Hvað Vanaheimur merki eig. hermir hvorki Fritzner né danska Lexicon poeticum Svb. Egilssonar, en ekki er ólíklegt, að orðið sé myndað af vanr, sem vantar, þrýtur e-ð, og heimur, og merki eig. þrotlönd, lönd þau, sem góðra hluta sé vant, ófrjó lönd, andstætt hinum frjóu suðrænu löndum, og Vanir hafi nafn sitt af því, að þeir byggðu hin ófrjó lönd norður í heimi eða ríktu yfir þeim. Í Eddu er drepið á það, að ósátt var með þeim, Ásum og Vönum, og felur frásögn hennar sennilega í sér fyrstu viðskifti Ásatrúar við annarlega heiðni, þá er Æsir tóku að kreika norður á bóginn. Sátt varð með þeim og gisluðu Vanir Njörð Ásum; mun það merkja, að Njörður var tekinn í goðatölu, gerður goð. Í heiðni var trúað á náttúrur stokka og steina, dýra og himinknatta, og þær persónugerðar í goðunum. Fyrst Njörður var meiriháttar-goð, upphaflegt í norðlægum löndum, og goð veiði og siglingar, þá er líklegt, að hann jartegni bjarndýr og dýrkan hans sé tilbeiðsla bjarnar, því björninn er eitt hið tilkomumesta dýr í norðurheimum og fengsæll. Hann kemur á ísnum og kann sýnast flytja björg þá, sem oft er samfara ískomu, og kann sýnast taka kaupför og knörru óþyrmilega vöttum sínum og lykja lönd ísum, njarðarvöttum, njarðlásum. Íslendingum er títt að taka til bjarnar hrammsins og eins fór Skaði Þjassadóttur, að henni fannst mikið til um fætur Njarðar, og til slysni hennar er enn tekið í íslenzku máli, stundum með hlakkvísu skensi: galli er á gjöf Njarðar; á gjöf Njarðar þ. e. þá er Njörður var gefinn, þá varð mein að löppunum. Þær voru ekki Baldurs.

Þetta hald, að Norðr og Njörðr sé hið sama og sammerkt björn, birnu, beru, fær stuðning af því, að áttarheitið verður þá sammerkt hinu latneska og gríska áttarheiti eins og hin áttarheitin, sem getið var að framan. En svo er manni ekki vísað til að henda það eingöngu af því eða af líkindum goðfræðisagna. Það má ráða það til fullrar hlítar af staðarheitum. Enginn Íslendingur efar það, að forskeytin í Norðfjörður, Njarðvík, Njarðey o. s. frv. sé sammerkt, og merki og sama og forskeytin í Berufjörður, Beruvík, Bjarnarey o. s. frv., þegar betur er að gáð. Áttarmerking er fólgin í forskeytum þessum, vísað til norðurs, til birnunnar eða bjarnarins á himnum uppi; Njarðvík, Beruvík þ. e. víkin undir Nirði, undir Beru; sbr. latn. sub Ursa, sub axe Boreo. Væri maður nú bundinn við íslenzk heiti ein til að sýna sammerkinguna, kynni sönnunin enn þykja grönn, en fjarri fer því, að manni sé markaður svo þröngur bás. Íslenzkan hefir stráð vitnisburðinum í afrunatungur sínar víðsvegar um þau lönd, er hún gekk fyrr um. Á Bretlandi er Norwick (Norðvík eða Njarðvík) og Ber-

wick (-on—Tweed) (Beruvík); Bjarnarey er norðan við Héraðsflóa, en Bareray (Beruey eða Bjarnarey) er í Suðureyjum, önnur norður af Ívist (North Uist), hin norður af St. Kilda; Barnes (Berunes) gengur út í Thames og Bearwind (Berubugur) er þorp á Englandi, ef eg fer rétt með það, en Neerwinden (Norðbugur eða Njarðbugur) er í Belgíu, sögufrægur fyrir ósigur Engla fyrir Frökkum 1693 og Frakka fyrir Austurríkismönnum 1793. Á Bretlandi er Norton (Njarðtún), en Barenten (Berutún) er útnorður af Rúðuborg í Normandi. Bärenstein (Berusteinn) er í Saxlandi, í Würtemberg er Nerisheim (Norð- eða Njarðheimur), en Birnam (Beru heimur eða Birnuheimur) útnorður af Perth í Skotlandi og Barmen, hið sama, norðaustur af Köln. Svo er Berlin sama og Nördlingen, sem siðabótarmönnum má vera minnisstæður úr þrjátíu ára stríðinu. Í Noregi er Nordkyn (Norðhöfði) og Bergen, á íslenzku Björgyn, Björgvin,* og

*)Í "Tímanum" (tölubl. 40) í sumar bar fyrir mig orðskýring á Björgvin tekin úr norsku blaði eftir Hakon Hock-Nielsen á þessa leið:

"Björgvin (eða Bjargvin) þýðir því ekki eingöngu "grassiétta milli fjalla (önnur norsk orðskýring) heldur rjóður (vinr) afmarkað með birkikvistum og lögverndaður verzlunarstaður." Þarflítið er að vera að bera aðrar eins orðskýringar milli landa, og þessar eru, sem eiga ekki neina fætur til að standa á. Bæjarnafnið merkir hvorki grasslétta milli fjalla né rjóður afmarkað birkihríslum. Björgvin, Björgyn merkir eig. Bjarnar, Beruhöfði, sama og Njarð- eða Norðhöfði. Norðkyn, eins og drepið er á í meginmálinu; samsett af stofni bjarnar bjar- og viðskeytinu gvin, gyn, í raun réttri hvin, hyn, því h er skift við g í því, af hljóðskiftis rótinni hva, hu, ho, kúpu og skálar merkingar og er tengð týndrar sagnar sterkrar, hvinna, sem hefir haft áþekka merkingu og sagnirnar hvolfa, hylja, hjúpa, sem henni eru samrætar, og enn frekar má ráða af afrunaorðum hennar húnn, hús, hosa, hvönn, hvinska. Sjálfstætt kemur viðskeytisorðið fyrir sem eyjarheiti, H(v)inn, Hvin, Hyn við Hálogaland, þ. e. hveley eða ey með bungumynduðum hæðum og sömu merkingar eru forskeytisorðin í Hvinisfjörðr í Noregi, Undhóll (Hundhóll) í Skagafirði, Hundeyjar og Hundver og Vinisdalr í Noregi og Hundatún, bær á Englandi Hundington, öll komin af beygingarstofnum sagnarinnar hvinna o. fl. Fyrir utan Björgvin kemur orðið fyrir í fjörgvin eða fjörgyn eig. það, sem hvolfir um eða hjúpar fjörið, lífið, þ. e. jörð. H-laust kemur það einnig fyrir bæði í viðskeytum og sjálfstætt og er merking þess auðsæjust í samskeytingnum fjölvinjaðr í niðurlagi 43. vísu Háttatals Snorra: fjölvinjaðr hylr Fenju, falr meldr alinveldi, hylur arma fáanlegt gullið fjölvinjað, þ. e. fjölhvelt eða fjölbungað, sem er með mörgum bungum eða bólum. Professor, Dr. Finnur Jónsson hleypur órýnið eftir norskum vaðli, er hann leggur orðið út í danska Lexicon poet. Svb. Egilss.: "Som hviler paa mange enge." Sömu merkingar er viðskeytið í Hlóðyn, sem líka er, vitaskuld, misskilið í lexikoninu. Finnur heldur eig. merkingu þess: "noget opstablet," "omgærdet græsvang"? Viðskeytið sé yn>vin og framhlutinn hlað-, sbr.: Hlað í Hlaðgerðr. Framhlutinn er sjálfsagt ekkert skyldur hlað- í kvenn-nöfnum, heldur orðstofnunum hlá-, hlæ-, hlý- og kominn af beygingarstofni veiku sagnarinnar hlæja, (hláða, hláðr sbr. æja, áða, áðr), hláð, sem sé hlaðyn, hljóðverpt sakir u-hreims viðskeytisins í hlóðyn (u-hljóðvarp hins langa as) eig. sú, sem hvolfir um, hjúpar hlýið, lífshitann þ. e. jörð, sbr. fjörgyn.

Tvímælalaust merkir hvin, vin, eig. bunga, hvel eins og nú er þráfaldlega sýnt. Af því, að góð graslendi eru tíðum á höllum og ennum slíkra hæða, mun runnin óeig. merking orðins, engi. Vinland eða Vinjarland kölluðu feður vorir hérað það, er þeir komu að í Vesturheimi og merkir heitið þá bunguland, kúpuland eða ölduland öllu heldur en engjaland. Mikið hefir verið reynt til að ráða til þess, hvar landið hafi verið, eftir tilvísan sögunnar og sögulegum atriðum, en aldrei hefir heiti landsins verið tekið til hjálpar, því menn hafa ekki skilið það. Vera má að hægast sé þó að komast að því af heitinu ásamt sögunni að athuguðum háttum staðanna, er samnefndir eru eins og að framan greinir.

hirði eg ekki að tína fleira til. Það er augljóst að Björn og Bera tíðkast í staðaheitum til að tákna Njörð, Norður, en ekki af því að bjarndýr hafi haldið til eða söguleg atriði gerzt af þeim á stöðunum.

Nú er enn fremur í Noregi Varangerfjord og Vardö. Hvað mun það merkja nema Berurjóðurs- eða Berusviðsfjörður og Bjarnarey? Varde er norður af Rípum í Jótlandi, Varberg útnorður af Halmstad í Svíþjóð; Varzin hét landsetur Bismarcks járn kanslara; á Frakklandi er Varenne (-en - Argonne) sögufrægt þorp af handsömun Lúðvíks 16., og síðast en ekki sízt er Varinsfjörðr, Varinsvík og Varinsey í Helgakviðunum. Allt ber að sama brunni, að Norðr, Njörðr, Bera, Björn, Varinn, Varðr sé eitt og hið sama og eigi við þann björn, sem eldgamall átrúnaður skákaði í fyrndinni upp á himinfestinguna. Hefi eg þá loks komið máli mínu þar, sem það hófst í fyrstu, að Væringjar merki eig. Norðlingar eða Norðmenn. Það er að minsta kosti miklu sennilegra en að orðið merki eig. fæderati, bandamenn og sé tengt Vár. Þótt sú orðskýring hrokkið hafi til að seðja fróðleiksþrá norrænu fræðinganna frá því á dögum Pavels J. Schafariks, þá er sannast að segja lítið vit í henni. Því Væringjar bundust engum várum í Miklagarði, gerðu ekkert fóstbræðralag með sér. Þeir voru einvörðungu málalið stólkonungsins. Skýringin hér að framan tekur fæturna undan merkingar útfærzlunni, sem Milman fer með. Merking orðsins hefir aldrei færzt út. Væringjar merkir ekki bandamenn og hefir aldrei haft þá merkingu heldur Norðlingar og Varangi í erlendum fornritum segir því rakleiðis til norræns uppruna. Þetta kemur ekki í neinn bág við athugagrein Milmans (x. bd. bls. 53), er hann hefir eftir Codinus, að Væringjar tíðkaði tungu feðra sinna, Ensku, fram til 15. aldar, því England varð snemma á öldum norrænt land að miklu leyti fyrir bygingu Norðmanna löngu fyr en vanalega er talið, svo sem Du Chaillu hefir greinilega sýnt í riti sínu, The Viking Age. Mikil brögð hafa að sjálfsögðu verið að aðsókn Engla til Miklagarðs á 11. og 12. öld undan hinni fúlu ánauð Vilhjálms bastarðs og sonar hans, en Englar mæltu þá á norræna tungu, svo að allt er sama tungan Enska Codinus og Danskan, sem Saxo grammaticus segir Væringja talað hafa, og nú væri kölluð íslenzka, ef sannleikurinn kæmist upp fyrir þjóðernisvindgangi úr norskum spekingum liðnum og lifandi.

Hver sé eig, merking norðr, njörðr, björn og varinn og hvort þau séu samræt ursa, arktos, er sjálfsagt vandi að segja. Sama er geranda viðskeytið í þeim öllum, varinn, varðr, *björunn, *björðr, björn, njörunn, njörðr. Oft er annkanni á orðum fyrir stafvíxl, stafhvarf og stafaskifti í þeim og mikið sýnist kveða að ringli í þessum orðum. Svo er víst t. a. m. Jörvík, Jórvík sama og Vörvík eig. sama og Njarðvík,

á Ensku York; sbr. Jörungr (Norðungr) biskupsstóll eða umdæmi á Vendilskaga norðar á Jótlandi. Má vel vera, að orðin séu öll samræt og tengðir torkennilegar fyrir stafringlið í rótinni og merki þá öll svipað svo sem norðr, njörðr, náðar eða viðhaldsgjafi, björn bjargar eða bráðar gjafi,varinn verndar eða varma gjafi og minnist sitt á hvern hátt hins milda viðhalds auðsældargoðsins norræna í heimskautagrimmdinni. Vilhjálmur Stefánsson, hinn heimsfrægi landkönnuður rak erlendar þjóðir í rogastans með því að skíra landkönnunarrit sitt eitt: The Friendly Arctic (hið milda Norður). Frá niðmyrkri fornöld er það komið og rammíslenzkt, að líta á Norðrið eins og hann gerir. Hitt er guðlasti næst að orða það við helvíti og enginn fótur fyrir því nema norskir draumórar. Bjarnylur í íslenzku máli er að sjálfsögðu minning um, hve mildur drottinn Njörður hafi forðum þótt, en limar orðanna leiða lengra en fara megi nánar út í það hér.

Rússar nefndust þeir, er ríkinu komu á stúfana. Nafnið er talið samstofna finnska nafninu á Svíþjóð Ruotsi. Vilhelm Thomsen rekur það og Rússar af norræna rods, Rússar eig. rodsmenn, ræðarar, og þá skýringu er nú að finna í öllum vönduðum hlutnafna bókum svo sem British Encyclopædia, sem er samantekin af fjölda úrvalsfræðimanna. Agnus þykir úrfall tannstafsins í Rússar, fornslafn. Rous, grísk. rhós. Eg læt það nú vera. Lakari er eiginlega merkingin: ræðarar. Hún setur sama soramarkið á skýringu Thomsens og íslenzkar orðskýringar sumarhverjar bera eftir útlenda orðtengðafræðinga. Það nær ekki neinu lagi eftir íslenzkum nafngiftavenjum eða málseðli, að heil þjóð, menn, konur og börn, fái nafn af vopni, er karlar hafi í orrustum, eða af herópi þeirra og þá heldur ekki af ræði eða róðri. Að slíkar orðskýringar tíðkast, kemur ekki til nema af því, að orðtengðafræðingarnir kenna ekki klígjunnar, sem þær vekja þeim, sem bornir eru íslenzkri tungu.

Þannig eiga t. a. m. Saxar að hafa nafn sitt af saxi því, er þeir báru í orrustum. Þessa vizku er að finna í orðtengðaorðabókum, hlutnafnabókum, sagnfræðihandbókum, jafnvel í brezkum barnaskóla bókum; en næst sönnu mun það, að Saxi sé kominn af syngja, eig. Sang-si, fyrir tillíking ng í kk Saksi, ritað einu ki, eða Saxi, eig. maður með syngjandi róm. Allt er sama tóbakið, Saxar, sænskir og Svíar (uppbótar hljóðlenging fyrir niðurfall lokastafa stofnsins syng og ví ritað fyrir ý) og nafngiftin runnin af hinum alkunna, fagra og hljómríka framburði Svía. Frakkar eiga að hafa nafn af frökku, öxi sinni, en eðlilegra er að leita nafninu tengða við fránn og að það merki ljósa, bjartleita menn. Sumar (hlutnafna)bækur segja Germani hafa nafn af herópi sínu, aðrar (Litré: Dictionnaire de la langue francaise) rekja það af kymr, ger, granni og man (maon) þjóð. Keltar eiga að hafa skírt þá svo

og Rómverjar svo fengið nafnið frá þeim. Hvorug skýringin getur borið sig og hið sama er um skýring Thomsen á nafni Rússa. Hún er röng. Það þarf meira að segja ekki mjög nána þekkingu á Íslenzku til að finna skyldleik orðsins Rússar við íslenzk orð og eig. merkingu þess. Norðmenn eru ljósir eða rauðbirknir á brún og brá og væri íslenzkum nýyrði nú falið á hendur að gefa mönnum nafn af þeirri einkunn, þá mundi hann óðar rjúka í hljóðskiftisstofna sagnarinnar rjóða og búa til rusi eða rosi eða fara eftir álíkum kauði, kusi, rauði, rusi. Rússar er tengt sögninni rjóða og merkir eig. rauðleitir eða rauðbirknir menn en ekki ræðarar eða róðrarmenn; sbr. heitið Rauðr; rosi, dumbrauðleitur blær á lofti, er raki og mistur veldur og þykir vita á regn eða storm; rosabaugur um sól; sbr. og ensk. russet, rauðbrúnn, russetting, roðleitt epli, dansk. rust ryð, sænsk. rost og þýsk. Rost sama. Hin upphaflega mynd orðsins er Rusar. Frá frændþjóðum vorum hefir það komið til Íslands með hljóðlenging, Rússar, þá er fyrnd voru heitin Garðar og Girzkir. Rússar eru sjálfsagt sama og Reiðgotar. Þingalög þeirra eða héruð munu hafa verið nefnd Reiðlög, eftir rauðleiti þeirra. Reið er af roð, beygingarstofni sagnarinnar rjóða, hljóðvarpsstafarinn, hið stungna ö, ýmislega ritaður æ, ey og jafnvel ei.

Rússar hafa nafn sitt af yfirbragði Norðmanna og kemur það vel heim við það, að ríkið hafi upphaflega verið norrænt. A. Torps nýnorska orðtengðaorðabók fer með þá getgátu, að sænsk. ryss og russ, ofsamaður, hávaðamaður kunni þó eig. vera þjóðheitið Rússar. Óhætt er að fortaka það. Hin sænsku orð eru tengð íslenzka stofninum hrus sagnarinnar hrjósa og eins norsk. russ, grýla, og dansk. rus, háskóla nýsveinn, og merkingar orðanna kvíslast greinilega úr eig. merk. ísl. hrysingr, sá, sem manni hrýs við; hrani; hranalegt framferði. Nýsveininum er eignaður skortur á siðfágan stofnunarinnar.

Sjö fossaheiti eru enn fremur nefnd til sönnu um norrænan uppruna Rússa ríkis. Heiti þessi eru töld í riti Konstantínus keisara porphyrogenitus, De administrando imperio, á tveim tungum, Rússnesku og Slafnesku. Þau eru lögð út í ritinu og er heiti annarrar tungunnar sammerkt því heiti, sem kemur á eftir því á hinni. Rússnesku heitin eru norræn. Það sýnir tvímælalaust, að Rússar hafi verið Norðmenn og talað norrænt mál. Fossarnir eru allir í Dnieper fyrir neðan Kænugarð á leiðinni ofan til Svartahafs og voru hinn versti farartálmi á ánni, því að draga varð skipin á landi um fossana. Ofboð eðlilegt er, að Norðmenn hafi gefið fossunum nöfn á sinni tungu, þegar þeir fóru að tíðka ferðir um ána, og hafa þeir þá nefnt þá eftir slafnesku heitunum. Því eru nöfnin sammerkt. Vilhelm Thomsen hefir fært heitin úr grískri stafsetning til ís-

lenzkrar og slafneskrar stafsetningar og skýrt þau. Til fróðleiks eru rússnesku heitin látin koma hér á eftir eins og þau eru í riti Konstantinus og eins og Thomsen hefir gengið frá þeim. Úrlausn Thomsens þykir vafasöm eða ónóg um 1. heitið, af því það sé svo fráleitt grískustafaða heitinu, og 6. heitið, af því að það sé þá ekki sammerkt hinu slafneska heiti eins og hin heitin. Þessar aðfinnslur eru réttmætar, en ofboð auðvelt er að bæta um úrlausn Thomsens eins og gert er á eftir, svo að ekki sé hægt að vefengja þau heitin fremur en hin.

1. heitið er Essupe, sama orð eða eitt fyrir bæði málin og lagt út á grísku me koimasþai (ekki sofa). Thomsen gerir úr því sofeigi eða sofattu, en það er bæði fjarri orði ritsins og óeðlilegt, því íslenzka hefur ekki boðhátt til nafnorðsmyndanar. Neitun er jafnaðarlega í íslenzku tengð við orð með neikvæðu forskeytunum ó- eða ör- eða er- og svo er gert hér. Heitið er, vitaskuld, örsöfr eða ersöfe, sá, sem ekki sefur, og fyrir tillíking essöfe (sbr. fors, foss) sem kemur mjög vel heim við grísku stafsetninguna. 2. Ulvorsi, Holmfoss; manni má detta í hug íslenzki framburðurinn: Holmfríður fb. Hólfríður, þótt Thomsen nefni hann vitanlega ekki. 3. Gelandri, Gellandi (Gjallandi). 4. Aeifor, eiforr eig. þeim, er æ steypir fram. 5. Varuforos, bárufoss. 6. Leanti, hlæjandi gerir Thomsen úr því, en slafneska heitið er Verutse, ólga, iða og þykir hlæjandi ekki ná þeirri merkingu. Lá og lágarðr er nefnd ólga sævar með ströndum fram, komið af sögninni að lá, og af henni er sennilega fossanafnið sem sé láandi. Það gerir heitin greinilega sammerkt. 7. heitið er Strukun; Thomsen vísar til norsku stryk og sænsk. struk, en heitið er strókr eða strokkur, eig. merkingar sama og buna, mjór og hár foss; nafn á alkunnum hver; og er orðið komið af sögninni að strengja og eins framan greind orð stryk og struk en ekki af strjúka, þótt svo sé rakið í nýnorsku orðtengðaorðabók A. Torps.



# Höfðingsháttur

## í ræðu riti og athöfn

Eftir *Guðmund Friðjónsson.*

Lýðmentun og lýðræði eru nú gerð að keppikeflum í flestum löndum. Sú bumba er barin, að höfðatalan eigi að ráða. Það er látið í veðri vaka, að þúfnakollarnir eigi að ráða yfir Herðibreið, Heklu og Hvítserk. Þeim mönnum fjölgar, sem kalla mætti sendibréfsfæra og slíkt hið sama þeim, sem sprænt geta frá sér orðabunu á mannamótum. Yfirborðsþekkingin færir út kvíarnar, þvílíkt sem uxahúð Ívars beinlausa forðum tíð. En vöxtur og viðgangur sannrar djúphyggju situr á hakanum. Einn og einn djúphyggjumaður býr eða dvelur úti í horni þeirrar veraldar, sem lætur móðan mása og lætur sér fátt um finnast alltsaman, óðagotið og málrófið. Þeir eiga þann úrkostinn helstan að tala við sjálfa sig, í einrúmi, eða þá hálfum hljóðum. Þá dreymir um, þegar bezt gerir, að þeir kunni að eiga orðastað í öldinni, sem kemur. En þá sáluhjálp munu fáir hljóta, því flestum verður stjakað út í myrkur gleymsku og þagnar.

Mér brá í brún, hálft í hvoru, síðastl. vetur við ummæli frumvaxta konu, sem eg ræddi við í höfuðstaðnum um bókmentir. Hún er skáldmælt og skýr, að því leyti af betri endanum, og vinnur skrifstofuverk. "Við, sem sitjum alla daga í skrifstofunum verðum slepjuleg og þreytt, hálfsljó, og viljum á kveldin hafa léttmeti handa sálunni, eitthvað, sem hvílir hugann, eða að m. k. eykur ekki við þreytuna. Þungar og langar ritgerðir og örðug kvæði látum við fara framhjá okkur, eða hættum við þessháttar efni hálflesin. Við förum heldur á kaffihús eða kvikmyndaskála eða í leikhúsið, eða á dansfund"—

Þarna fekk eg sönnun þess, er mig hafði lengi grunað og vakið hafði mér kvíðboga bæði um hádegi og í ljósaskiftum: að þrátt fyrir aukna lýðmenntun og margfaldan aðgang að fræðslu, eru höfuðkúpur þorra manna að tæmast, fremur en fyllast, af skynsamlegu viti. Hraði lífsins, sem menningunni fylgir, skapar grunnýðgi eða veitir henni að m. k. handleiðslu og brautargengi. Störf sem keimlík eru þeim, er vélarnar geta afkastað, halda aftur af frumlegri vitsku og athygli, og þráin sú, sem stendur á stiklunum yfir því að komast að léttu vel launuðu starfi eða inn á svið gróðabragða, hún bindur sjaldnast á herðar mannsins birði mannvitsins. Sá, sem leitar fast eftir uppgripa fé, eða nafnbótum, fer á mis við hitt, að kafa eftir dýrindisperlum.

Þess er að vænta, að þorri manna haldi sér við láglendi. En

þeir, sem ætla sér í fyrrúmin, ættu að temja sér höfðingsháttinn, áður en þeir klæðast skikkju forkólfanna. Þessháttar fyrirbáta er hægt að finna í frásögum liðinna alda, og því er nú það, að skammlaust er og jafnvel sæmilegt að horfa um öxl, oftar en sjaldnar.

Rætur mannvitsins eru í landi lífsreynslunnar. Rosknir menn, sem enn lifa, í orðum sínum að m. k., hafa til brunns að bera þau vitsmunadýrindi, sem lýsa eins og geilsa-málmur í hálfrökkri aldanna, frá kynslóð til kynslóðar. Mestu gáfumenn og ritsnillingar, t. d. Carlyle seildist til liðins tíma, þegar þörf var á fyrirmyndum til ábendingar. Hann ritaði jafnvel mikla bók um ábóta einn, er lifað hafði forðum daga, stórmenni að ráðríki og lærdómi. Þennan skörung hafði hann að ljóstri á tímann—mennina, sem höfundinum voru samtíða. Mér verða því dæmi góðra greppa, þegar eg seilist til fornmanns eftir dæmum orðsnildar og mannvits. Eg velki ekki fyrir mér áttirnar, vel norrænar fyrirmyndir fyrst og fremst, og er þá Íslendingnum bent þangað, sem hann á upplönd kynkvíslar sinnar og jarðveg ættbálksins. Hvert ætti að renna hugsjónum, ef ekki þangað, þegar vér viljum láta oss dreyma með opnum sjónum.

Það er þá upphaf tilvitnana minna, að eg opna Konungsskuggsjá og spyr hana um mannvit. Svarið er ljóst og skilmerkilegt, þó í líkingu sé: "Mannvit er með mörgum háttum, því að það stendur á margkvísluðum rótum og vex af mannvitsrótum hinn sterkasti stólpi, er vera má og kvíslast síðan með stórum greinum og margföldum limum og meður misjöfnum kvistafjölda, og eru þeir fleiri (menn) er smávendi hljóta af mannvitskvistum, heldur en stórar greinar. Sumir hljóta ina smæztu kvisti, en sumir eigi nema lauf eitt. En fáir eru þeir, er með öllu hljóta ekki."

Þessi einkennilegu ummæli virðast gera ráð fyrir því, að mannvitið sé vöggugjöf eða erfðafé. Ef svo væri einungis og skilyrðislaust myndi eigi tjá að seilast til þessara gæða eða biðja um þau. Ef vitskan kæmi yfir mann eins og dúfa af himni, myndi lítið stoða að renna bænaraugum upp til hæða eftir þeirri náðargjöf. Forsjónin mundi verða þykkeyrð og skamta þessi gæði eftir hugþótta sínum. En höfundur Konungsskuggsjár slær varnagla við því, að viskan öll komi ofan að yfir mennina. Hann bætir við þessum orðum: "Sá, er mjög vill elska þennan auð og örlega veita, þá hlýtur hann mikið af, því að þessi auðæfi hafa þá náttúru, að þau dragast þeim mest til handa, er mest elskar þau. Og ef menn kynni rétt að meta þessi auðæfi eftir réttindum, þá myndi svo sýnast hvorttveggja gull og silfur sem það væri ryð eða mold eða aska, hjá þessum auðæfum. Og sá er eignast vill þessi auðæfi, þá skal hann það upphaf að hafa að elska almáttugan guð umfram hvervetna."

Það er eigi kynlegt að höfðings-

bragur er á höfundi Konungsskuggsjár, er hann ræðir um stofn og greinar og lauf mannvitsins. Hann hefir setið við Mímisbrunn Norrænunnar, og við Urðarbrunn undir aski Yggdrasils, hlýtt á ljóðspeki Hávamála og setið við langeldana á kveldin og horft inn í þau ljósaskiftin, sem forneskja og saga kveikja á milli sín. Hann hefir vald á máttugu en þó líkingaauðugu máli og "hann finnur hitann í sjálfum sér og sjálfs sín kraft til að standa mót" ys og þys þeim, er múgamergðin vekur og magnar, þegar henni er hóað saman með kvikandi örvaboði flokkadráttarins og snakillskunnar.

Höfundur Konungsskuggsjár telur elskuna til lifanda guðs undirrót vitskunnar. Vér, sem höfum barist við það langa ævi, að ná í klæðafald drottins, eða þá í einn lítinn mola af borðum þess góða húsbónda, sem hefur að lokum í boði sínu lítillátu spekingana—vér stöndum þannig að vígi, að á oss renna tvær grímur frammi fyrir höfundi Konungsskuggsjár. Vér þykjumst hafa mannvitið úr stærðfræði, eðlisfræði, málfræði o. s. frv. En þó mun flestum fara svo að leiðarlokum, að þeir kjósa sér það hlutskiftið að ástúðin loki augunum—veiti þeim nábjargirnar. Sjálfbirgingsháttúrinn verður ekki úrræðagóður þegar áherðir. Mér kemur í hug skáldleg og höfðingleg frásögn í ræðum Jóns Bjarnasonar kennimanns í Vínlandi: Norðurfari var á leið til heimskautsins og hvataði norður á bóginn, með því föruneyti og farartækjum, er hann átti völ á. Hann mældi og stikaði eftir dagleiðum, og taldi sig á hverju kveldi hafa áunnið drjúgan spöl. Þó hafði hann ekki þokast þumlung né spönn að takmarki sínu. Hvað var það, sem vilti honum sýn? manni, sem kunni stærðfræði og aðra veraldarspeki. Honum skjátlaði af því hann var á valdi dularafla máttugra. Hann var staddur á geysimikilli ísey, sem leynilegur undirstraumur hafdjúpsins bar suður á bóginn örara en norðurfarinn tifaði norður. Kennimenska, sem hittir á og hagnýtir sér þessa líkingu eða aðra eins, getur með höfðinglegri vitsku sinni leitt mannssálina að þeim stólpa, sem hún getur haldið sér utanum þegar á bjátar. Í þessari frásögu felst sú speki að margir, sem þykjast vitrir og ætla sig vera á leið að takmarki viturlegu, eru í raun réttri að fara aftur á bak. Hver, sem vill sannprófa vöxt sinn og viðgang, getur stungið hendinni í barm sér og þreifað eftir holdum sálar sinnar og samvitsku.

Ætla mætti að höfðingjarnir andlegu þekktust af tilburðum sínum og framkomu, en það bregst þó sífellt, að almenningur átti sig á þeim.

Nágrönnum höfðingjans verður oftast skotaskuld úr því, eða þeim sem samtíða eru stórmenninu. Spámaður þekkist sjaldan í föðurlandi sínu, eða verður viðurkendur fyrr en búið er að jafna um hann með steinkasti, eða græn torfa hefir fengið tóm til að búa um hann með hægðinni. Sturla

Þórðarson var vitsmunamaður og svo sanngjarn, að hlutdrægni komst honum hvergi nærri. Þó kom hann ekki auga á ritsnillinginn í Reykholti, svo að heitið gæti. Það má kalla tilviljun, að hann drepur á það, að Snorri ritaði bækur, og þó að Sturla lýsi summum lítt völdum mönnum, er hann segir frá, eða getur um, verður honum það ekki til tafar að lýsa Snorra, með einu orði. Snorri sjálfur mat snild sína og stærð ekki meira en það, að hann lét ekki nafn sitt á titilblað bóka sinna, þeirra, er hann setti saman. Ein níðvísa er til um Snorra frá samtíð hans, það er eina umsögnin um þennan ódauðlega snilling. En vera má að hann hafi haldið leyndri bókagjörð sinni, svo að t. d. morðingjar hans hafi eigi vitað deili á þeim andlega höfðingja, sem snakillska þeirra lagði undir. Hafi svo verið, væri það afsökun þessum mannsmyndar úlfum.

Höfðingjaháttur Snorra í rithætti verður seint oflofi hlaðinn, hvort sem tilfinningin leggur á hann mælikvarðann, eða honum er skákað með samanburði við aðra. Kaflar í Eddu og gjörvöll Heimskringla sýna tíguleik hans, bæði efnisvalið og svo meðferðin öll á mönnum og atburðum. Úr Eddu vel eg frásögnina um Gjálp tröllkonu, er ætlaði að drekkja Þór með árvextinum. En þann vatnavöxt gerði hún með því móti, að hún stóð tveim megin árinnar ——En Þór kastaði steini og misti eigi marksins. Þessi frásögn stingur í stúf við frásögur klámskálda vorra tíma, sem gamna sér að kynfærum, ef hægt er að koma að einhverju gemsi um þau. Og þó Snorri væri all-breyskur í breytni sinni, lét hann ekki konungana velkjast í óhreinindum breyskleikans í frásögn sinni. Hann gengur fram hjá einkamálum, ef þau eru lítilmótleg. Eg tek þrjú dæmi úr Heimskringlu, er sýna höfðingsmót ritháttar hans, og eru þau valin af handahófi svo að segja, en þó valin þannig að gripið er niðri í stuttum frásögnum, af því að rúmið er takmarkað, sem eg ræð yfir. Fyrsta dæmið greinir frá Þjóðólfi skáldi úr Hvini, er fóstrað hafði einn af sonum Haralds hárfagra og Snæfríðar, dóttur Svása jötuns. Konungurinn lagði á hana ofurást, svo að hann sat jafnvel yfir henni dauðri langa tíma. Spakur öldungur opnaði augu konungsins fyrir þeirri vitfirring. En þá lagði hann óvirðing á sonu sína og finnurnar. Þjóðólfur fór þá að áeggjun fóstursonar síns á fund Haralds konungs og lauk upp hugskoti hans með þeim gull-lykli snilldar og vitsmuna, sem aldrei mun ryðbrenna. Hann talaði stutt við konung og ekki þvílíkt, sem þingmannaefni nú á dögum, er þeir gemsa við háttvirta kjósendur, eða löggjafar í þingdeildum. Hann mælti á þessa leið: "Eigi sómir þér konungur að fyrirlíta sonu þína, því fúsir væru þeir að eiga betra móðerni, ef þú hefðir þeim það fengið." Nú ef einhver vildi snúa þessu við, þannig, að Snorri hafi búið til orðin og lagt þau Þjóðólfi í munn, þá

væri það undanbragð hégómlegt. Tilburðir lífsins eru jafnan á undan tilburðunum er skáldin tefla fram og stórskáld, hvað þá hin, sem lítil eru, komast aldrei til jafns við lífið sjálft í fjölbreytni og ólíkindum. Þjóðólfur var höfuðskáld í Noregi þegar sönn saga hefst. Og þessi orð, sem hann á að hafa mælt, sýna það og sanna, að þá var speki og málsnilld komin svo hátt, sem norrænn andi hefir komist, og höfðingsháttur úrvalsmanna sprunginn út, svo að sá fífill hefir ekki orðið fegri síðan.

Annað dæmi vel eg af viðtali Ólafs konungs digra og Hákonar jarls, er var sonarsonur Hákonar Hlaðajarls. Konungurinn kom að jarlinum óvörum, steypti skipi hans kollhníss og tók jarlinn af sundi, 17 vetra ungling og lét hann leiða fyrir sig. Snorri segir frá þeim á þessa leið: "Hákon jarl var uppleiddur á skipið konungs; var hann allra manna fríðastur er menn höfðu séð; hann hafði hár mikið og fagurt sem silki, bundið um höfuð sér gullhlaði; settist hann í fyrirrúmið. Þá mælti Ólafur konungur: 'Eigi er það logið af yður frændum, hversu fríðir menn þér eruð sýnum, en farnir eru þér nú að hamingju.' Þá segir Hákon: 'Ekki er þetta óhamingja, er oss hefir hent, hefir það lengi verið, að ýmsir hafa sigraðir verið. Svo hefir það og farið með yðrum og vorum frændum, að ýmsir hafa betur haft, en eg lítt kominn af barnsaldri; voru vér nú og ekki vel viðkomnir að verja oss; vissu vér nú ekki vonir til ófriðar; kann vera að oss takist annað sinn betur en nú'. Þá svarar Ólafur konungur: 'Grunar þig ekki það jarl, að hér hafi svo að borið, að þú mynir hvorki, héðan í frá vinna sigur né ósigur'. Jarl svarar: 'Þér munuð ráða konungur að sinni.' " Við þessar undirtektir jarlsins og höfðinglega framkomu vaknaði drengurinn í Ólafi svo hann gaf honum grið, með því móti að jarlinn ynni sér eið að því að fara úr landi, og láta það ógert að bera herskjöld, eða reisa rönd móti Ólafi konungi, þaðan í frá. Þarna mættust tveir höfðinglegir menn og áttust við, reyndar ójafnan leik, en báðir létu manndóminn njóta sín og gerðu honum hátt undir höfði. Þriðji höfðinginn stendur yfir þeim eða andspænis og tekur af þeim mynd, sem handbragð snilldarinnar er á. Það er líklegt að Snorri skapi, að sumu leyti þetta samtal, en það skiftir engu máli. Hafi hann lagað það í hendi sér, kom það til af þeirri höfðinglegu andagift, sem hann tamdi sér við skrifborðið.

Þriðja dæmið tek eg úr Heimskringlu, þar sem Snorri gengur frá Hákoni Hlaðajarli, afa Hákonar þess, sem nú var nefndur. Hákon eldri varð svo óvinsæll að lokum, mest fyrir gripdeildir sínar, þar sem kven-sómi var fyrir, að hann var kallaður: "jarl inn illi." Mælt er og að honum drægi til óvinsældar það fádæmi er hann blótaði syni sínum til sigurs sér í Jómsvíkinga bardaga, efnismanni á unglings aldri. Snorri mælir

þessi höfðingsháttar orð yfir Hákoni föllnum:

"En það er satt að segja af Hákoni jarli, að hann hafði marga hluti til þess að vera Höfðingi, fyrst kynkvíslir stórar, þar með speki og kænsku að fara með ríkdóminn, röskleik í orrustum og þarmeð hamingjuna að vega sigurinn og drepa fjandmennina. Manna örastur var Hákon jarl, en ena mestu óhamingju bar slíkur höfðingi til síns dánardægurs. En það bar mest til er svo varð, að þá var sú tíð komin, að fyrirdæmast skyldi blótskapurinn og blótmennirnir, en í stað koma heilög trúa og réttir siðir."—Þarna grípur Snorri á þeim streng, er hann lætur oftast ósnertan, að forsjónin hafi unnið úrslita sigurinn á Hákoni jarli. Með því móti verður jarlinn enn meiri, en ella.

Snorri Sturluson gælir ekki við lýðskrumara heygarðshornið, þegar hann mælir eftir jarlana.

Höfðingsháttur Sturlu Þórðarsonar jafnast á við tíguleik Snorra eða vel það, þegar þess er gætt, að Snorri fjallar um stærri viðfangsefni. Konungshugur nýtur sín betur við konungleg efni, en kotungsmál.

Vegna rúmþrengsla vel eg eitt dæmi aðeins úr Sturlungu. Eg vík mér þá að rústum Flugumýrarbrennu. Þar var inni brenndur tengdasonur Sturlu, en dóttir hans Ingibjörg leidd út úr eldinum berfætt og í náttserk. Þegar lokið er frásögninni af vopnagangi og eldsumbrotum, sem svo er hlutlaus að á hvorugu er hallað, sem þar áttust við, lætur Sturla þennan eftirmála fylgja:

"Þessi tíðindi spurðust brátt, og þótti öllum vitrum mönnum þessi tíðindi einhver mest hafa orðið hér á Íslandi, sem Guð fyrirgefi þeim er gerðu, með sinni mikilli miskunn og mildi."

Þau ummæli Konungsskuggsjár, að það sé upphaf allrar vitsku að elska allsvaldanda Guð, hafa sannast á Sturlu Þórðarsyni, því að þessi fögru ummæli yfir Flugumýrarrústum eru óskyld látaláta guðhræðslu eða uppgerðar trúrækni, og slíkt hið sama fjarlæg þeim sjálfbirgingshætti, sem þykist vera á þróunarleið og viðgangs, en er í rauninni að fara aftur á bak—berast með straum, sem er undirförull og beitir ofríki, þó hæglátur virðist í skjótu bragði. Hvar eru þeir bókmenntafrömuðir, sem nú á tímum mæla svo tígulega yfir óvinum sínum, eða þá þjóðmálamenn svo höfðinglega sanngjarnir?

Rithöfundar vorir á Sturlungaöld voru svo að segja jafnaldrar Sverris konungs, en sumir menn halda að hann hafi samið Konungsskuggsjá. Hula óvissunnar liggur yfir því atriði, hver er höfundur hennar, en hitt er víst, að hann flutti þær ræður á mannamótum, sem furðu vekja og aðdáun, enn í dag. Eg tek til dæmis ræðu Sverris um ofdrykkju. Bindindisræður á vorum dögum eru lítilmótlegar í samanburði við hana, og bannmælgin slíkt hið sama. — Sverrir flutti erindi þetta á húsþingi nokkurs konar, þar sem fjölmennt var.

"Vér viljum þakka hingaðkomu

öllum enskum mönnum, þeim, er hingað flytja hveiti og hunang, flúr og klæði; svo viljum vér og þakka þeim öllum, er hingað hafa flutt léreft eða lín, vax eða katla. Þá menn viljum vér og tilnefna, sem komnir eru af Orkneyjum eða Íslandi og alla þá, er flutt hafa í þetta land það, er eigi má missa, og þetta land bætist við. En um þýðverksa menn, er hingað eru komnir, mikill fjöldi og með stórum skipum, og ætla héðan að flytja smjör eða skreið, er mikil landeyða er að þeirri brottflutning, en hér kemur í staðinn vín, er mönnum hafa tillagst að kaupa, hvortveggja mínir menn og borgarmenn eða kaupmenn. Hefir af því kaupi staðið margt illt, en ekki gott. Hafa margir hér týnt sínu lífi fyrir þessa sök, sumir limunum; sumir bera annars kyns örkuml allan aldur sinn, og sumir svívirðing. Sumir verið barðir eða særðir, og veldur þessu ofdrykkja. Kann eg þeim suðurmönnum mikla óþökk fyrir sína ferð. Og með því að þeir vilji halda lífinu eða fénu, verði á braut héðan sem fyrst, og hefur þeirra erindi orðið oss óþarft og voru ríki. Þér meguð á minnast, hvað efni ofdrykkjan er, eða hvers hún aflar, eða hverju hún týnir. Það er hið fyrsta, er minnst er að telja, að sá, er ofdrykkjuna þýðist, þá fyrirlítur hann allan fjáraflan og tekur þar í mót ofdrykkjuna og hennar andvirði, týnir öllu fénu og glatar. Því að sá maður, er áður var fullsæll af fénu, þá verður hann vesæll og volaður og fátækur, ef hann fyrirlítur hana eigi. Sá er annar löstur ofdrykkjunnar, að hún týnir öllu minninu, gleymir og því öllu, er honum er skyldast að muna. Það er hið þriðja, að þá girnist hann alla hina röngu hlutina, hræðist þá ekki að taka fé með röngu og svo konur. Sá er hinn fjórði hlutur ofdrykkjunnar, að hún eggjar manninn að þola engan hlut, hvorki orð né verk, gjalda öllu í mót hálfu meira illt en til sé gert, og þar umfram eggjar hún til þess að leita lastmæla á þá, er óvaldir eru. Þessi hlutur fylgir og ofdrykkjunni, að maðurinn þreytir líkama sinn, sem hann má að þola vandræði, mæðast af vökunum, týna blóðinu í öllum liðunum, og spilla blóðinu til vanheilindis og þarmeð týna allri heilsunni. Og þá er svo er þunglega komið, að fyrirfarið er, af ofdrykkju, allri heilsunni og eigunni, og þar með vitinu. Þess eggjar hún þá að fyrirfara því, sem ekki var áður týnt, en það er sála hans. Þá eggjar hún þess að vanrækjast allri siðsemi og réttum boðorðum, en girnast syndirnar og afhugast allsvaldanda Guði og öllu hinu rétta, minnast á engann hlutinn, þann, er hann hefir gert. Lítið nú á, ofdrykkjumennirnir, er þér skiljist frá öllu í senn, ofdrykkjunni og lífinu, hver þá mun viðgrípa sálunni. Minnist nú á, hversu ólíkt þetta líf er því, er vera skyldi; því að öllum hlutum skyldi stilling fylgja ............ Var þetta mál vel rómað af öllum vitrum mönnum og þótti vel talað."

Söguritarinn, Karl ábóti, bætir þessu við. Annars kemur það

sjaldan fyrir að sagnaritarar vorir stingi upp höfðinu milli atburða og lesenda. Honum hefir þótt kveða að þessu erindi og munu fáir lá ábóta það.—

Mannsandanum hefir eigi farið fram að höfðinglegri skynsemi síðan Sverrir var uppi. Sverrir flutti margar ræður, sem saga hans geymir, og eru allar höfðinglegar. Þegar þær eru lesnar, kemur mér í hug það, sem haft er eftir Benedikt sýslumanni Sveinssyni, þegar Jón forseti hafði lokið við stóru ræðuna á alþingi: "Herra Guð og himneski faðir (orðtak hans) en að slíkir menn skuli ekki lifa eilíflega"—í holdinu.

Sverrir Norðmannakonungur var latínulærður og hafði numið þau fræði er þá voru kennd. Það er ekki mesta furða, að hann gat talað spaklega og haft á ræðum sínum höfðingjamót. Hitt er enn meira undur, að íslenzkur kotbóndi, sem liggur við sveit, skuli hafa haft í fari sínu þann aðsúgs mátt og höfðingjabrag að nærri stappar því, að hann rjúfi himininn kringum hásæti Guðs, hrumur af elli. Það er mark á andlegum höfðingja, að hann er djarfur, og hirðir ekki um háskann: "Til frægðar skal konung hafa, en ekki til langlífis," sagði Magnús konungur, frændi Sverris. Bólu-Hjálmar gleymir því, hve valdalaus hann er á veraldar vísu, þegar hann býður birginn himna konunginum. Hitt veit hann, að hann er yfirvald á orðaþingum, og fulltrúi skáldgáfunnar á tyllidegi alþjóðar. Hann talar ekki "af heitum dreyra" til þóknunar almenningi, enda er lýðskrum og lýðræði ókomið þá til sögunnar, í landi voru. Þar er maður, sem kveður sjálfan sig stóran, þegar tilefni gefst. Og tilefnið þarf ekki að *gefast*. Slíkur maður *skapar* sér tilefni—á gæruskinninu sínu í baðstofukytru, sem svo er gerð, að dyr hennar eru ekki manngengar. Og kviðlinga sína verður hann stundum að rita með krít á baðstofurúðuna, af því að ritföngin eru uppgengin. Meiriháttar skáld þjóðar vorrar hafa leikið þá list, sem ávalt skyldi metin, að hefja upp í æðra veldi hversdagsatburði, með snild orðavalsins, og hljómi háttanna. Tökum t. d. þennan vísuhelming:

"Kulið dauðans gegnum gnæðir
gisið sálartjaldið mitt."

Hrörnunarhætti líkamans er lyft upp, svo að undir hann hyllir, þegar líkamin er kallaður tjald sálarinnar. Konungar bjuggu í tjöldum, og þangað hvarflar hugurinn. Ef hann hefði kallað líkamann birgi eða hreysi sálarinnar, var kotungsmerkinu brugðið á skáldið, og höfundinum vísað á bekk hjá eymdinni. Aftur á móti fer vel á því að nefna hreysi í upphafi Örvar Odds-rímu. Þá fagnar hann yfir því að eiga þess kost, að fara um víðáttuna á skáld-fákinum, burt úr bælinu, þegar uppbirtir dimmviðri:

"Milli hríða hreysi frá
heims um víða geima
hvarflar tíðum sefi sá,
sem að níðist heima."

Þetta er ekki tímavinna að kveða um Odd, sem varð 300 ára gamall, og nam hvergi yndi, og því síður "akkorðsvinna" en þó er það hátíð hjá hinu að sitja mállaus og þæfa sokka. Meðan Hjálmar fylgir Oddi, gleymir hann fátækt sinni, og í þeirri fylgd nýtur hann auðlegðar sinnar, sem skáldgáfan og tungan hafa veitt honum í vöggugjöf. Hann er höfðingi yfir orðum, ljóðlínum og hætti, meðan hann yrkir. Þá stundina er hann hafinn yfir þá raun að "níðast heima." Hjálmar slæst í för með víðförla manninum, sem völvan spáði þeim aldurtila, að hann myndi bíða bana í Berurjóðri, af völdum haussins af Faxa. Þá var Oddur konungur í Garðaríki og lifði við auð og völd og göfugt gjaforð. Hjálmar fylgir Oddi norður yfir hafið til Hrafnistu. Bólu-bóndinn hefur siglt til Grímseyjar eftir skreið; hann þekkir bylgjugang og bólstra stormsins:

"Kiljan meiri klökkum hlóð
klæddi fjalladranga
meðan dreyra-Vignis vóð
vængjuð negluslanga."

Þarna er sjórinn kallaður dreyri Vignis jötuns og skipið höggormur neglunnar, og ekki bregst Hjálmari bogalistin, þegar hann kemur í Berurjóður, sem uppblásturinn hefir leikið grátt, svo að Faxahausinn liggur þar ofanjarðar; sá sem Oddur dysjaði djúpt í jörð á bernskualdri sínum. Naðra hrekkur úr þeim haus og bítur Odd í fótinn, til bana. Þar er blásna landið þannig málað með hendi Hjálmars:

"Blómstrið gelda bar ei þrek
bruna móti sólar;
þegar á veldi vindur lék
veinuðu hvítir njólar."

Vér þekkjum geldneyti, geldfugl, geldfé, en geldblóm spretta fyrst eða æpa í kringum Bólu-bóndann. Og þá er það enginn peðleikur, að vindurinn leikur á veldi, þ. e. a. s. á jörðina, þar sem sólbruni hefir skrælt landið. Þegar Hjálmar kveður um *hvíta* njóla, sem *veina* í Berurjóðri, hefir hann, bak við eyrað, blásið land fjallkonu, sem er beinaber og hefir fölar kinnar yfir visnum brjóstum.*)

Það höfðingsmark er á þessum lýsingum, að þær eru stórskornar og máttugar og teknar upp við almannaleið og einstígi hins fágæta manns. Andi—sefi, sem "níðist heima" kennir til, þegar hann minnist sára Fjallkonunnar. Hann þekkir óvin veðurblíðu og gróðurs, sem fer og farið hefir upp, aftur og aftur, herskildi um haga og tún og eldi hið efra um

*)Dr. Jón Þorkelsson mælir þessum höfðinglegu orðum yfir Hjálmari: "Í hinu litla og lága býli hans brann heitur geðfasti á arni og afli og þaðan hafði varpað mörgum vel þegnum ylgeislum til góðra manna í samtíð hans, þó að bitmýið, sem hætti sér ofnærri loganum, kynni stundum að brenna sig. Flugum er aldrei hent að fara í ljósið. Og ljós finnst oss nú brenna yfir býli Hjálmars skálds, er vér rennum þangað hugskotsaugum, og frá afli þeim, er þar er kyndur, munu sindra bjartar síur langt í aldir fram til komandi kynslóða." Svo mælir höfðingi andlegur um höfðingjahug. Þær sálir og þeir andar, sem kynda vita, sporna við því að þjóðirnar verði niðurlútar; og það hið sama gera ljósberarnir, sem deila vita-eldinum.

afrétt og afdali og öræfin, sem fögur eru í fjarska móðu-blámans. Sagan um Berurjóður, auðnina þar og vallgrónar tóftir er sígild og bendir á ótal stöðvar í hverri sveit lands vors. Þessvegna er þessi sögusögn mikilsháttar, áður en skáldmáttur Hjálmars setur á hana ættarmót höfðingjans og margfaldar áhrifin þannig.

Andlegir höfðingjar bókmentanna muna þá list og iðka hana, að setja á hversdagslega atburði stórskorinn svip. Stundum velja þeir fágæta atburði úr algengum. Þeim er og lagin sú list, að sjá undir yfirborðið, og finna þar dýrindi, sem algengir menn sjá alls engin. Mér kemur í hug Stephan G. Stephansson í nánd við öræfaandann:

"Um grenidal við espiás
en engra vegamót ;
við höfum elt um langa leið
úr landi þotið fljót.
Nú þroskast korn í kargahyl
og kot á broti er reist.
Í landnám fyrsta frumbýlings
sú forná hefir breytst."

Miðlungsmaður myndi ekki sjá þarna annað en langa dæld. En skáldið sér farveg fljóts, sem er farið úr landi. Skáldið reisir upp frá dauðum þessa forná. Skygni þess og orðsnilldin hjálpa til við þá upprisu. Þetta frumlega málverk orðsnilldar og hugkvæmni. "Við höfum elt um langa leið, úr landi þotið fljót" er miklu tilkomumeira en að segja: Við fórum lengi eftir lægð, sem virtist vera forn árfarvegur. Og áhorfandi málverksins fellur í stafi yfir þeirri breytingu, sem orðin er þarna á öldum aldanna að:

"Nú flokkast hjörð á flúðum þar,
er fiskur áður svam
og bundið tjóðri stendur stóð
þar strengir ruddust fram."

Og skáldið fer ennþá víðar og lengra:

"Er allt að skrælna í eldsmatinn
til efsta-dóms, eg spur?"

Sumir rýningarmenn halda, að jörðin muni deyja af þorsta. Sú mikla spurning vaknar þarna á þessum undarlegu stöðvum. Þetta er ekki smásálarbragur, sem þarna er á ferðinni, heldur andi, sem kveður sjálfan sig stóran. Til þess þarf hann ekki farveg fornrar elfar, sem er flutt úr landi. Stundum nægir til þess lítill lækur, sem vex af regni og þey.

Svo er höfðingjum háttað í andans heimi, að þeir gera mikið úr litlu—því sem öðrum sýnist og virðist vera lítið. En bókmenta smámennin þekkjast á því, að þau "tæta lítið upp í minna." Þegar höfðingjar þessir falla í valinn, styður eftirsjáin hönd undir kinn og segir með sáldinu Sig. Sigurðssyni frá Arnarholti:

"Hér féll grein af góðum stofni
grisjaði dauðinn meira en nóg."

Þessi orð koma sízt í bága við orð Konungsskuggsjár, um stofn og greinar mannvitsins og er þá ekki í kot vísað snilldinni.

Ýmsir ungir menn, sem nú kveða á Íslandi, fara vel með málið, hættina og efni þau, er þeir

velja sér. En svo virðist mér, sem þá skorti tilfinnanlega höfðingsháttinn í kveðandi sinni. Ef svo er að láglýðskan sé að fletja þá undir sig, þá er það harmurinn meiri, og ef bókagerð vor sækir í það horfið, að hirða ekki um tíguleikann, þá er eða væri verr farið en heima setið. Hverjir ungling-ar Braga mundu nú kveða eins og Grímur á Bessastöðum, þegar hann lítur út fyrir Reykjanes og yrkir um þau umbrot, sem þar gerast:

"Komið þar upp og aftur horfið
eyjar geta líkt og skarfar."

Sama markið er á handbragðinu austur á sandinum Sólheima:

"Þar jökulsá spinnur úr jakatoga
band
og jökullinn í hafið gægist niður."

Reyndar eru þarna stórir kraftar að verki, sem leggja til efnið í stórar hugsanir. En hitt er ekki stórt efni, sem lagt er á borðið, þegar skáld missir móður sína gamla, en úr því verður Einari Benediktssyni mikið. Harmurinn verður höfðinglegur við það tækifæri, eins og bragur hans reyndar oftast nær:

"Dagar þíns lífs, þínar sögur, þín
svör
voru sjóir með hrynjandi trafi."

"En bæri eg heim mín brot og
minn harm
þú brostir af djúpum sefa,
þú vógst upp björg á þinn veika
arm
þú vissir ei hik eða efa.
Í alheim eg þekti' einn einasta
barm,
sem allt kunni að fyrirgefa."

Allt er þarna jafn höfðinglegt, játning sonarins og fyrirgefning móðurinnar, sem er svo sterk í veikleikanum, að hún getur fært úr stað Grettistök. Tvær flugur meistaralegar eru þarna slegnar í einu höggi, og er þó aðstaðan miklu verri eða óhagstæðari, en þegar skáldið kveður um Dísarhöll í Lundúnum, Týnarsmiðjur í Nýjakastala eða Spánarvín.

Þegar er um að tefla höfðingshátt í ræðu og riti, má ekki gleyma eða ganga framhjá líkinga-kenningum. Þær eru notaðar til þess að undir hilli það, sem frá er sagt, svo að það verði tilkomumeira og fríðara. Eg nefni fornu vísuna, sem enginn veit hver gerði:

"Erum á leið frá láði ,
liðnir. Finnum skriðnu;
austur sek fjöll of flausta
ferli geislamerluð."

Heimatökin eru hæg að bera þetta saman við frásögu óbundins máls. "Vér erum á leið frá Finnmörku, þar sem menn far um á skíðum, og í austri sé eg fjöll sólskinsins af skipi mínu."

Hrynjandi háttarins og líkingarnar setja höfðingsbrag á stefið. Sama lögmál lyftir þessari fornvísu eða efni hennar:

"Hvatt kveða hræru Grotta
hrægrimmastan skerja
úti fyrir jarðarskauti,
eylúðurs níu brúðir."

Kvarnarsnúningur Ægisdætra

utan við strendur jarðar, verður mikilsháttar í þessari mynd. Nafnið á sænum: eylúður er stórfagurt og orðið hrægrimmur er mikilúðlegt. Naumast getur meiri tignarbrag á vísu. En það er satt, að hans verður ekki notið fyllilega, nema því að eins, að skilningur sé til staðar. Þessháttar skáldskapur skákar sálunni undir gáfnapróf. Eddulistin er ekki svo gerð, sem kvikmyndalistin, að hún mati sálirnar með teskeið og stingi upp í þær dúsu með jórtraðri tuggu.

Nú sný eg mér frá dæmum ljóðagerðar, sem vottar um höfðingsshátt og vík að dæmum í sundurlausu máli. Þau verða fá, af því að þessháttar dæmi verða ekki fundin, nema heldur löng. En rúmið leyfir ekki margar lengdir.

Þá er þess að geta, að veröldin er orðin barmafull af bókum. Andleg rindilmenni og tyrðlingar bókmentanna hafa blaðrað um smásálnalíf í ár og aldir, rithöfundar, sem trúað hafa á portkonur í ljósaskiftunum, en í morgunsárinu haldið, hálft í hvoru, að einhver geðlaus guðsnefna væri til, sem hirti þó hvorki um himin né jörð. Þessir langilja bókagerðamenn hafa fyllt margar hillur með sviplitlum og kjarnalitlum bókum. Þá hefur skort höfðingshháttinn og þessvegna hafa þeir misst marksins. Svo er um tíguleika bókmenntanna, sem um mannvitið, að þau gæði öll dragast þeim til handa, sem rækja þau mest. Hann er að sönnu erfðafé, en þau verðmæti er hægt að ávaxta, einnig rýra þau, sóa þeim með því að kasta þeim á glæ eða í ruslakistu. Vel sögð sannindi eða djúpúðg snilld, verða eigi hrist fram úr erminni. Grafa verður eftir dýrindunum eða kafa í djúpin. Ein einasta líking getur verið svo torfundin að margra ára starf hafi þurft til að koma undir hana fótunum.

Þegar skáldið segir við læk:

"Þinn söngur varð hljómmeiri.
hækkandi fór 'ann
uns hafðirðu kveðið sjálfan þig
stóran."

Þó er það víst, að höfundur þessa sannleiks og líkingar hefur sjálfur vaxið við langa og marga örðugleika. Dægurþrasið eða suða dægurflugnanna, skilur ekkert eftir til næsta dags. Þeir, sem hlusta á það, bera ekkert heim með sér, sem nært geti sálina eða ornað henni.

Sá næring, eða sá ylur, sem andanum kemur vel, þarf þó ekki æfinlega og endilega að koma frá höfðingshætti. Bros ástúðar og ljúflingsháttur getur komið þar til greina. Eysteinn Noregskonungur sýndi í rauninni lítillæti Íslendingnum, sem dvaldi í hirð hans og tók ógleði, af því að hann missti unnustu sinnar. Konungurinn gekk á hann og spurði hann á marga vegu um orsök harmsins og bauð honum ýmisleg gæði til bóta, og þau síðast, er lítil virtust og minnst. En þau voru í því fólgin, að konungurinn gæfi sér tóm til að tala við Íslendinginn á alla vega og um konuna misstu. Þarna birtist höfðingshátturinn í lítillæti þvílíku, sem konungur

kristninnar hafði á boðstólum við lærisveina sína. Þegar þau ævintýri gerast, bregður höfðingsháttúrinn ljóma sínum á kaldan steininn, svo að hann brosir og hlær, sbr. "hlæja hlíðar við Hallsteini."

Eigi verða með rökum bornar brigður á það, að góður skáldskapur hefur áhrif á sálirnar. En þó eru þær tiltölulega fáar. Þó að skömm sé frá að segja, er það óhrekjandi staðreynd, að misendis samsetningur í óbundnu máli orkar á innri mennina meira og dregur þá niður á láglendi lífsins. Grautargerð frásagna, sem engan nærir stundunni lengur, virðist nú færa út kvíar sínar, og er hörmulegt til þess að vita. Þó er sú súpan verri, sem blaðamennsku ritlistin gula hefir með höndum í þjóðlöndunum, og sú skrílslega ræðumennska, sem fer á undan og fylgir þingkosningum. — Þessi veraldar-Gróa er svo lýgin, að hún á engan jafningja sinn, og svo málug, að henni verður aldrei orðfall. Svo er hún hirðulaus um rétt rök sem vornæðingur um gróður. Hún hnýtir sokkabandi sínu upp í múginn og teymir hann út í forað og fen. Þessi gula ritlist fer um allar jarðir veraldar, sér augum almennings fyrir moldryki, og spinnur "12 álna garn" úr slefu milli mála.

Menn, sem vita deili á norrænunni, að hún er fámælt og fastlynd og elsk að sannleikanum, geta ekki stillt sig um heilaga reiði, þegar þeir sjá og heyra að greykvendi agðast inn á óðal hennar og hlammar sér þar niður að boðflennu hætti. Dáendur Snorra og Ara, sem rituðu það eitt, er sanna mátti með dæmum, kenna til í hjartarótum, þegar ambáttin herjar á drottningarsessinn. Þetta er stigamenska, verstu tegundar sem þjóðmálalýgin stundar. Algengir stigamenn grípa hershöndum fémuni, sem mölur og ryð granda, en pólitísk stigamenska skellir hrömmum yfir mannorð og ódauðlegan orðstír saklausra manna.

Þórhallur biskup kenndi til sáran í höfðinglegu hjarta, þegar hann rifjaði upp hátterni samvizkulausra blaðamanna og þjóðmálasnápa. Hann komst að orði á þessa leið í Nýju-Kirkjublaði, og eru orð hans svo valin, að þau missa eigi marksins, þó að áratalið nú sé annað en þá var er hann hóf röddina.

"Það hefir orðið íhugunarefni um gervallan heim, hvernig hatursfullar blaðaárásir og eiturskeyti, dag eftir dag, með róg og tortryggni og getsökum sýkja hugi manna og ala upp í þeim allt hið lélegasta og versta og enda æsa þá, sem veikir eru til einhverra ódáða............Og því vildi eg bæta við að þessu sinni, að ekki er vert að ætla íslenzka blóðið svo þynnt og kalt, að grimmar æsingar gætu eigi, hér sem annarstaðar, alið af sér eitthvert ódæðið.

Það er ekki unnt að segja, hvort beiskara er og blindara, pólitíska hatrið eða trúarbragðahatrið. Við verulega sýktan mann er varla neitt reynandi. Öll vörn, hvað þá sókn, bara æsir. Verður að sitja hjá og halda augum og eyrum og huga frá—sem má. Og umfram

allt geyma sjálfs sín fyrir sóttnæminu.........

Hugsýktu mennirnir þekkjast á þessari sífeldu flísaleit í augum bræðranna og á dómunum, árásunum og getsökunum. Þeir eru altaf að grafa upp einhverjar illar og óhreinar hvatir að orðum og gjörðum manna. Og beiska haturslundin verður svo óviðjafnanlega hugvitssöm að skapa, búa til beinlínis ógögnin öll af skoðunum og kenningum hjá hinum.

Hvað við könnumst við aðferðina þá í pólitísku vondskunni, að það og það, sagt og gert af þeim og þeim, er haft að vopni á hlutlausan, sem í þarf að ná. Ekki að tala um orðaslitur og rangfærslur. Og allt, allt má eigna hinum........

Viðvörunarorðið alvarlega er það, að þeir dæmi aldrei um neinn mann, nema eftir hans eigin orðum, en ekki eftir því, sem um hann kann að vera sagt. Einangrunin er öruggasta sýkingarvörnin á þessum svæðum, sem öðrum—einangra sig fyrir áhrifum: lesa það ekki, né heyra, sem er uppbyggingarlaust, og ber menjar ins sýkta huga, og umfram allt: forðast deilur og þrætur. Vér þurfum að þrá og elska og biðja, hver með öðrum að mega komast inn í sólskin guðs föðurkærleika í Kristi. Það er sólskinsleysið, sem elur og magnar sóttkveikjurnar.—Það er kærleiksleysið.''

Kærleikurinn er í rauninni höfðingi höfðingjanna. Kærleikur til sannleikans og réttrar meðferðar á sögulegu efni setti höfðingja mótið á ritsnilld Ara og Snorra, sem segja vildu þannig frá atburðum, að heldur mætti auka við þeirra frásögn, en draga úr. Nú er þessari reglu snúið við. Gula ritlistin hefir þann frásögu hátt um mótstöðumenn sína, að hún margfaldar annmarka þeirra en þúsundfaldar kosti samherjanna.

Þeir menn, sem af norrænu bergi eru brotnir, eru fæddir í þeirri heiðríkju, sem hefir um þúsundir ára verið að hefja ennin á fósturbörnum sínum og festa á þeim yfirbragð höfðingja.

''Brattur er Grælands bryggjusporður,
bólgnir jöklar hrapa í mar.''

Svo kvað Fornólfur, norrænn andi, sem kom í ljós um sextugt. Brjóstmylkingar hennar eru lengi að leita að sjálfum sér. Þeir gerast sjaldan leiðtogar, áður en þeim er sprottin grön; þeir ríða hægt úr hlaði.

Vilhjálmur Stefánsson stóð og gekk á norrænum merg, þegar hann fór um íshafið á brotum þeirra hröpuðu jökla, sem sporðaköst Grænlands hafa kastað í sæinn. Hann fékk að erfð þolrifjabjarnyl Birkibeina og frásögusnilld Sverris. Norrænumaður þarf ekki að fálma eftir sönnunum. Hann grípur þær og hremmir í heimkynni ættar sinnar.

Svo er sagt frá Sverri er hann stóð yfir moldum Magnúsar konungs Erlingssonar, er féll fyrir Sverri í orrustu, að hann litaðist um og tók seint til orða. En ræðan sem hann mælti þar er snildarleg. *Norrænn andi litast um og tekur seint til máls.* Hann veit

það með sjálfum sér, að kveldroði er jafn mikilsháttar og jafnfagur sem morgunbjarmi.*)

Sá, sem gengur fram á alþjóða sjónarsvið, með refsivönd í höndum, á það á hættu, að honum kippi í kynið til böðulsins. En Sverrir sýndi það er hann vítti ofdrykkjumennina að höfðingi getur farið svo með vöndinn, að engum detti böðull í hug. Refsiræða getur verið, enn í dag, höfðingleg, ef orðsnilld og heilög gremja hafa rifið í refsivöndinn og búið hann til og lagt í hendur manndómi þeim, sem ber fyrir brjósti þjóðarsæmd og heill alþjóðar. Þessháttar höfðingi verður að hleypa í brýrnar og hafa á sér annan svip, en þegar hann sýnir sig og lætur til sín heyra á fagnaðarhátíð.

Thomas H. Johnson hlaut þá vegsemd að koma á fagnaðarhátíð Kanada-þjóðar og mæta þar til vegs og virðingar norrænum anda. Og hann talaði af norrænni andagift. — En þá er talað af norrænni andagift, þegar orðavali er beitt og stutt talað. Og ef sá maður er höfðinglegur sýnum, er svo mælir og hefir þá fylling í rómnum að ræða hans heyrist vel um fjölmenna mannþyrping, þá hefir hann vakið mikilsverða athygli á þjóð sinni og jafnframt aflað sjálfum sér orðstírs, sem ekki verður metinn til fiska.

Það er dýrmætt að vera höfðingi í ræðustól. Sá maður getur gert stutta stund jafngilda heilli öld. Hann gefur alþjóð hátíð. Þessháttar gjafir á tyllidögum eru næsta fágætar. En þó að það sé harla dýrmætt, að vera höfðingi í ræðustól, þá er hitt enn meira að vera svo tilkomumikill í framgöngu, að ekki þurfi ræðustól né rödd til þess, að athygli stari á manninn, sú, sem þó hefir séð marga menn og úrvalsgarpa stórþjóðanna. Hannes Hafstein vakti á sér þessháttar athygli á Bretlandi—ekki á fósturjörð sinni sem nærri má geta.

Vitrasti konungur á Norðurlöndum annar en Sverrir, Haraldur harðráði, lét þau orð falla um íslenzkan biskup, að hann hefði burði til þess að vera þrennt: hershöfðingi, biskup og konungur. Hannes Hafstein hefði vel getað verið þetta allt. Þar að auki var hann ágætt skáld og glæsimenni. Á Íslandi var hann—í herbúðum andstæðinga—talinn vera enginn stjórnmálamaður. Í Danmörk þótti han ofjarl ráðherranna, sem vefði þeim og konunginum um fingur sér.

Hann kom ár sinni svo fyrir borð í samningum við Dani, að þau landsréttindi stóðu Íslendingum til boða og sjálfstæði, að framar hafði þá aldrei dreymt Jón Sigurðsson og Benedikt Sveinsson.

*) Það er dásamlegt hvað vildarmenn Norrænunnar komast langt í því að hefja hversdagsefni upp í æðra veldi með höfðinglegri málsnilld. Mér kemur í hug frásögn úr Biskupasögum. Húsfreyja eins merkisbiskups druknaði vofeiflega í stórá einni, og var frúin mikil búsýslukona á staðnum. Höfundurinn mælir eftir hana á þessa leið: "Fjöldi manna saknaði frúarinnar sakir hennar margra dýrðlegra matarráða." Eg veit eigi til að matarást hafi komist í listrænan búning þvílíkt sem þarna. Snilld sem getur komið búri í þvílíka hillingu á að vísu auðvelt með að láta dómkirkju bera við himin og ljóma stafa af þeim, sem fremur þar guðsþjónustu.—Höf.

Þorri Íslendinga leit á þennan oddvita sinn sem landráðamann. Hann var troðinn undir fótum við almennar þingkosningar og sparkað úr ráðherrastóli með vantrausts-yfirlýsingu. Þar á eftir var honum fylgt til grafar, af fjölmenni, og mælt vel yfir greftri hans. En beztu eftirmælin fékk hann í annari heimsálfu en þeirri, sem Fjallkonan heyrir til. Og nú kem eg aftur að því, er eg drap á áðan, að sannur höfðingi getur vakið á sér athygli mikils háttar, þó hann mæli ekki orð, sem hátíðabrigði sé að, eða tyllidagsbragur á. Eg læt ritstjóra Lögbergs J. J. B., sem þá var, segja frá, og tek þó ágrip eitt, því blaðið er gengið mér úr greipum, sem flutti þetta ævintýri.

Jón J. Bíldfell var á ferðalagi til Íslands og kom í gistihús á Bretlandi. Gestgjafi hans komst að því—ef eg man rétt, að Jón var frá Íslandi kominn, að þjóðerni. Mér dettur í hug að maðurinn sé vörpulegur og má vera að gestgjafinn hafi undrast það, af því að útlendingar hafa ætlað Íslendinga Eskimóum líka. Þar kom ræðu gestgjafans, að hann sagði Jóni, að til sín hefði komið, ekki alls fyrir löngu, gestur, sem svo hefði verið höfðinglegur og þokkamannlegur í bragði, að engan slíkan hefði borið að híbýlum sínum, og þó væri þar gestkvæmt úr öllum löndum veraldar. Ritstjóra Lögbergs langaði að sjálfsögðu í þennan mann handa þjóð sinni. Honum datt í hug Hannes ráðherra, bað um gestabókina og fann þar nafn hans, og ártalið, sem gestgjafinn hafði nefnt. Þarna hafði íslenzkur höfðingsháttur kveikt og kynt vita, sem ljómaði úti í heimsveldinu. Þesskonar glóðafeykir verður ekki metinn á landsvísu.

Vel fer á því að þessi vitnisburður um mesta og besta ráðherra Íslands kemur frá Lögbergi þjóðar vorrar. Þar hefir alþýðumaður höfðinglega af sér vikið—gott þegar þessháttar ævintýri gerast um vora menn með öðrum þjóðum.

Það er sagt um Þorlák biskup helga, í sögu hans, að hann var frá því, sem aðrir menn voru, að því leyti, að hann talaði aldrei illa um veður. Það er ef til vill höfðingja mark. Hinn er þó meiri höfðingshátturinn að láta það ógert að hallmæla óvinum. Eg heyrði Hannes Hafstein árna fararheilla þeim manni, sem steypti honum af ráðherrastóli, og eyðilagði fyrir honum sambandslaga uppkastið—landsréttindamál Íslendinga, málið, sem hann hefði viljað fórna fyrir lífi sínu, ef með því móti hefði bjargast af skipbroti.—

Það bar til eitt sinn á Íslandi, við veiðivatn, að tveir menn hrundu bát frá landi og ætluðu að róa uppi svan. En þegar til kom, var þetta froðukúfur. Um þá var gerð þessi vísa, sem er ekki gallalaus, en þó vel ferðafær:

"Hugðu svan í hel að slá
hafs á svani boða,
víðum svanavelli á
var þá svanur froða."

Sumir menn, sem veitast að forkólfum þjóðanna og leggja þá í einelti, eru meðal manna svo sem froðukúfur er meðal svana. Þessir menn vita eigi, að þá sjálfa vantar höfðingsháttinn og manndóminn til að vera leiðtogar. Þeir eru andlega mjóir og langir. Og gæfuleysið fellur þeim að síðum eins og Hjálmar segir um heimspeking, sem var á húsgangi. Hnakkasvip þessara manna bregður í kynkvísl Þorbjarnar rindils. Þeir, sem glæpast á þessum mönnum og trúa þeim fyrir að fara með vandamál alþjóðar, grípa gjald sitt í eldi, því að aukvisar þessir reisa aldrei upp frá dauðum atvinnuvegi þjóðarinnar. Þeir geta ekki einu sinni rifið lepp úr svelli.

Ekki þarf mikla menn til að elta sáran svan og bana honum. Sú aðferð reisir enga fjölskyldu á legg, né heldur nokkura þjóð.

Sá máttur, sem orkar því að hefja þjóð frá lágu stigi á hátt, er *höfðingshátturinn í ræðu og riti, og höfðingsháttur í athöfn.**)

Ef nokkur máttur vinnur bug á skrílmennskunni, gerir þessi þríeini máttur það nytjuverk. En til þess þarf að styðja hann með átrúnaði, viðurkenningu og aðstoð, —hylla hann og þjóna honum.

Ef almenningur vildi hylla þennan konung og þjóna honum, væri þjóðarhamingju borgið og allsherjar gæfu.

---

*)Höfðingsháttur í athöfn kemur sjálfkrafa fram á sjónarsviðið, þegar jarðvegurinn er undirbúinn að tilstuðlan höfðingshuga og tígulegrar orðspeki. Dæmi, sem sanna hann, eða sýna, eru auðfundin, en mundu færa þessa ritgjörð út yfir ákveðin takmörk.—Höf.



# Fjara og flóð

Longfellow.

Aldrei kyrrast fjara og flóð, — —
Felur húm,—berst tjaldar hljóð.
Um flæðarmál, hjá flúð og hlein,
Ferðamaður keppir heim.—
En aldrei kyrrast fjara og flóð.

Hánótt sveipar hús og lóð,—
Hreim-dimm kalla ölduhljóð.
Ægis fingur æ við land
Afmá spor í tímans sand.—
Því aldrei kyrrast fjara og flóð.—

Morgnar.—Jóa hnegg og hljóð
Hirði fagna' og morgunsglóð.
Fæðist dagur. Ferðaver
Flúð og lá ei oftar sér.—
En ekki kyrrast fjara og flóð.

*Jónas A. Sigurðsson.*

*Ath.*: Tjaldur=fugl.
Flúð, hlein=fjöru-klappir.
Jóar—hestar.
Ver (verr)—maður. *J. A. S.*

---

# Brotna þú Ægir

Tennyson.

Brotna þú, Ægir, við björgin,
Beyg þig, við unnarstein, gráð!
Eg vildi að tungan ætti orð
Er ástand mitt fengi tjáð.

En gott á sjómannsins sonur
Með systur að háværum leik;
Og farmaður, fyrst hann syngur
Í ferjunni, þó hún sé veik.

Og hámöstruð skipin halda
Í hlé, um skerja göng. — —
Ó, að mig snerti horfin hönd,
Og hreimur af þögnuðum söng!

Brotna þú, hafaldan háa,
Við hamranna fætur—og dey!
En unaður dáinna daga
Og dásemd—til mín kemur ei!

*Jónas A. Sigurðsson.*

# Jón Trausti

*Æfi og verk.*

I.

1918—1928; tíu ár eru liðin frá þessu minnilega ári, er bar Íslandi svo óvenju-margt í skauti sínu: ís og eld, sótt og—sjálfstæði. Einkum var haustið örlagaþrungið, þá geysaði innflúensan, er hremdi menn hundruðum saman, suma í æsku, aðra í elli og enn aðra í blóma lífs, fulla af starfsþrá og lífslöngun. 1. desember vann Ísland viðurkent fullveldi sem sjálfstætt ríki, en hve mikils það hefir mist í óunnum verkum afbragðsmanna, sem sóttin tók mánuði fyr—það verður aldrei tölum talið. Einn þessara manna var Guðmundur Magnússon skáld—öðru nafni Jón Trausti.

Sú var tíð, að margir töldu Jón Trausta fremstan í flokki skáldsagnahöfunda á Íslandi. En sú tíð var löngu liðin 1918. Síðari ár rithöfundaræfi sinnar átti hann vísari von harðra, stundum lítt rökstuddra sleggjudóma manna, er skrifuðu með pólitísk gleraugu á nefinu, og sáu alt skekt og skælt ef þeir beindu þeim á stjórnmálaandstæðinga sína. — Og nú eru liðin 1 0 ár, og furðulítið hafa menn minst hans, hann virðist næstum hafa gleymst, sögur hans liggja á hillunni. En það samir illa að láta þær bækur safna ryki, svo mikinn fjársjóð geyma þær íslenzkrar menningarsögu, þótt eigi sé annað, hverjum augum sem menn kunna að líta þær frá sjónarmiði listar og máls.

Og sízt af öllu mættu þeir, er bera þjóðerni og þjóðrækni Íslendinga fyrir brjósti gleyma honum, honum, sem var þjóðræknin sjálf, honum, sem hefir tekist það "sem engu íslenzku skáldi hefir heppnast, að lýsa heilu bygðarlagi svo, að lesandinn þykist þekkja þar nálega hvern mann og hverja bæjarleið" (Árni Pálsson). Meðan nokkur Vestur-Íslendingur getur lesið móðurmál sitt, þá er varla hægt að benda honum á betri bækur til að kynnast landi sínu og þjóð, eins og hvorttveggja var á vesturferða-árunum, en einmitt Heiðarbýlissögur Jóns Trausta. Úr *þeim* jarðvegi eru vesturfararnir sprottnir.

II.

Sá, sem eigi þekkir æsku skáldsins Jóns Trausta, fer á mis við mikinn skilning á verkum hans. Það er enginn tilviljun að hann yrkir ramaukið kvæði til 'Norðra' (kvæðabók bls. 76) og tilþrifasnjalt kvæði um 'Vetur' í fyrstu bók sinni (Heima og erlendis bls 29) og skrifar síðan einhverja hina óhugnaðarfyllstu lýsingu á íslenzkum víkingsvetri í bókinni 'Þorradægur.' Hann er fæddur á *nyrsta* bæ á landinu: Rifi á Sléttu, einhverri örgustu harðindasveit vors óblíða lands. Og hann er ekki höfðingjum borinn:

foreldrar hans voru fátæklingar í húsmensku. Á ómálga aldri flyzt hann með þeim að heiðarbýlinu Hrauntanga í Axarfjarðarheiði og þar missir hann föður sinn, þá fimm vetra. Manni verður að minnast Halldórs litla í 'Heiðarbýlinu,' sem situr uppi í rúmi hjá Boggu litlu systur sinni, kirtlaveikum vesæling, og leika þau að gullum sínum, völum og leggjum, á brekáninu. Halldór litli er að vísu ekki beysinn, hendur og fætur eru bólgið og blátt af kuldabólgu, og sumstaðar hafa dottið á bólguna kuldapollar, en hann ber sig borginmannlega, að minsta kosti í návist Boggu systur sinnar, því hún er svo mikil beygja.... En í fletinu á móti þeim liggur faðir þeirra nár. Og móðirin er að brjótast til bæja í bylnum, því enginn er til sendiferða í kotinu. En yfir höfðum þeirra hringar sig og hríslast hélugrátt tróðið um rjáfrið og minnir á "sal undinn ormahryggjum"........

En Guðmundur litli lendir á sveitina um það bil, sem hann er að koma til vits og ára.*) Vér minnumst sögu Sölku niðursetnings, en svo illa daga hefir hann þó víst ekki átt. En jafnvel þótt niðursetningurinn lenti í stað, þar sem eigi gat heitið að neinn væri honum vondur, þá skorti þó móðurhendurnar að mýkja sár litla aumingjans. Og um þær mundir dundi yfir hið mesta harðæri, sem yfir Ísland hefir gengið á síðustu tímum, síðasta hallærið, veturinn 1881-82. Þá var drengurinn 9 ára. Það vill svo vel til, að vér höfum hans eigin orð um þessa atburði, eins og þeir stóðu honum síðan fyrir hugskotssjónum, í greininni 'Vorharðindi' (í Samtíningur, sögur 1920). Þar segir svo: "Eg var ekki nema 9 ára, en mér líða sízt úr minni bágindin, sem þá voru á Melrakkasléttunni. Skaginn var umflotinn af ís, sem hvergi sú út yfir. Gaddur var yfir alla jörðina. Það, sem sólin bræddi á daginn,—þegar hennar naut við—hljóp í svell á nóttunni. En sólarinnar naut illa. Þótt heiðríkt væri lá jafnan einhver frostmóða yfir jörðinni og ísnum, sem gerði geislana daufa. Rigning kom aldrei, þýðviðri kom aldrei. Stundum sló yfir svarta þoku. En það var ekki hin milda, hlýja vorþoka, sem safnar í þig sólargeislum og bræðir snjóinn, svo að hjarnið drafnar niður. Nei, þessi þoka var full af beittum ísnálum, sem hörundið sveið undan.

Rindana með sjónum og hólana í túnunum, sem fyrst komu upp úr sólbráðinni kól undir eins, svo að engin von var þar um stingandi strá næstu árin.

Svo kom þriggja daga stórhríðin........og slétti vandlega yfir alla þessa auðu köldu bletti—og hræin af öllu, sem þar hafði króknað.

Æðarfuglinn var þá byrjaður að setjast upp í hólmana—þessa yndislegu hólma, sem eru höfuðprýði Sléttunnar. Kollurnar hreiðruðu sig á klakanum, settust á eggin sín og létu skefla yfir sig. Þar sátu þær í snjóhúsi, sem skapaðist af ylnum upp af þeim sjálfum; það bjargaði sumum þeirra. Hinar fundust dauðar á hreiðr-

*)5 næstu ár var hann hjá Jóni Sigurðssyni á Skinnalóni.

unum, frosnar í hel. Mestur hluti eggjanna varð að fúleggjum.

Um manneskjurnar ætti eg sem fæst að tala. Ef eg segði alt, sem satt er, mundu fáir trúa mér. Þar að auki mundi mér vera borið á brýn, að eg níddi landið og gerði of mikið úr harðindunum. Enginn veit til fullnustu, hvað það er að eiga bágt, nema sá, er sjálfur hefir reynt það. Hjá þessari móðursjúku þjóð má ekkert satt segja,—um að gera að dylja allan sannleika, sem mönnum finst sár í svipinn. Því fer margt sem það fer. Eg hefi þó ekki þagað. Það, sem læknirinn segir í sögunni 'Þorradægur' stendur á dýrkeyptri reynslu frá þessum árum.

Fátæklingarnir flosnuðu upp hópum saman. Heilar fjölskyldur fóru á sveitina eða verganginn—sem eiginlega var eitt og hið sama. Eg man eftir, þegar þessir aumingjar voru að dragast bæ frá bæ, bláir í framan af megurð og máttleysi, með skyrbjúginn í tannholdinu og sinakreppu í hnésbótunum—þar til þeir lögðust fyrir á einhverjum bænum, komust ekki lengra. Þar urðu þeir að deyja eða hjarna við. Flestir hjörnuðu við og—voru sendir til Ameríku um sumarið.

Engin björg fékst, nema fáeinir gamlir,' ólseigir landselir, sem skriðu upp á ísinn og voru rotaðir þar. Ketið af þeim var svart eins og tjara og gat aldrei soðnað. En það þótti gott samt, því að það var þó nýtt. Saltketið, sem menn áttu frá vetrinum, brendi menn í munninum, og hangikjötið gátu menn ekki melt, þótt til væri, því allir voru í raun og veru orðnir veikir af harðréttinu. Og svo var þetta ekki til nema hjá þeim, sem bezt bjuggu. Hinir urðu að láta sér nægja að sleikja um beinin af skepnunum, sem þeir mistu, eða leita sér saðningar í skemdum eggjum eða seigu selaketi. Kaupstaðurinn var allslaus — enginn kornmatur af neinu tægi, ekkert kaffi, enginn sykur. Ekkert — alls ekkert, sem fólkið þarfnaðist, ekki svo mikið sem saltlúka til að sá í matinn. Ekkert brennivín heldur eða tóbak. Það þykir ef til vill goðgá, að minnast á tóbak og brennivín í þessu sambandi. En eg held þó, að ekki hefði mörgum manninum veitt af þeirri hýrgun, sem þetta veitir hvorttveggja, því að ekki var ástand sálarinnar stórum betra en líkamans. Þunglyndi, deyfð og vonleysi fylgja ætíð harðrétti og skyrbjúg. Menn geta nú sjálfir hugsað sér ástandið.........

En þegar neyðin er stærst, er hjálpin næst. Það fréttist til kaupskipa, sem láu í íslausum sjó sunnan undir Langanesinu. Meðal þeirra var skipið til Raufarhafnar. Hin skipin voru til Akureyrar og Húsavíkur........ Þegar ekki þótti fært að sigla þeim inn í ísinn, var ekki mikil von um að 'Kristín' litla, Raufarhafnarskipið, kæmist langt. En mikil var samt þráin eftir skipinu, sem hafði alt það innanborðs, sem menn þörfnuðust svo sárlega, mönnum og skepnum til bjargar. Einkum voru það þó skepnurnar, sem lífið lá á að bjarga, ef í kornmat næðist. Fólkið á Sléttunni, sem margt

var guðhrætt, þótt ekki hefði það hátt um trú sína, hefir víst beðið guð þess heitt, að skipinu mætti auðnast að komast til hafnar. Að minsta kosti man eg eftir því, að móðir mín bað þess grátandi, og sagði okkur börnunum að biðja þess líka. Við gerðum það auðvitað, þó við hefðum þá litla hugmynd um spennivídd þessarar eymdar.

Verzlunarstjórinn á Raufarhöfn sendi hraðboða austur á Langanes með bréf til skipstjórans, þar sem hann mun hafa minst eitthvað á ástandið.

Fám dögum seinna var skipið komið inn á Raufarhöfn."

Þetta eru ekki mjúkar minningar, enda sýnir sagan 'Þorradægur' bezt, hve fast þessir atburðir hafa læst sig í barns-minnið.

En nú roðar af nýjum degi í æfi drengsins. Tíu vetra fer hann aftur til móður sinnar, sem nú er gift í annað sinn og farin að búa á litlu harðindakoti við sjóinn: Núpskötlu við Rauðanúp, þar dvelur hann fram yfir fermingaraldur. Það eru drengjaárin, þar réttist hann úr kútnum og þessa tímabils minnist hann með ánægju síðar meir (sbr. kvæðin: Eg ólst upp við sjóinn, kvæðabók 39 og Sólhvörf á Sléttu bls. 71).

"Myndirnar frá Rauðanúp" segir hann (í Óðni 1911, VII. ár bls. 4), "vekja upp fyrir mér kærar æskuminningar. Við ofurlitla vík austan undir núpnum stendur bærinn Núpskatla—á malargranda milli stöðuvatns og sjávar. Mölin er mjó og stórgrýtt, svo ekki er fært yfir hana með hesta. Austast breikkar hún ofurlítið og þar er græddur upp túnskiki í kringum bæinn.

Vatnið er stórt og djúpt. Austurhluti þess liggur í djúpu jarðfalli, og er austurbakki vatnsins gamall gjábarmur. Þar bjó huldufólkið, sem Göngu-Mangi (ömmubróðir minn) átti sífelt í höggi við, þegar hann bjó í Kötlu (líklega um 1830). Eg kunni þær sögur allar saman og marglifði þær upp í huganum. Eg var tíður gestur í hömrum huldufólksins. Þar voru brattar brekkur, þaktar kafgrasi undir hömrunum, en blágrænt hyldýpið fyrir neðan. Oft lá eg þarna í skjóli og bað huldufólkið að birtast mér—margsærði það um að koma til mín út úr klettunum, ef það væri til, eða lúka þeim upp fyrir mér. Og oft sofnaði eg þar. En aldrei varð eg huldufólksins var, hvorki í vöku né svefni. Heyrði það ekki einu sinni skafa pottana sína...."

Það er merkilegt þetta, að hann skyldi aldrei verða var við neitt huldufólk, þrátt fyrir allar sögurnar um það og Göngu-Manga. Það er víst aldarandinn, sem er á hvörfum; rétt-trúnaður og hjátrú eru að missa tök á lýðnum, raunsæisstefnan liggur í loftinu. Og drengurinn virðist hvorki vera trúhneigður né trúgjarn. Hann slær slöku við kverið, en hugurinn er allur við Íslendingasögur og Þúsund og eina nótt. Kvæði lærir hann öll, er hann nær í. Hann er allur í bókum, en þykir latur til verka og smalamensku. En það var raunar fleira en bækurnar, sem vildi tefja hann frá smala-

menskunni. Til dæmis Rauðinúpur. "Langvænst þótti mér um núpinn," segir hann í Óðni. "Eg þóttist ekki lítill maður í fyrsta skifti, sem eg komst upp á hann, síðan átti eg þangað margar ferðirnar. Núpurinn er ekki hár, um 450 fet, en vegna legu hans er þaðan afar mikil og fögur útsýn. Allur fjallaklasi Norðurlands frá Siglunesi inn á Mývatnsöræfi blasir við, og í mestu hillingum sjást hnúkar vestur á Hornströndum. Grímsey er að sjá eins og gríðarstórt gufuskip vestur í hafinu. Austur um sléttuna er útsýnin mikil að vísu, en ekki nærri því eins fögur."

Núpurinn er fyrsta en ekki síðasta fellið, sem skáldið klífur. Í lýsingu á einhverri af síðustu fjallgöngum sínum (Ferð upp á Akrafjall, Óðinn 1917, bls. 54, 61 og 67) kveður hann svo að orði: "Annað sem jafnan dregur mig að heiman og til fjallanna er *víðsýnið*. Eg er skapaður með einhverri undarlegri þrá eftir víðsýni—eftir því að komast hærra og hærra og sjá yfir meira og meira í einu. Eg held þetta sé máttarþátturinn í öllu lífi mínu og striti. Víðsýni bæði í tíma og rúmi. Fróðleiksþrá mín fékk svölunina af skornum skamti á uppvaxtarárunum. Kannske það sé því að þakka að hún endist enn."

En hverfum aftur til Rauðanúps. Fyrir honum liggur skipaleið til Norðurlands. "Og mikils þótti mér um vert að vera á Núpnum þegar gufuskip fóru framhjá, að sjá nærri því beint ofan yfir þilfar þeirra fáa faðma frá fótunum á mér. Eg hefi sjálfsagt tafist frá smalamenskunni meira en góðu hófi gegndi þegar skip voru að koma." Vér minnumst þess, að skáldið hefir skrifað einhverja hina fjörmestu lýsingu sem til mun vera á íslenzka tungu. um skipin. Sú lýsing er í síðustu bók hans: Bessa gamla (bls. 46—52). En innviðir hennar—forvitnisblandin undrun og aðdáun yfir þessu margbrotna og hnitmiðaða meistaraverki mannsandans—, þessir innviðir eru reknir af minninga-hafi bernskuáranna.

En "minnisstæðast af öllu, sem eg sá í Kötlu, eru mér haustbrimin þar. Aldrei hefir neitt þvílíkt borið fyrir mig.... Þar er aðdjúpt og í norðaustanátt á haustin ganga hafsjóarnir alla leið upp í mölina og núpinn. Mölin veitir nokkurt viðnám, en þó gekk sjórinn yfir hana inn í vatnið og heim á bæinn. Stórtré rak stundum heim að bæjarveggnum hjá okkur, og með þessa einu byttukænu, sem stjúpi minn átti, var rétt að kalla hvergi friður. Að lýsa berserksgangi brimsins er mér um megn. Mér finst orðin falla máttlaus til jarðar eins og vængbrotnir smáfuglar; en myndirnar standa ógleymanlega skýrar fyrir mér ennþá eftir 25 ár, og brimgnýrinn ómar mér enn í hlustum."

Það er því engin tilviljun, að vér mætum oft brimi og brotsjóum, stormi og hafróti í kvæðum og sögum skáldsins. Og þær lýsingar eru oftast nær sannar myndir af veruleikanum. Vér minnumst t. d. Gandreiðarinnar í Kon-

an í Hvanndalabjörgum, sem er eitt af beztu kvæðum hans:

Úfinn er sjór fyrir utan Fljót.
Ströndina hamrammar holskeflur lemja,
hamrarnir sílaðir stynja og emja.
Norðanhríð æsir það öldurót.....

Eða óveðurslýsingarnar í Óttusöngur, Vetur, Norðri og víðar. Það er ekki að furða, þótt drengurinn harðni í sambúð við þessa ómjúku náttúru, úr því hún kreisti ekki úr honum lífið á barnsaldrinum. Og sjálfu skáldinu eru áhrifin fullljós, er hún hefir haft á skapgerð hans og menningu:

Rammi Norðri, vetrarvaldur,
voðamynd—og þó svo hrein!
Nafn þitt gýs sem gustur kaldur
gegn um kulvís heimsins bein.
Beyg úr deigum bjálfum hristir
bylja þinna gletnisdans;
hans er fé og frægð sem gistir
firnaströnd þíns Bjarmalands.
Hreysti, afl og erfðastæling
alt þitt líf í svipnum ber.
Innri glóð gegn ytri kæling
er hið fyrsta boð hjá þér.

Ríki Norðri, veðravaldur,
vetrarás með snjóug lönd;
þeim er vel, sem ala aldur
undir þinni víkingshönd.
Frjálst og einart fang þú býður,
frækni og dáð til heiðurs ber,
enginn níðings-andi skríður
undir vinarsvip hjá þér.
Engin bæn þinn anda mýkir,
aldrei mjúk er kveðjan þín.
Vetur undir rifjum ríkir,
rausn og tign á svipnum skín.

En hin langi norðlenzki vetur á þó fleira í fórum sínum en frost og hríð. Því í köldu skauti sínu ber hann þá hátíðina, sem bezt hefir yljað íslenzkum börnum um langan aldur: blessuð jólin. Og litli drengurinn í Kötlu fer ekki varhluta af jólunum, það sýna oss jólasögur skáldsins. Í þeim segir hann oss af tilhlökkun sinni til jólanna; hann telur dagana, og rifjar upp sögurnar um jólasveinana, sem koma 9 nóttum fyrir jól. Og hann lýsir aðfangadeginum, sem aldrei ætlar að líða og endar loks með ógurlega löngum Jónsbókarlestri, með tilheyrandi sálmasöng og bænagerð; og það er dæmalaus kross fyrir drenginn að þurfa að hafa frið alla tíð á meðan. En svo koma sigurlaunin: jólamaturinn, jólaljósin, jólagjafirnar, þótt ekki sé nema bryddir skór til þess að forða frá jólakettinum, og loks jólaleikirnir—alt þetta er jólagleði. Og jólagleðin er söm við sig í kotinu, þar sem draga verður af viðbitinu til að steypa jólakertin, og hátíðamaturinn er aðeins fáeinar laufakökur úr sáldaðu rúgmjöli,*) eins og á efnaheimilinu, þar sem skömtuð eru stór stykki af magálum, bringukollum, kjöti, sperðlum og rúllupylsum, og ofan á öllu saman er heil varða af laufakökum, 8—12 á hverjum diski; en jólakertunum, einu eða tveimur, er svo stungið inn undir allan staflann.**)

Og að hinum langa vetri loknum kemur vorið og sumarið, sem breytir Sléttunni um hríð í "nóttlausa voraldar veröld." Menn lesi kvæðið 'Sólhvörf á Sléttu' (kvæðabók bls. 71):

Í björgunum hreiðrar sig bjargfugla fans,
á bárunum lundann dreymir;

*) Þorradægur.
**) Jólasaga úr sveitinni.

alt sorgmætt og þreytt til sjávar og lands
hinn sætasti friður geymir.
Smalinn er búinn að bæla féð
á bölunum grænum og sléttum.
Lóurnar hallast að hraunmosans beð,
og haukarnir móka á klettum.
Eg veit að hvert mannsbarn vakir í nótt
á vallgróna lágreista bænum,
og heillað í leiðslu það lítur hljótt
til ljósanna norður á sænum.

— — . — — —

Þannig líður bernska skáldsins, á annann bóginn hörð barátta fyrir lífinu við fátækt og æst náttúruöfl, á hinn bóginn drauma- og æfintýralíf, þar sem hugurinn fer því víðar, sem heimahagarnir eru þrengri. En tvent ber til þess að dvalið hefir verið við þetta fyrsta skeið af æfi skáldsins. Það fyrst, að telja má víst, að það ráði mestu um skapgerð hans, því hann er maður óhverflyndur, þroskasaga hans er samfeld og laus við stökk. Hitt er annað, að beztu sögur skáldsins, Heiðarbýlissögurnar (og Leysing) eru án efa bygðar á endurminningum frá þessum árum, eins og þegar hefir verið sýnt fram á að nokkru leyti. Væri fróðlegt að vita, að hve miklu leyti hann hefir í sögum þessum lýst fólki og atburðum, sem hann sjálfur þekti, að hve miklu leyti hann hefir notað sögur, sem hann hefir heyrt í æsku og loks að hve miklu leyti hann hefir sjálfur skapað menn sína og atburði. Er þetta alt órannsakað og ekki á annara færi en kunnugra.

III.

Þegar eftir fermingu fer Guðmundur í vinnumensku og er vinnumaður í tvö ár þar nyrðra. En varla munu viðbrigðin hafa verið mikil frá því, sem hann átti að venjast heima hjá foreldrum sínum í Kötlu, enda verður ekki séð af verkum hans, að í vinnumenskunni hafi hann lifað eða reynt nokkuð það, sem mótað hafi skap hans, eða numið sér traust land í minningum hans. Það er að vísu nóg af vinnufólki í sögum hans, Halla og Ólafur eru vinnuhjú á prestssetrinu, áður þau flytja í Heiðarbýlið, en það er langt frá því, að kjör vinnufólks veki athygli hans og samúð fremur en annað.

En að þessum tveimur árum liðnum gefur hann útþrá sinni í fyrsta sinn lausan taum og ræðst í annan landsfjórðung til sjávar. Í leysingum vorið 1891 leggur hann af stað fótgangandi austur í Mjóafjörð með aleiguna á bakinu og gerist þar sjómaður.

Varla getur ólíkari staði en Melrakka-sléttu og Mjóafjörð. Annars vegar flatlendi og ásar með víðfeðmum fjallahring í bláum fjarskanum, hinsvegar þröngur fjörður luktur grettum og skörðóttum háfjöllum. Sjálfur segist skáldið fyrst hafa komist í kynni við fjöllin á Austfjörðum, og þaðan af var hann fjallgöngumaður mikill. Gekk hann fram af kunningjum sínum í Reykjavík fyrst eftir að hann kom þangað, með þeirri flónsku sinni að vera að slíta skóm og sokkum á gönguferðum til fjallanna þar í grend. Og nú kynnist hann sjó og sjómensku. Það er því frá Austfjörðum, sem hann hefir sjómannasögur sínar, þær er hann

kallar sig hafa frá Eyrar-Oddi gamla og flestallar gerast í Grundarfirði. Mér er ókunnugt um, hvort lýsing hans á Grundarfirði og grendinni á nokkuð skylt við Grundarfjörð á Snæfellsnesi nema nafnið. Auðvitað er ekki fyrir það að synja, að víða gátu honum borist söguefni, því eins og kunnugt er, var það þá þegar orðið alsiða, að fólk af Suðurlandi (úr grend við Rvík) streymdi til Austfjarða að sumrinu til, eins og enn mun vera siður. En að öllu samanlögðu virðist Seyðisfjörður líklegasta fyrirmynd Grundarfjarðar, eins og þegar skal sýnt.

Úr drögum til sögu Grundarfjarðar eftir ritstjórann í 'Borgum' er þessi kafli athugaverður:

"En einn dag fyrir rúmum mannsaldri sáu Grundfirðingar sér til mikillar undrunar hvar rautt stálstefni risti sundur sjóinn eftir miðjum firðinum. Það voru Norðmenn. Þeir voru að leita að síld, og fundu hana. Fjörðurinn var fullur af síld, þó var hann alveg eins og hann hafði verið um ómunaaldur. Hann var hrein og bein náma. Norðmenn jusu síldinni lifandi á land upp. Hún spriklaði, henti sér í loft upp og glitraði eins og silfur. Stórar kasir, stórar breiður af silfri.

Norðmenn hálffyltu fjörðinn um eitt skeið. Hinir mestu fjárglæframenn léku þar loddarabrögð sín (sbr. Bleiksmýrar verksmiðjan). En af því að síldin rennur ekki á loddara-snild.... þá gekk veiðin illa og alt endaði með stóru uppboði..... Loks voru nálega allir Norðmenn farnir úr firðinum nema Jónas prammi."

Í Austra 31. ágúst 1891 er grein um framfarir Seyðisfjarðar á síðustu 10 árum. Þar segir svo: "Síldarveiðin er aðalástæðan til framfaranna. Eftir 1880 jók síldarveiðin mjög velmegni manna, svo hér var nálega tekið gull upp úr Seyðisfirði engu síður en menn áður grófu það upp úr jörðunni í Kaliforníu, því t. d. árið 1880 þá veiddist á Seyðisfirði einum frá ágústmánuði til nóvember, síld fyrir eina miljón króna.

Síldarveiðarnar voru einkum reknar af ýmsum mönnum frá vesturströnd Noregs og var stórfé lagt í þetta úthald þaðan, og því miður miklu meira tilkostað af sumum, en þeir voru menn til að geta framhaldið, er ver lét í ári með veiðarnar."

Eigi þarf lengi að leita í Mjóafirði og Seyðisfirði um þessar mundir eftir dugandis-mönnum, sem mint gæti á þá feðga á Gráfeldareyri, Grím gamla og konsúlinn. Á Mjóafirði mun Brekkuættin þá þegar hafa átt menn, er báru af öðrum að dug og skörungsskap. Voldugastur maður á Seyðisfirði mun hafa verið O. Wathne. Í þáttum úr sögu Seyðisfjarðar á þessum árum, er Þorst. Erlingsson birti í Eimreiðinni, segir hann meðal annars, að W. hafi kunnað því illa að blaðlaust var á Seyðisfirði, eftir að Austri hinn gamli dó, hóf hann því útgáfuna að nýju og fékk til ritstjórnar mann, sem Þorsteinn segir að hafi verið nógu brjóstheill til að segja það eitt í blaðinu

er Wathne vildi vera láta. Hvort þetta er bókstaflega satt, skal nú látið ósagt.—Þorsteinn var um þetta leyti ritstjóri 'Bjarka,' sem var svarinn andstæðingur Austra —en orðrómurinn nægir, og allmjög minnir þetta á konsúlinn og ritstjórann á Borgum. En skáldinu mátti vera nákunnugt um þessa hluti alla, því eftir hálfs annars árs sjómensku á Mjóafirði réðst hann einmitt til Skafta Jósefssonar, ritstjóra 'Austra' til þess að nema prentiðn og var þar um nokkur ár (1893-95). Á þeim árum bar það enn til tíðinda, að kirkja fauk á Vestdalseyri, en prestur gaf söfnuðinum kost á að taka við henni og byggja hana hvar sem þeim sýndist. En menn urðu ekki á eitt sáttir, og spunnust af þessu deilur nokkrar (Austri 23. jan. 1895). Þetta er nú að vísu varla í frásögur færandi, en þó minnir það á deilurnar um kirkjustaðinn í Borgum. Og loks er á það að líta, að þótt eigi verði vart fríkirkjuhreyfingar á Seyðisfirði á þessum árum (að því er séð verður af blöðunum) þá var sú hreyfing þó einmitt austfirzk að uppruna, eins og kunugt er, og hafði tíu árum áður valdið töluverðu róti á hugum manna í þeim landsfjórðungi (sbr. Austri I 1883, bls. 268, 277). Enn má og á það minna, að prestur Seyðfirðinga á þessum árum var enginn veifiskati og lítt við alþýðuskap, en oss brestur kunnugleik til að gera nánari samanburð á skapgerð þeirra Torfa gamla.

Það er því að vorri hyggju óhætt að fullyrða, að Borgir sé hlaðnar úr austfirzku blágrýti.

En auk sagnabálksins, sem tengdur er við Grundarfjörð, má enn minna á tvær smásögur, sem bera það með sér, að þeim er í sveit komið á Austurlandi. Það eru sögurnar 'Þegar eg var á fregátunni,' sem ýmsir hafa talið einhverja hina beztu af smásögum skáldsins og 'Einyrkinn.' Landslagið og erlendu fiskiduggurnar (franskar, færeyskar?) — hvorttveggja er tvímælalaust austfirzkt.

Það er næsta auðskilið mál, hvað komið hefir unglingnum til að leggja árar í bát á Mjóafirði og ráðast í þess stað í prentverkið á Seyðisfirði. Mentaþráin var það auðvitað. Hjá Skafta átti hann eflaust kost fleiri bóka en nokkurntíma áður, og þar gafst honum ennfremur kostur á að kynnast erlendum málum bæði á bókum og í tali; því á Seyðisfirði mun danska í þann tíð hafa verið mjög í hávegum höfð af betri borgurum, en bærinn var auk þess fullur af Norðmönnum, eins og sjá má meðal annars af 'Heiðarbýlinu II'. Þess má geta, að á þessum árum birtir skáldið líklega í fyrsta sinn ritsmíð sína, því 1893 gefur hann á sinn kostnað út viðaukablað með 21. tbl. 'Austra,' er ókunnugt er oss hvað í blaði því hefir staðið.*) Hvað sem því líður, þá er auðráðið, að órói og útþrá æskumannsins sjóða í blóði hans, og hann situr ekki af sér tækifæri

*) Vantar í eintakið á Cornell University Library.

til að svala þeim. Sumarið 1895 kemst hann til Reykjavíkur og er þar við prentstörf. Næsta sumar fellur honum þó enn stærra happ í hlut, er hann ferðast um Norðurland með D. Bruun (1896). — Og um haustið siglir hann til Kaupmannahafnar.

Í Kaupmannahöfn er hann tvö ár, og farast honum sjálfum svo orð um þá dvöl sína: "Eg barðist þar mínar 9—10 stundir á dag *við* hungrið, en það sem þá var afgangs dagsins, *fyrir hugsjónum* mínum. Fyrnefnda baráttan gekk illa—hin síðarnefnda skár" (Bogvennen ág. 1912, tekið upp í grein Aðalsteins Sigmundssonar í Lögréttu 27. nóv. 1918).

Hann hafði fengið styrk nokkurn til að kynna sér útbúnað á leiksviðum og hafði í því skyni aðgang að leikhúsum þar í bænum, og er lítill vafi á því, að hann hefir fært sér það dyggilega í nyt. Í Kaupmannahöfn eru ort fyrstu kvæðin, sem hann birtir: "Á kóngsins nýja torgi" og "Veturinn kemur," bæði komu í blaðinu "Ísland" 1898. Og árið eftir (1899) kemur fyrsta safn af kvæðum hans "Heima og erlendis." Flest þeirra kvæða eru ort í Höfn, og með því, að þau bregða ljósi yfir skapgerð skáldsins á þessu tímabili, skulu þau tekin til athugunar, þótt skáldskapargildi þeirra sé lítið.

Fyrstu kvæðin eru sýnilega ort á leið að heiman. Skáldið kveður unnustu sína, sem situr hnípin, því:

Til hafs burt frá vinum nú flytur oss knör;
og ungdómsins þrá er að finna sem flest,
og fara sem lengst og að reyna sem mest.

Sjóferðin hressir skapið, vekur dáð og dug:

Lífið hafi áþekt er;
ætíð bak við hafrót sér
leynir byr og blíða,
og gegnum stríð til sigurs liggur leið.—

Svo mætum vér honum um "kvöldstund við Eyrarsund." Hann rifjar upp fyrir sér mörg inndæl og unaðsrík kvöld heima á Fróni, full af ljósbliki og fuglasöng, full af draumum og hillingum æskunnar. "Það var framtíðarvonanna frón," sem hann sá í hug sér heima. En—

Nú er æskunnar draumalíf eytt,
nú mig alvaran kveður til starfa,
eg skal vinna á vegum hins þarfa;
nú er útsýnið alt saman breytt.
Ekki lengur nú lokkast eg af
hinum ljóshviku skýborga-myndum,
ei af gyltum og gnæfandi tindum—
ei af löndunum handan við haf.

Og þó,—Eyrarsund laðar líka til drauma. Hann sér sýnir. Hann sér kaupför fornmanna safnast að Höfninni og gera hana að kaupangi. Hann sér Karl Gústaf fara með Svía handan yfir sundið á glærum ísum. Hann sér Skírdagsbardaga er Englar skjóta á Höfn o. s. frv. Og nú minnist hann svipaðra sýna heiman af Fróni:

Og ungur var eg oft í slíkum krans
af undraverum heimastöðvum á,
er sögðu mér um sögu föðurlands
og sögðu margt, sem ekki skildi eg þá.
En ef til vill fer að þeim tíma að líða,
að einnig þeirra sagnir má eg þýða.

Þetta hefir mönnum víst þótt

vesall skáldskapur, og þó er það spásögn; þarna rumskar söguskáldið, sem er að vakna til köllunar sinnar.

Eins og áður segir, kveðst hann hafa barist "sínar 9—10 stundir á dag við hungrið," og á ýmsum kvæðum (t. d. Veturinn kemur, Þrumuveður) sést, að þau eru alt annað en vistleg, hýbýlin, sem hann hefir gist. En enginn heyrir hann víla. Í einu kvæði aðeins vottar snöggvast fyrir hugsýki (Stefnumót við dauðann). Hann stendur við "Amakur"-sund og fylgir í huganum kunningja sínum, sem lífsleiðin hefir hrundið í sundið. Hann hugsar: "Já — ljúft má þeim vera að leita að ró, sem lífið og framtíðin hræðir".... og "—hver þarf að óttast þær ógnandi dyr—ef ekkert er hinu megin?" Á hann að fara sama veg?

Onei—. Eg er maður sem kraft minn og kjark
og knúa, sem duga, hef þegið,
og oft hef eg barist viða armóð og basl
og aldrei á hólminum legið.
Og þetta, að hverfa svo enginn veit af
og alveg í gleymsku að leynast,
og skilja ekki eftir eitt einasta spor
af æfinni fyrst eða seinast!
Nei—. Brjótast til öndvegis,—ellegar þá,
ef orkuna þrýtur í stríði;
að senda hin hinstu og hörðustu skot,
sem hitta svo einhverjum svíði.

Karlmannlega er þetta mælt, og um karlmensku-lund og frama-hug bera enn fleiri kvæði í þessu litla kveri vottinn. Ritdómararnir tóku því ekki óvingjarnlega, Eimreiðin lét eigi örvænt að hér væri *efni* í skáld, Jón Ólafsson kvað hann að vísu *vera* skáld og nefndi til kvæðið "Farfuglar," sem nú er á hvers manns vörum (Nýja Öldin III. bls. 127), en Þorsteini Erlingssyni fanst fátt um (Bjarki 1899 bls. 134). Líklega hefir honum og fleirum þótt, sem getan stæði nokkuð í öfugu hlutfalli við viljann. En bókin var *heitstrenging* og skáldið átti eftir að efna hana.

Um þetta leyti fer Guðmundur heim og kvongast á Akureyri Guðrúnu Sigurðardóttur (1898). Sama haust flytjast þau til Reykjavíkur, þar sem þau bjuggu upp frá því. Í Reykjavík stundar hann ýmsa atvinnu, fyrst og fremst prentverk en auk þess verzlunar- og skrifstofustörf og jafnvel daglaunavinnu, þegar að sverfur (Aðalsteinn Sigmundsson). Þrátt fyrir það vinnst honum tíma til að taka þátt í félagslífi: hann gengur snemma í Good-templara-regluna (sbr. 25 ára minningarrit templara 1884—1909) og yrkir þeim óspart hvatir og minni, hann starfar í Leikfélagi Reykjavíkur, skrifar dóma um leiktjöld og bækur í blöðin og lætur jafnvel stjórnmál til sín taka, þótt í litlu sé; hann gengur upp um fjöll og firnindi, Reykvíkingum til undrunar og ásteytingar, og loks—yrkir hann og skrifar. 1903 koma "Íslandsvísur" eftir hann, prýddar myndum eftir málarann Þór. B. Þorláksson og sjálfan hann—víst alveg einsdæmi um íslenzkar ljóðabækur.

Þessi ljóð sýna oss hinn sama mann og fyrsta bókin, en listin er að vonum meiri. Þar eru hinar alkunnu og vinsælu 'Íslandsvísur': Eg vil elska mitt land, fullar

af viðkvæmri ást og drengilegum umbótahug. Þar eru náttúruljóð allmörg og með ýmsum hætti, sem hin íslenzka náttúra sjálf, t. d. hinar þýðu vísur 'Draumalandið' þ. e. íslenzku heiðalöndin, sem skáldið á eftir að skrifa svo vel um í inngangi Heiðarbýlisins; Grindaskörð úfin og grett, o. s. frv.

En oftar verður náttúran honum hvöt til karlmensku og dáða. Þannig lokkar 'fjallabúinn' unglinginn til að stefna hátt, og telur þó í öðru orði alt torleiðið til hæstu tindanna:

Hvað vilt þú frá daladjúpi,
drengur, upp að vorum fjöllum,
þolirðu skin af hjarnsins hjúpi
hefirðu ekki beyg af tröllum?

En skáldið er fjallgöngumaður, hann stígur yfir allar torfærur upp á tindinn, þar sem hann heggur nafn sit á "hæsta, efsta steininn, sem eg finn." Það skal vera bautasteinn hans.

Önnur kvæði sýna oss vel skoðanir skáldsins, t. d. Hjalti, Tröllakirkja og Nóttin helga. Í "Heima og erlendis" yrkir hann lélegt kvæði um Þorgeir ljósvetningagoða, af því að hann er boðberi nýrrar aldar í landi. Af sömu ástæðu kýs hann sér Hjalta að fyrirmynd:

Og Hjalta þótt geti eg ei fetað í för
eg fylgi mitt ljæ þeim og afl mitt og fjör,
sem ei fylgir alþýðu að blóti;
sem frjálslega hugsar, sem hreinn er og
beinn,
og hvorki til orða né framkvæmda seinn,
og horfir ekki í það þótt hann standi einn
og hafi sér alla á móti.

Og 'Nóttin helga' er fjarri því að boða honum frið,—þvert á móti boðar hún nú stríð: gamlar minningar og nýjar hugsanir berjast um völdin í sál hans:

Eg veit ei hvort á eg að elska eða hata—
aðhyllast ,safna' eða hafna og glata.

En þetta er aðeins augnabliks efi, því hann elskar storminn og stríðið og kemst eigi hjá að kjósa það. Hann gengur því hiklaust í flokk manna eins og Þorsteins Erlingssonar, er beita sér gegn úreltum kenningum kirkju og klerka, og einkum hatar hann hræsni í þessum efnum, sem öðrum, eins og sjá má af meðferð hans á sr. Halldóri í 'Höllu' og víðar (Séra Keli).

Ef til vill kveður hann hvergi ljósar að orði um afstöðu sína í þessum málum en í kvæðinu "Tröllakirkja:"

Þú leigir presta um hann*) til að tala—
þeir tala minna fyrir þig en sig;
þú hlustar til að hálfu leyti í dvala
og helst á meðan útaf leggur þig.
Þeir tala um reiði, djöful, synd og dauða,
um dalinn tára myrka, gleðisnauða,
um líkamlegt og andlegt, eilíft kíf.
En drottinn talar til þín gegnum blæinn,
sem tendrar logann og sem reisir bæinn,
um frelsi, gleði, fjör og þrótt og líf.
. . . .Þú sér hans mátt þar duna fossaföllin
og freyðir brim við klettum varða strönd;
þú sér hans rún, sem rituð er á fjöllin,
þá ritning skráði engin mannleg hönd;
þú sér hans mynd í hýrum djörfum
hvarmi
í háum, hvelfdum, manndómsstyrkum
barmi,
sem leitar fram á framans glæsta stig.
Og elskir þú það alt, og viljir glæða
þíns anda megin, göfga hann og fræða,
þá ertu sæll,—þá elskar drottinn þig.

Þetta er trúarjátning skáldsins

*) Guð.

og sjá allir, hve mikið hún hefir til síns ágætis.

Yfirleitt andar bókin lífi, fjöri og drengilegum bardaga-hug. En undirtektir voru misjafnar. Ekki af því að menn væri á öðru máli en höfundur. En mönnum þótti kvæði eins og 'Varðinn' bera vott um óþolandi mikilmensku, og skáldskapurinn lélegur.

Til allrar hamingju lætur skáldið andbyrinn lítt á sig fá, og heldur í horfinu. Hann hefir nú í smíðum heilt leikrit í ljóðum. Efnið er tekið úr sögu Skálholtsbiskupa: það er viðureign Teits í Bjarnanesi og Jóns Gerrekssonar, sem verður honum að yrkisefni. En auðfundið er, að hvorki hefir hann rannsakað heimildir sínar, sem vera bar, né heldur hefir hann verið vaxinn viðfangsefninu frá skáldlegu sjónarmiði. Samt sem áður er þetta verk ekki ómerkilegt í sögu hans. Fyrir það fær hann, með atbeina Hannesar Hafsteins, styrk til utanferðar, og fer með hann út í lönd. Það er síðasti spottinn á mentabraut hans. Hann fer um Þýskaland, Sviss, Holland og England og ritar sjálfur um það ferðabók að förinni lokinni (1905). Af þeirri bók er að ráða, að ferðin hafi einkum opnað augu hans fyrir því, hve langt vér stöndum að baki öðrum þjóðum. Þetta dregur þó ekki úr honum kjark, heldur verkar sem h v a t n i n g. Og erfiðleikarnir skreppa saman í hnút, þegar maður sér, hvernig aðrar þjóðir hafa sigrast á sínum erfiðleikum:

"Við höfum skapað Holland," segir Hollendingurinn og bendir á flóðgarðana miklu og uppþurkuð fenin, skipgeng síki um alt landið og akra á fyrverandi sjávarbotni.

"Vér eigum eftir að skapa Ísland, dettur manni þá í hug." Og þessi hugsun hefir bitið á skáldið. Hún kemur aftur í 'Kveðjusending til Skaftfellinga' í fyrra bindi Skaftárelda-sagnanna.

IV.

Á för sinni um England hitti Guðmundur Einar Benediktsson skáld, og mun hafa fundist til um manninn, því ferðaminningarnar hefir hann síðar með kvæði til Einars. Þar segir meðal annars svo:

Þau gripu mig líftökum ljóðin þín
er lastu á útlendri grund......

— — — — —

Um huga mér stormbylur hafði þotið,
og húmið, sem niður mig beygði, var brotið,
þar kvað við með sverðtungum: Sæktu fram,
uns síðasta virkið er brotið.

Hvort sem menn vilja leggja mikið eða lítið upp úr þessu atviki, þá er það víst, að nú hefst framsókn hans fyrir alvöru.

Ljóðleikurinn 'Teitur' var, eins og áður segir, gallagripur, en styrkveitingin mun hafa valdið því, að veður mikið var gert úr honum í blöðunum. Má ráða það af Fjallkonunni 1904, xxi, no. 32: "Svo lítur út sem þessi ljóðleikur ætli að verða stórmerkilegt landsmál, þar sem bæði Þjóðólfur og Þjóðviljinn hafa flutt langar greinar um þetta mál, svo kvað vera von á einni ritgerð í Ísafold.

Þjóðólfsmaðurinn hefir ímyndað sér, að Guðmundur væri framsóknarmaður, en Þjóðviljamaðurinn Bjarni ímyndar sér að Guðmundur sé heimastjórnarmaður, því nú er alt í tómum flokkaríg; en Guðmundur er líklega Guðmundur og ekkert annað."

En einnig Fjallkonunni skjátlast, því Guðmundur er ekki lengur Guðmundur, heldur — Jón Trausti. Með "Höllu," sem kemur út 1906 og ber þetta nýja nafn hans, vinnur hann fullnaðarsigur, eigi aðeins á misjöfnum dómum blaðanna, heldur og á efanum og þokunni í sjálfum sér. Hann hefir fundið sjálfan sig, yrkisefni sín og söguformið, sem þrátt fyrir ýmsa galla, er einlægt loða við það í meðferð hans, lætur honum þó bezt. Hann er horfinn í huganum á fornar, kærar slóðir, Sléttan og heiðarnar og smákaupstaðurinn, alt fyllist endurbornu lífi í hug hans. Halla, Leysing og Heiðarbýlis-sögurnar koma í striklotu á árunum 1906—1911. Hvað sem segja má um listfengi hans í þessum fyrsta sagnabálki, frumsmíð hans á skáldsagnasviðinu, þá er það víst, að hvergi hefir sköpunargáfa hans gefið oss frumlegri og sannari menn og konur en einmitt í þeim. Mannlýsingar láta honum bezt. Annar sagnabálkur: Grundarfjarðarsögurnar: Borgir og smásögurnar, sem þeim fylgja, standa að vísu mjög nærri Heiðarbýlissögunum að frumleik og sumstaðar ef t. v. hærra að meðferð efnisins (sumar smásögurnar).

En eftir 1911 snýr skáldið sér að öðrum viðfangsefnum. Þessa verður vart, þó í litlu sé í annari útg. 'Borga' 1911, fyrst komu þær út í "Nýjum kvöldvökum" á Akureyri og sérprentaðar úr þeim 1910. Sagan hefst í 1. útg. með orðunum: "Árið 1398...." þessu er í nýju útg. breytt í "Anno domini 1898...." Að vísu ekki neitt stórvægileg breyting, en ekki er laust við að latínan komi þarna eins og skrattinn úr sauðarleggnum.

Hvaðan hefir hann þessa latínu? Því er auðsvarað. Hann hefir snúið sér að sögu landsins og er nú undir áhrifum af latínu glósum þeim, sem gamlir sagnaritarar voru vanir að strá í rit sín eins og salti í mat. Hann er nú tekinn til, þar sem fyr var frá horfið að 'Teiti' loknum.

Á næstu árum eru söguefnin öll valin úr sögu þjóðarinnar: Sögur frá Skaftáreldum I-II, Góðir stofnar I-VI, Tvær gamlar sögur og ýmsar smásögur og brot. Efnisvalið einkennir skáldið. Hann velur Skaftáreldana af því, að aldrei hefir íslenzk þjóð komist í hann krappari og aldrei hefir hún betur sýnt hvað í henni bjó af seiglu og þolgæði. En í hinum sögunum eru það sterkir menn og konur fyrst og fremst, sem verða honum að yrkisefni. Menn, þéttir á velli og þéttir í lund; þeirra er skamt að leita í sögu vorri. En þótt honum takist oft vel, stundum ágætlega, að gefa fortíðarmönnum lit og líf, þá verður því ekki neitað að þessar sögur standa yfirleitt að baki nútíðar-sögum hans, sem áður eru taldar. Veld

ur því stundum, að efnið verður honum ofviða, eins og í síðara bindi Skaftáreldasagnanna, stundum verður fátækt heimilda orsök þess að mannlýsingarnar verða tilbreytingarlitlar, eins og gljámyndir í samanburði við málverk.

En hann á eftir að grípa á samtíð sinni enn einu sinni, eða réttara sagt í *fyrsta* sinn, því Heiðarbýlis- og Grundarfjarðarsögurnar eru sögur minninga hans, og því nokkuð af öðru sauðahúsi en þessi síðasta saga hans: *Bessi gamli,* sem er bein lýsing af Reykjavíkurlífinu eins og það kemur skáldinu fyrir sjónir í daglegri viðkynningu.

Bókin er hin snarpasta ádeila á alt, sem aflaga fer, að dómi höfundar, í samtíð hans. Í sama anda eru og ritaðar smásögurnar '*Óboðinn gestur*' og '*Peningabuddan,*' er báðar komu í tímaritum áður en Bessi gamli kom út.

En áður en vér lítum á, hvað hann hefir að segja í Bessa gamla, er rétt að skygnast um öxl og sjá, hverjum augum hann lítur þjóðfélagsmálin á duggarabandsárum sínum. Vér höfum t. d. álit hans á einveldinu í kvæðinu: Á kóngsins nýja torgi. Þar segir svo:

Og guði' sé lof, að margt er til betri vegar brotið,
og bölið margt er horfið frá Kristjáns 5. tíð,
og aðalsvaldið minkað og einveldið er brotið,
og altaf virðist roða af nýrri og betri tíð.

Í einni af smásögunum, *Kappsigling,* sem er einstök í sinni röð að efnisvali, er því lýst, hversu skúta verkamannsins vinnur glæsilegan sigur á keisarasnekkjunni. Sú smásaga er þó eigi til þess ætluð að boða neina jafnaðarmensku heldur "öld hinnar frjálsu samkepni." Það er því í fullu samræmi við eldri skoðanir, að skáldið ritar greinina 'Upp með dalina niður með fjöllin' í Bessa gamla, hina meinlegustu árás á jafnaðarstefnuna. Hitt sýnir aftur bilbug nokkurn í trú á fyrri hugsjónir, er hann lætur Bessa gamla segja: "Besta stjórnin, sem til er, er einveldi—í góðs manns höndum." Í *Leysing* dregur hann dár að krossa-sótt Sigurðar gamla hreppstjóra. Í Bessa gamla hefir hann meiri samúð með þeim hugsunarhætti: " "Gud og Kongen." Það er farið að gleymast nú síðan riddarakrossarnir hættu að sjást. Gud og Kongen.—Eitthvað, sem fólkinu er háleitt og heilagt. Ó, eg vildi að þér hefðuð séð fögnuð gamalla heiðursbænda, þegar krossinn með orðunum "Gud og Kongen" var réttur að þeim. Það var langþráð stund."

Hvað hefir valdið þessari breytingu á skoðunum skáldsins? Er það þessi venjulega 'breyting' eigingjarnra manna, sem eru eldrauðir byltingamenn, á meðan þeir ryðja sér til rúms með illindum og olnbogaskotum, en er þeim hefir tekist það, snúa þeir við blaðinu og gerast værukærir broddborgarar, er sofa við öllu, nema kröfum jafnaðarmanna, af því að þær kröfur koma óþægilega við brjóstvasann þeirra?

Án efa á íhaldsstefna Bessa gamla rætur sínar bæði í breyttum

efnahag og aldri höfundar. Að nokkru—ef til vill allmiklu—leyti er Bessi gamli rödd aldarandans, af sama toga spunnin og rit þeirra nafnanna Guðmundar Finnbogasonar (Stjórnarbót) og Guðmundar Hannessonar (Út úr ógöngunum) og síðast en ekki sízt: Nýi sáttmáli Sigurðar Þórðarsonar. En alstaðar skín persónuleg reynsla höfundar út úr bókinni. Hann hefir *sjálfur* komist í náin kynni við ranghverfuna á frelsinu svonefnda, þingræðinu og jafnaðarmenskunni í Reykjavík, og það er fyrst og fremst sóma- og réttlætistilfinning hans, sem særst hefir við þau kynni.

Tökum til dæmis kynni hans við þing og stjórnmál. Á dögum Hannesar Hafsteins er honum veittur utanfararstyrkur, svo sem áður segir, síðar skáldastyrkur og atvinna nokkur á skrifstofu þingsins. Á máli stjórnarandstæðinga er alt nefnt einu nafni: bitlingur í flokksmann. Til þess að finna þeim orðum stað, verður auðvitað að gera sem minst úr verkum hans, og blöð stjórnarandstæðinga flytja því alt það, sem hægt er að segja ritum hans til hnjóðs. Eftir stjórnarskiftin (1909) missir hann auðvitað atvinnuna við þingið, en skáldstyrkinn hafa þeir ekki í fullu tré að taka af honum, því hann er þá orðinn einn vinsælasti rithöfundur landsins. Þó kastar fyrst tólfunum síðast (1916) þegar Ísafold fyllir dálka sína með ritsmíð eins og 'Íslenzkur nútíðarskáldskapur,' sem réttilega ætti að heita 'Níð um höfuðskáld fjárlaganna' því höfundur er saklaus af að vilja neitt annað með greininni en það eitt: að svifta skáldið styrknum.—Það var því engin furða, þótt skáldið reiddist jafn óbilgjörnum árásum, og það því fremur, sem hann var yfirleitt fremur hörundssár og átti það til að taka suma dóma óstinnt upp, þótt reistir væru á sterkari rökum en þessir sleggjudómar. (sbr. ritd. Sigurðar Guðmundssonar um Leysing, Eimr. XIII, 1907 bls. 212, þeim dómi svaraði hann af talsverðum móði í Lögréttu). Hann var því í beisku skapi, er hann ritaði Bessa gamla og greiddi löðrunga óspart á báða bóga: til *ritstjóranna*, er láta hafa sig fyrir ker, sem eigendur og umráðamenn blaðanna spýta í hverskonar ósóma; til *ritdómaranna*, er fara í lúsaleit, hvenær sem ný bók birtist, og sveitast blóðinu við að tína dönskuslettur, orðskrípi og nýgjörvinga, sem þeir 'kunna ekki við,' en láta *efnið* eins og vind um eyrun þjóta; til *þingmannsefna* og *þingmanna*, sem hugsa um það eitt, að koma sér hvorki út úr húsi við 'háttvirta kjósendur' né flokkinn sinn, hafandi litla eða enga samvizku af, nema ef svo ber undir, að hún kemur þeim í koll, eins og óboðinn gestur á Kringlu,*) þar sem þingmenn sitja yfir kaffibollum og hrossakaupum sínum.

Eigi heldur lætur hann *broddborgarana* undan draga, kúluvembda kaupmenn og uppsterta embættismenn, sem gæta þess, að

*)Kaffistofa þingmanna í Alþingishúsinu. Sbr. smásöguna "Óboðinn gestur."

hvorki falli blettur né hrukka á borgaralegan heiður sinn, en hafa með sér handtöskur troðfullar vínfanga úr veislunni á flóanum.

Og loks *múgurinn*, háttvirtir kjósendur, málóða kerlingar-vargar—hver fær sinn mæli troðinn, skekinn og fleytifullan hjá Bessa gamla.

En þótt skáldið þannig sé ævareiður og sjái margt skakkhyrnt og knýflótt í samtíð sinni, þá afneitar hann þó ekki innsta eðli sínu, sem er bjartsýnin. Trúin á sigur lífsins í framtíðinni. Hún birtist oss í hverri bók hans. Kjartan verkfræðingur í söguIok Heiðarbýlisins, er til þess eins í heiminn borinn—í trássi við listreglur allar— að boða oss hina björtu framfaratrú h ö f u n d a r. Hann sér heiðina í anda þéttbýla og vel ræktaða, ána beislaða, og eimreiðina þjótandi um héraðið á rústum heiðarbýlanna. Í Sögum frá Skaftáreldi sér skáldið gamla Ísland brenna sig til ösku og rísa úr henni síðan sem fuglinn Fönix. Og í 'Bessa gamla' setur hann von sína til hins íslenzka *menta-aðals*, sem á að rísa úr óskapnaði lýðræðisins og leiða fjöldann á réttan veg hins gullna meðalhófs. Hitt dylst engum, hver munur er á von Kjartans, hins unga fullhuga, og von Bessa gamla, sem sviðið hefir vængi sína í eldi efans.

* * *

Til er lýsing af Guðmundi Magnússyni skáldi og heimili hans rituð af nákunnugum manni (Ásgeiri Ásgeirssyni Eimr. xxv 1919 bls. 65-70). Er óþarfi að taka hana hér upp í heild, en mergurinn úr henni skal tilfærður. Eftir að hafa lýst skrifstofu skáldsins með handritum hans í röð og reglu á borðinu, en málverkum hans og pennateikningum á veggjunum—því Guðmundur fekst við að festa myndir sínar á léreft með litum og línum eigi síður en en að lýsa þeim í orðum—þá segir Ásgeir svo frá:

"Það er sama hvaða umtalsefni við byrjum á, Guðmundur tekur því jafn-fjörlega; ef það er eitthvað, sem honum er hugleikið, hefir hann oftast orðið, og er okkur aldrei hægara að taka eftir manninum. Hann er tæplega meðalmaður á hæð og hnellinn, feitlaginn nokkuð síðustu árin og þó ekki til lýta. Hárið er ljóst og farið að þynnast í hvirflinum, andlitið heldur frítt, og hið einkennilegasta við það eru augun. Þau eru ljósblá og skörp, stundum hvessir hann þau svo, að manni finst sem ekkert geti leynst eftirtekt hans, stundum er sem þau leiftri, er hann segir frá því, sem gagntekur hann. Hann gengur um gólf og tekur við og við litlar silfurdósir upp úr vestisvasanum, tekur lítið í nefið og þurkar vel af skegginu—en við getum ekki varist því að dást að, hve hendurnar eru fagrar.

Guðmundur hefir frá mörgu að segja.... Sérstaklega þykir honum gaman að koma að því, sem hann hefir séð á ferðum sínum, bæði hér heima og erlendis. Og við getum ekki annað en dáðst að minni hans og eftirtekt. Hver blettur, sem

hann hefir séð er eins og mótaður í hug hans....

Guðmundur er fús á að leiða samtalið að tildrögum bókarinnar, sem hann hefir í smíðum, sérstaklega ef það er ein af hinum sögulegu skáldsögum hans. Hann tekur fram heilan bunka af afritum, er hann hefir sjálfur gert af handritum úr þjóðskjalasafninu. Hann hefir unnið ósleitilega að því, að kynna sér hætti og siðu á ýmsum tímum í æfi þjóðar vorrar. Hann ann mjög sögulegum fróðleik og hefir safnað miklu af ritum um þau efni [meðal annars mun hann hafa haft fyrir augum að safna til sögu prentlistarinnar hér á landi*)]. Við finnum hinn ólgandi starfsþrótt hans og starfslöngun, enda sýna verkin ljóslega merki þess.

Hvenær skrifaði Guðmundur bækur sínar?

Þegar eg átti heima í húsi hans vann hann sem setjari í prentsmiðjunni Gutenberg, en nokkuð skemur en aðrir, eða frá kl. 9—4 á daginn. Skömmu eftir að eg kom heim kl. 7 á kvöldin tók hann að leika á orgel sitt dálitla stund, eftir það gekk hann oftast út með konu sinni og kjördóttur og til hvílu mun hann hafa gengið um kl. 10 á kveldin, þegar ekki voru gestir fram yfir þann tíma. Og á morgnana fór hann rakleitt til vinnu sinnar í prentsmiðjuna. Starfstíminn mun því aðallega hafa verið frá kl. 4—7 á daginn. En aldrei hitti maður svo á, að Guðmundur hefði ekki tíma til hvers sem var. Hann orti ógrynnin öll af erfiljóðum og öðrum tækifæriskvæðum, skrifaði greinar í blöð og tímarit o. s. frv.''

Þetta mun nægja til að fá ljósa hugmynd um manninn.

## V.

Jón Trausti—betra nafn gat skáldið ekki valið sér. Það þarf traust skap til þess að brjótast úr örbirgð íslenzkrar útkjálkasveitar til efnalegs og andlegs sjálfstæðis. En það gerði skáldið. Hann er sem laxinn,

er leitar móti
straumi sterklega
og stiklar fossa.

En eitt fékk hann aldrei af sér skafið: markið, sem íslenzka sveitin brendi inn í barnslund hans. Hann er og verður sonur sveitarinnar, hvar sem hann fer, hve mikið sem hann lærir. Þetta er ljóst meðal annars af málfari hans. Það er eins og gerist meðal sveitafólks, óheflað en kjarnort víða og jafnfjarri borgaralegum tepruskap og hreinræktuðum listasmekk mentamannsins. Einkum er honum sýnt um baðstofuhjal og gárunga gletni og það svo, að oft hefnist honum fyrir, er sá stíll nær valdi á honum, þar sem engin léttúð eða hranaskapur á við. Stundum getur hann ekki stilt sig um að koma að smellnum orðatiltækjum og samlíkingum, sem hann hefir lært á ferðum sínum, eins og t. d. þar sem hann talar um krókódílatár Settu í Bollagörðum eða andlit, rautt eins og soðin krabbi, hvorttveggja samlíkingar, sem enginn

*) Aðalsteinn Sigmundss. segir í Lögréttu 1918 að þeirri sögu hafi átt að vera lokið fyrir 1930 (400 ára afmæli prentlistarinnar).

'ósigldur' eða ólærður Íslendingur skilur. Af sama toga eru latínuklausurnar í hinum síðari ritum hans spunnar. Hann getur ekki stilt sig um að bregða þeim fyrir sig, sumstaðar alveg að óþörfu. Þetta kemur þó ekki af neinum lærdómshroka heldur af hreinni þekkingargleði hins sjálfmentaða manns, hversu barnaleg sem hún kann að virðast.

Stíll hans—eða stílleysi—er af sömu rótum runninn. Honum er fyrir öllu að segja það, sem honum býr í brjósti, hann skrifar því eins og andinn 'inngefur' honum, en hitt kann hann ekki að hvessa hugsanir sínar af ásettu ráði með ströngu úrvali og óvægum niðurskurði. Því er hann með réttu sakaður um mærð.—Enn hefir honum verið borið á brýn, að hann kunni ekki að segja sögu, því hann standi altaf milli lesandans og sögumanna sinna. Þetta er satt, sú er oft aðferð hans. Og þar sem hann reynir að láta sér aðfinslurnar að kenningu verða, þar hættir honum við að láta sögumenn sína halda endalausar ræður, eins og t. d. í Bessa gamla.

En skýrastan vott um uppruna hans og innræti bera þó söguefni hans. Hann lýsir jöfnum höndum íslenzkri náttúru og íslenzkum mönnum. Sveitunum lýsir hann svo, að lesandanum finst hann þekkja þar hvern stein og hverja þúfu auk fólksins og jafnsnjallar eru myndir þær, er hann bregður upp úr lífi sjómannanna, þótt smærri séu. Hvar getur snjallari lýsingu á steinbítnum í íslenzkum bókmentum en í sögunni af 'Páli steinbít'. Í örfáum línum óbundins máls bregður hann upp ógleymanlegri mynd af þessum litla persónugerfingi eldhörku og grimdar. Og fólkið sem hann lýsir er jafnsatt og lifandi, hvort sem hann lýsir sveitarhöfðingjum eða niðursetningum, efnamönnum eða fátæklingum, húsbændum eða hjúum, kjaftakindum eða klerkum og svo frv.

En—þetta á við einungis um sveitafólk til lands og sjávar. Borgarbúum kann hann vart að lýsa, nema frá einu sjónarmiði, borga-lífið sér hann aðeins í spéspegli. Hann skortir marglyndi til að skilja borgarana. Honum er um megn að finna hina mörgu fleti sem eru á tilverunni og hann er ekki skygn á undirdjúp sálarlífsins. En einlyndið er um leið styrkur hans. Það markar honum bás, en gerir persónur hans sterkar og heilsteyptar: Halla, Ragna, Þorgeir, Egill hreppstjóri, Torfi gamli og Bessi gamli—alt eru þetta menn

sem standa eins og foldgnátt fjall
í frerum alla stund........

Það eru menn Jóns Trausta. Sjálfur er hann einn af þeim.

*I. Bækur eftir Guðmund Magnússon.*

Heima og erlendis (ljóðmæli) 1899, Íslandsvísur 1903, Teitur (ljóðleikur) 1904, Ferðaminningar frá Þýskalandi, Sviss og Englandi (ásamt nokkrum kvæðum) 1905, (Jón Trausti) Halla*) 1906, Leysing 1907, Heiðarbýlið I (Barnið) 1908, Heiðarbýlið II (Grenjaskyttan) 1909, Smásögur I

*)Halla. Dönsk þýðing eftir Helgu Gad 1909

1909, Borgir*) 1. útg. 1909, Heiðarbýlið III (Fylgsnið) 1910, Heiðarbýlið IV (Þorradægur) 1911, Borgir 2. útg. 1911, Smásögur II 1912, Sögur frá Skaftáreldi I 1912, Sögur frá Skaftáreldi II 1913, Dóttir Faraós (leikrit) 1914, Góðir stofnar I 1914, Góðir stofnar II-IV 1915, Tvær gamlar sögur 1916, Bessi gamli 1918, Samtíningur 1920, kvæðabók 1922.

*II. Af greinum eftir G. M., sem ekki eru teknar í ofanskráð rit, munu þessar helstar:*

Íslenzkur marmari, Eimreiðin 1904, X, bls. 48; Íslenzk höfuðból I. Skálholt, Skírnir 1905, LXXIX, bls. 213; Vilhjálmur Tell og land hans, Eimreiðin 1906, XII, bls. 133; Frá nyrsta tanga Íslands. Óðinn 1911, VII, bls. 4; Sjálfsæfiágrip í Bogvennen, ágúst 1912, bls. 11; Ferð upp á Akrafjall, Óðinn 1917, XIII, bls. 54, 61, 67; Einsamall á Kaldadal, Ferðalýsing, Skírnir 1917, XCI bls. 241; Eiríksjökull, ferðasaga, Lögrétta 1918, XIII. Nr. 43, 44, 45, 46, 48, 49, 52.

*III. Það helsta, sem um G. M. hefir verið skrifað:*

Jón Trausti, eftir Þorstein Gíslason. Óðinn 1907, III, bls. 8; Jón Trausti, eftir sama, Óðinn 1911, VII, bls. 1. Þessi grein er og prentuð framan við Borgir 2. útg. 1911; Guðmundur Magnússon sagnaskáld (Jón Trausti), eftir Þorstein Gíslason, Skírnir 1917, XCI, bls. 296. Guðmundur Magnússon rithöfundur, eftir Aðalstein Sigmundsson frá Árbót, Lögrétta 27. nóv. 1918, XIII, Nr. 53.; Guðmundur Magnússon, eftir Ásgeir Ásgeirsson, Eimreiðin 1919, XXV, bls. 65.

Baltimore, október 1928.

*Stefán Einarsson.*

---

*) Imod Strömmen. Dönsk þýð. af "Borgir" eftir Margrethe Löbner Jörgensen, 1912. Borgar. Sænsk þýðing af "Borgir" eftir Rolf Nordenstreng 1921.



# Við sitjum jólin heima

Eftir *E. J. V.*

"Nú, jæja, farðu þá í þetta helvíti, sem þú endilega vilt lenda í! Og burt með þig þá í dag af mínu heimili og úr minni vist."

Með þessum ofboðslegu orðum endaði Jakob á Brennigerði stundarlanga ávítanaræðu yfir Hannesi syni sínum, þeim manninum, sem mestan þátt átti í því, að Brennigerðis-búið stóð nú svo vel og var svo arðberandi, að foreldrar hans þurftu varla að kvíða skorti og það enda ekki þó mögur ár kynni að bera að höndum við og við. Sannast er það, að stór og stirðlyndur eins og Jakob var, þá skeytti hann sjaldan skapi sínu á konu sinni og börnum. Hannes mintist ekki að hafa séð föður sinn í svona ham, eða sér jafn erfiðan nema einu sinni áður, og frá því uppþoti var liðinn langur tími.

Orsökin til þessa áfellis-dóms var fólgin í því að Hannes hafði ráðið sig til utanríkis þjónustu í canadíska hernum, en í augum Jakobs gekk það goðgá næst, og gott ef honum fanst ekki goðgá virðingarverðara afbrot en það, að ganga í herþjónustu. Þegar þetta gerðist var Hannes tuttugu og sex ára að aldri og faðir hans hafði auðvitað engan lagarétt til að taka ráð af fullveðja borgara í ríkinu, en um það vissi hann máske ekkert ,enda ekki gert minsta mun þó hann hefði vitað.

Hannes brá lit og hikaði við, en svaraði svo hálf-hlæjandi: "Ekki er nú í smá-kot vísað, eftir almennum skilningi, en svo veit eg nú, að þú leggur annan skilning í orðin. Eg þakka þér fyrir leyfið til vistaskifta, og fyrir alt og alt. Vertu sæll, faðir minn!"

Hann rétti föður sínum hendina, en karl bara hristi höfuðið, snaraði sér inn í herbergi útaf setustofunni og skelti hurðinni svo hranalega á eftir sér, að hrikti í viðunum.

Hannes stóð agndofa og starði á hurðina, sem nú skildi á milli þeirra feðga. Brosið sem flírað hafði um varir hans, umhverfðist í vetfangi í raunasvip, sem færðist ósjálfrátt yfir andlit hans. Án þess að hann væri þess vís, hneig höfuð hans niður að bringu og hann varpaði öndinni mæðilega. Nokkur augnablik stóð hann í sömu sporum, sneri sér svo við og gekk fram að stofuglugganum og leit út. Sól var hátt á lofti, svo nógur var tíminn til stefnu. Móðir hans var enn að hirða um blóm sín og hagræða þeim, fyrir framan húsið og horfði hann á hana um stund. Það var erfitt nokkuð að kveðja hana svona sviplega, en bót var í máli að hún var bæði bjartsýn og kjarkmikil. Í raun réttri gerði líka lítinn mun hvort hann kveddi hana degi fyr eða síðar. Og innan þriggja daga mátti hann til með að vera í Winnipeg, um það var engum blöðum að fletta. Að öllu

samlögðu gerði þá ekkert til þó hann færi í kvöld.

Hann gekk þá til herbergis síns uppi á lofti og tók saman í flýti fatnað og plögg. Raðaði hann þeim niður í hamleðurs töskuna járnbentu, sem engin ill meðferð hafði unnið svig á til þessa. Eftir að hafa komið fatnaði sínum fyrir, fór hann að moða í bréfa og skjalasafni sínu í kommóðu-skúffunni efstu og tók með sér nokkur bréf og eignarbréf sitt fyrir Bakkajörðinni, sem átti að verða framtíðarheimili hans, ef vonir hans rættust, en eignarbréfið ætlaði hann að fá geymt í öryggis-skáp í Winnipeg. Þegar hann ýtti inn skúffunni kom rót á aðra bréfahrúgu og sá hann hvar ljósmynd gægðist fram úr syrpunni. Það gladdnaði yfir honum og tók hann myndina, sem var af grannvaxinni stúlku og gáfulegri, í fermingarbúningi. Gekk hann þá yfir að bókaskáp sínum, tók þaðan íslenzku söngbókina og bar myndina við og reyndist hún ögn minni um sig, en spjöldin á kverinu. Í bókinni fékk þá myndin gistingu og skyldi nú fylgja honum á væntanlegum flækingi og vera honum brynja og skjöldur. Myndin var af Sigríði dóttur Sveins og Önnu á Landi. Nú voru liðin sex ár síðan hún gaf honum myndina og í sex ár hafði hann oft verið á fremsta hlunni að kaupa ramma um hana og láta hana skipa flokk með öðrum myndum á herbergis-veggjunum, en jafnharðan vikið frá þeirri hugsun, af hlífð við föður sinn.

"Hvað stendur til, Hanni minn?" spurði Sigurborg móðir hans þegar hann gekk inn í eldhúsið með tösku sína. Svipur hennar sýndi að ótti og kvíði höfðu náð haldi á huga hennar, en jafn skjótt og hún kom til hans og hafði lagt höndina á öxl honum, náði móðurást og meðfæddur kjarkur yfirtökunum og sveifluðu þeim tilfinningum burtu. "Mér sýnist þú ferðbúinn, en eg hélt þú þyrftir ekki að fara fyrr en á fimtudag."

"Alveg satt, móðir mín," svaraði hann og tók hana í faðm sinn, "en það hefir nú atvikast þannig, að eg er staðráðinn í að fara með lestinni í fyrramálið og af því að hún fer svo snemma ætla eg að fara til vagnstöðvanna í kvöld."

"Það er óvænt og svipleg breyting þetta," sagði móðir hans og horfði í augu honum. "Á faðir þinn nokkurn þátt í henni?"

"Bara óbeinlínis," svaraði Hannes. "Honum fellur þyngra en eg gat gert mér grein fyrir, að vita mig í hernum. Eins og þú veizt hefir hann frá upphafi stríðsins lagt sig eftir að lesa og hlýða á ræður allra, sem andmælt hafa þátt-töku Canada í ófriðnum. Öll sú mærð kemur frá tveimur jafnólíkum flokkum,—frá einlægum góðgjörnum friðarins mönnum, á aðra hlið, en frá fjandmönnum Breta og þeirra samstarfsmönnum á hina. Á milli þessara kvarnarsteina, ef svo má að orði komast, hefir hans eigin skoðun verið moluð og marg-moluð þangað til ekkert er eftir nema hratið. Þetta skildi eg ekki til hlítar fyr en nú. Og svo bætti það nú ekki úr, að eg lét í engu af mínum skoðunum, lækkaði ekki segl mín um þumlung,

og er nú eins og Friðþjófur forðum. "vargur í véum."

"Hér hlýtur að vera einhver misskilningur, Hanni minn, sem greiða þarf úr. Mér sýndist vín vera í honum í dag, þegar hann kom, og reynzlan hefir kent mér að þá er bezt að láta hann afskiftalausan. Sé svo, þá verður hann búinn að gleyma flestu í fyrramálið, sem gerðist í dag.

"Að vísu hafði hann smakkað vín," svaraði Hannes, "en ekki svo að hann gleymi því, sem okkur fór á milli. Hann man það alt á morgun, og honum var alvara."

"Hvað sagði hann þá svo alvarlegt, að þú getur ekki verið nóttu lengur undir þessu þaki?"

"Þú mátt ekki biðja mig um að rifja upp alt sem við sögðum, móðir mín. En trú þú mér, eg fer ekki af stað í kvöld vegna nokkurra ákveðinna orða, sem hann kann að hafa sagt, heldur vegna þess, að eg vil með engu móti þurfa að þrátta við hann oftar en einusinni, um þetta mál eða önnur."

"Jæja, Hanni minn, eg skal þá ekki segja meira," sagði móðir hans. "Ráð þín hafa æfinlega gefist okkur vel, og eg ætla að trúa því og treysta, að svo verði enn. Það er þungt nokkuð að verða að skilja við þig svona svipfega, en svo yrði það nú sjálfsagt jafn þungt á morgun, eða einhvern annan dag."

"Já, elsku mamma mín," sagði Hannes og lagði handlegg sinn yfir herðar hennar, "allar skilnaðarstundir eru erfiðar, og engin augnablik veit eg sem betur sýni hreysti hugans, og von og trú á að alt gangi vel. Þér hefir verið gefinn meiri en meðal skerfur af þessum andlegu öflum og þess vegna geng eg burtu hress í huga."

Klukkustund síðar þegar sólin var að síga niður um skógarbeltin í vestri, kvaddi Hannes móður sína úti fyrir framdyrunum. Hann stakk priki í töskuhöldurnar, vatt henni léttilega um öxl sér og gekk hvatlega leiðar sinnar.

Móðir hans stóð í sömu sporum og hreyfði hvorki legg eða lið fyr en hávaxnir hrísrunnar á brautarjaðrinum huldu soninn s j ó n hennar. Þá var sem hún vaknaði af svefni. Hún strauk hendi þétt um ennið, gekk svo aftur með húsinu og inn í það um eldhúsdyrnar, — aðalsarfsviði hennar um æfina.

Hannes smá herti gönguna, stikaði stórum og stikaði ótt, eins og væri hann að reyna að ganga af sér hugsanirnar, sem brutust um í brjósti hans. Hann hafði margs að minnast, margt að íhuga, og margt að álykta. Að álykta? En til hvers var það nú? Hann rendi grun í að þeirri byrði yrði nú bráðlega létt af honum, að mestu. Innan þriggja daga yrði það einhverra annara að álykta, að bjóða, —en hans að hlýða. Nú jæja, en þó þeir gætu svift hann ályktunarvaldi um stund, gátu þeir samt aldrei svift hann eigin-hugsunum, og sé hugurinn frjáls eru enda s t á lvarðir múrveggir haldlaust fangelsi.

Hugsanir hans voru æstar og feyktust eins og fis í hvirfilbyl, — í allar áttir í senn. Smámsaman

tókst honum þó að sefa þær og festa í rásinni, með því að líta í svip yfir farinn veg, frá því að hann fyrst mundi eftir sér. Hann var átta ára þegar foreldrar hans fluttu vestur um haf frá Holti og kunni því fáu að lýsa, heima á Íslandi. Eins og í þoku sá hann grisja fyrir Holta-túninu og bæjarhúsunum með fjórum hvössum burstum, er vissu fram á hlaðið og sneru mót sól og suðri, en það mundi hann af því, að hvað hátt, sem sól annars var á lofti, og hvað lengi sem svangur drengur var búinn að bíða eftir miðdagsmatnum, þá kom hádegið aldrei fyrri en sólargeislarnir strokuðu sig inn um bæjardyrnar og svo langt sem þeir komust inn eftir göngunum. Bezt mundi hann eftir sauðahjörð sinni, völunum sem hann átti í margra tuga tali og lék sér að öllum stundum. Týndar voru nú völurnar fyrir löngu, en gleymdar voru þær ekki.

Ferðin endalausa frá Holti til Winnipeg, var svo hulin í þoku, að hann mundi helzt eftir því að þá hefði sér liðið ver en nokkru sinni fyr eða síðar. En glögga mynd átti hann í hugskoti sínu af árunum fjórum í Winnipeg. Þau voru skemtilegustu og tilbreytingamestu árin, sem hann hafði lifað og honum var nautn í að hugsa um þau. Fáum dögum eftir að þangað kom fékk hann að "ganga í skóla," og af öllum skóladögunum var honum fyrsti skóladagurinn minnisstæðastur. Hann kunni auðvitað ekki stakt orð í ensku, og engin von til þess, en honum fanst jafnframt sjálfsagt, að kennarinn, þessi undur-fagra og prúðbúna unga stúlka, gæti talað við sig á íslenzku. En sú vissa hans kollvarpaðist sviplega. Hún kunni jafnmikið í íslenzku og hann í ensku—ekki eitt orð. Hvernig átti hún þá að kenna honum? Það vissi hann ekki, en einhvern veginn tókst henni það nú samt, og það svo vel, að á næstu jólum var hann hæstur í sínum bekk.

Að vornóttum fjórða skólaársins taldi hann sér víst að komast úr barnaskólanum og byrja nám í æðri-skóla deild með haustinu. Og svo var framsóknarhugurinn mikill, að þótt hann væri bara tólf ára var hann farinn að dreyma um háskólanám. En af því gat ekki orðið. Honum voru ætluð önnur störf. Faðir hans festi ekki yndi í borginni og tilfinningar hans leyfðu honum ekki að vera annara þjónn,—dautt verkfæri í höndum hvaða þjösna sem hann kynni að fá fyrir yfirmann, en þar sá hann engra annara úrkosta von fyrir sig. Fyrir tilviljun frétti hann að brunnið hefði íbúðarhús og flestir innan-húss munir efnalítilla aldraðra hjóna norður í Fljótsbygð, sem þá höfðu flúið á náðir frændfólks síns í Selkirk, og vildu nú selja jörðina. Hann fór þá strax til fundar við eigandann og frétti að "landið" fékst fyrir fimm hundruð dali "út í hönd." Hélt hann þá áfram ferðinni norður til þess að skoða sig um. Honum leizt bæði vel á bygðina og býlið. Kaupin voru gerð og mánuði fyrir skóla-lok varð Hannes að yfirgefa námið, og fylgja foreldrum sínum

og hjálpa þeim til þess að reisa bygð og bú á nýfenginni landeign.

Og þegar hann nú athugaði árangurinn af fjórtán ára starfi, á þessum stað, duldist honum ekki að faðir hans hafði viturlega valið, þegar hann kaus búskap úti í sveit fremur en vonleysis tilveru í borginni, þar sem daglaunamenn neyddust til að bítast eins og gaddhestar um allar atvinnusnapir. Þegar hann fyrst sá Brennigerði, sem faðir hans nefndi svo til minja um brunann, voru vart tvær ekrur svo vel hreinsaðar í grend við húsið, sem bygt hafði verið í þéttu skógarbelti, að gerlegt væri að plægja. Nú var naumast nokkur ekra, af hundrað og sextíu, að ekki væri hún arðberandi á einn eða annan veg.

Háskóla-draumar hans ásóttu hann árlangt eða svo, eftir að þangað kom, en síðar aldrei, og nú mundi hann ótilkvaddur hafa valið þessa leiðina, en ekki þá, sem leiðir til efstu lærdómslindanna. Hér hafði hann eignast fjölda af ástúðlegustu vinum, sem hann annars hefði aldrei heyrt eða séð. Komu sinni hingað mátti hann þakka það, að hann hafði eignast svo elskuverða heitmey. Það var ekki hans álit einvörðungu, heldur allra sem til þektu, að Sigríður á Landi skaraði fram úr flestum jafnöldrum sínum í grendinni. Þá mintist hann þess, að eitt einasta mótdrægt atvik hafði gert honum lífið leitt um stund, í öll þessi ár, og það var einmitt í sambandi við heitmey hans. Sveinn á Landi og Anna kona hans höfðu auðsýnt foreldrum hans vinfengi, leiðbeint þeim og hjálpað, frá því fyrsta. Vinskapur tókst því með þeim og hélzt óslitinn í átta ár, en þá kom sá kvittur upp, að Lands-hjónin væru "fríþenkjarar" ef ekki blátt áfram "Únítarar," og sönnunin var deginum ljósari þegar Sigga var send til fermingar suður til Gimli. Af öllum taugum föður hans voru trúartaugarnar viðkvæmastar. Afleiðingin var sú, að blátt bann var lagt á öll mök við fólkið á Landi. Og eflaust átti þetta drjúgan þátt í uppþotinu í dag, þar sem hann hafði tilkynt föður sínum að Sigríður á Landi væri festarmey sín. Sekt hans var tvöföld,—hann hafði gengið í herinn og hann hafði helgað sér forboðna eplið.

Þegar hér var komið hugleiðingum hans var hann kominn heim undir bæjarhúsin á Landi og aðal erindið þangað var auðvitað að kveðja unnustuna. Honum var ekki tamt að kvíða því, sem að höndum kynni að bera, og því síður var honum tamt að sýna á svip sínum hvað í huga hans bjó. Nú var þó eins og hrollur færi um taugar hans, þegar hann hugsaði til að kveðja Siggu. Hann fékk snert af þessum hrolli þegar hann kvaddi móður sína, en átakanlegri yrði þó sú tilfinning nú. Honum var gagn að hafa gát á sér og halda þétt um taumana.

Hann var svo sokkinn niður í hugsanir sínar, að hann var nærri genginn framhjá Lands-húsinu. En hjónin voru úti og fyrir framan húsið og kallaði þá Sveinn til hans:

"Hvaða ógna asi er á þér, Hann-

es minn, og hvert er ferðinni heitið?"

"Með tíð og tíma er ferð minni heitið til þeirra segulstöðva, sem ramast hafa seiðmagn nú á dögum."

"Á, er það svona?" sagði Sveinn. "Í rauninni kemur mér nú þetta ekki neitt ókunnuglega fyrir. Eg hafði lengi átt von á því, en varla að það bæri að svona óvenju snögglega."

"Eg held að hjá því verði varla komist," svaraði Hannes. "Mér kemur það svo fyrir, að ætlast sé til að maður sem annars býður sig fram, sé tilbúinn samstundis, að minsta kosti innan fárra daga. Og eg held það fari nú bezt á því. Mér finst að langur aðdragandi yrði alt af einhverjum hlutaðeigenda þungbærari en snögg viðbrigði."

Í því skyni, bæði að dreifa talinu og draga slæður yfir eigin hugsanir, bauð Anna Hannesi inn og drekka með þeim bolla af kaffi. Hann afþakkaði það, en greip tækifærið til að spyrja eftir Sigríði, og frétti hann þá, að á föstudaginn hafði hún fengið ströng boð um að taka við hjúkrunarstarfi sínu í Regina að morgni yfirstandandi mánudags. Hún hafði því farið að heiman á laugardagsmorgun og frá Winnipeg vestur seint að kveldinu. Hannesi hafði verið kunnugt að Sigríður var ráðin til Regina, en átti ekki von á að hún færi þangað fyrr en mánuði síðar.

Hann leit augnablik til jarðar, rétti sig svo upp og leit á þau hjónin og sagði brosandi: "Jæja, eg er þá ekki einn um að hverfa skyndilega úr bygðinni. Það er annars hálf skrítið þetta. Á laugardaginn höfum við verið samtíða í Winnipeg, þó hvorugt vissi af hinu. Þá var hún að ganga í þjónustu á spítala langt vestur í landi, og eg að binda mig til þjónustu í þarfir Canada, hvar sem vera vildi. Eins og ykkur sjálfsagt grunar var aðal-erindi mitt hingað í þetta sinn að kveðja hana. Hún vissi vel um fyrirætlan mína og var mér samþykk. Eigi að síður eru þessi erindislok dálítið óviðfeldin, þó eg hins vegar viti ósköp vel, að þetta gerir ekkert til, breytir engu."

"Það er hátíðlegur sannleiki," sagði Anna, "að snurða eins og þetta veikir ekki þráðinn og breytir engu. Hún Sigga mín er kjarkmikil og örugg í þeirri von sinni og trú, að það góða sigri, og það veit eg að þú ert líka, Hanni minn, og svo erum við Sveinn minn þá líka ánægð."

Samtalið valt einhvern veginn um sjálft sig, svo þungt var þeim öllum fyrir brjósti. Það smá dró úr því, dofnaði hægt og hægt og dó út að lyktum eins og ljóstýra, sem sogað hefir í sig seinustu lýsis-ögnina úr kveiknum.

Hannes varð fyrstur til að rjúfa þögnina. Hann reis á fætur og sagði að þetta dygði ekki, ef hann ætti að ná til vagnstöðvanna fyrir háttatíma. Hann kvaddi hjónin, vinina trúföstu og stöðuglyndu, sem aldrei höfðu brugðist honum og aldrei mundu gera það, snaraði töskunni um öxl sér og gekk greiðlega úr garði. Að vörmu spori var

hann horfinn sýn þeirra í nætursortanum, sem óðum var að þéttast á vegi hans.

En jafnótt og náttmyrkrið þéttist kom fram sí-vaxandi skari af glóandi stjörnum á dimm-bláu hvelfingunni yfir höfði hans, eins og vildu þær sýna honum og sanna, að þó dimm væri braut hans í augnablikinu, þá biðu hans ljós og birta, þó langt sýndust máske í burtu. Þannig leit Hannes á þessi breytilegu atvik, sem gert höfðu burtför hans vandræðalegri en hann hafði búist við. Á uppvaxtar-árunum hafði hann verið kallaður lifandi eftirmynd móður sinnar í sjón, og eftir því sem ár hans fjölguðu mátti svo virðast að eðlisfar hans væri nákvæmlega hið sama og hennar. Í aðal-atriðum var það líka rétt. Hann var kjarkmikill og bjartsýnn, eins og hún, en viðurkendi þó, að dökka hliðin væri athugaverð engu síður en bjarta hliðin. Þessvegna tamdi hann sér að brjóta öll mál til mergjar og það gerði hann á þessum seinasta áfanga til vagnstöðvanna, —velti fyrir sér öllu, sem fram við hann hafði komið um daginn og komst svo að sinni venjulegu niðurstöðu, að hér væri reyndar um ekkert að kvarta. Alt væri fyrir beztu.

Vitaskuld var átakanlega leiðinlegt að faðir hans kvaddi hann á þann hátt sem hann gerði. Þau voru líka hvimleið vorhretin, þegar nístingskaldur norð-vestan rosi rumbaði úr sér kalsa-regni og snjó svo jörð varð hvít, en þó færðu þau köst bóndanum æfinlega fyrstu uppskeruvonina. Stormarnir geisa að sjálfsögðu um ríki mannsandans, alveg eins og um ríki náttúrunnar, og faðir hans var auðvitað háður sama lögmáli og aðrir. En stormurinn sem hristi hann svo mjög í dag myndi þegar minst varði umhverfast í lygnan og sólríkan sumardag.

Það var ekki síður leiðinlegt, að hann fékk ekki að sjá og því síður að kveðja heitmey sína. Þetta kom svo flatt upp á hann, að vonbrigðin lömuðu bæði hugsun og málfæri í svipinn og var þó í raun réttri lítil ástæða til. Að öllu loknu gat hann æfinlega kvatt hana bréflega,—hann gat enda notað talsímann til þess að tala við hana ofurlitla stund. Ef ekki yrði hafin austur-ferðin öllum að óvöru, taldi hann líka alveg víst að fá sig lausan einn sunnudag, og með því að ferðast báðar leiðir að nóttu til gat hann verið með unnustunni, vestur í Regina, meginhluta sunnudagsins.

Það var satt sem móðir hans sífelt brýndi fyrir börnum sínum, að með samstarfandi viljakrafti og einlægri trú á það góða, gæti hver og einn að miklu leyti ráðið örlögum sínum á lífsleiðinni. . . . .

Snemma næsta morguns kvaddi Hannes í anda bygð sína og heimili, föður og móður, ekki með söknuði eða kvíða, þrátt fyrir ógeðfeldu atburðina í gær, heldur með þróttmiklum hug æskumannsins, sem hugglaður og hress í anda leggur leið að heiman til þess að kanna nýjar slóðir um fjöll og firnindi og til þess, máske, að þreyta hrikalegan kappleik við

"ramar risaþjóðir," eins og Örvar-Oddur forðum.

Farþegar voru fáir í vagninum, sem hann tók sæti í og var hann þessvegna einn um vagnsæti sitt, og það þótti honum vænt um. Hann settist út við gluggann í þeim tilgangi að líta yfir landið, sem hann fór um, og hann sá það, auðvitað, en sá þó í rauninni ekki neitt, svo langt var hann undan landi á hafi dagdrauma sinna, sem voru, eins og draumum er gjarnt, "undarlegt sambland af frosti og funa." Af þessum dvala vaknaði hann ekki fyrri en lestin brunaði inn í stálteina—vefinn stóra og fjölþætta, sem ótvíræðilega sýnir ferðafólki, að vagnstöðin í Winnipeg er í nánd.

Af ásettu ráði dró Hannes að fara heim til Bjargar systur sinnar þangað til klukkan væri orðin fjögur síðdegis. Hann vissi ósköp vel að hann þurfti þar að gera grein fyrir ástæðum sínum til heimanfarar tveimur dögum fyrri en hann gerði ráð fyrir, þegar hann var þar síðast. Út í það málsatriði vildi hann helzt ekki þurfa að fara oftar en einusinni, en það gat hann gert með því eina móti, að koma heim þangað jafn snemma og Palli bróðir hans var væntanlegur heim af fjölfræðaskólanum, þar sem hann hafði nýlega byrjað að stafa sig inn í rafmagnsfræðinám. Þetta varð. Páll kom í hendingskasti inn um eldhúsdyrnar, einmitt þegar Hannes gekk inn um framdyrnar. Páll var örlyndur, snar í snúningum og þaul-spurull, eins og eðlilegt er unglingi nýkomnum á sextánda árið. Jós hann nú þeirri skæðadrífu af spurningum, samkynja og ósamkynja, yfir bróður sinn, að enginn vegur var til að svara, svo að svar gæti heitið. Með venjulegri lempni og stillingu gekk þá Björg fram og lægði spurningastorminn. Hún sagði kaffið bíða þeirra á eldhúsborðinu, og á meðan þau drykkju úr bollum sínum skyldi Hannes segja fréttir og sögu sem gengi. "En við hlýðum og hlustum, Palli minn," sagði hún og brosti við Páli, "og fáum þá fréttirnar fyrri og betur sagðar en annars."

"Allright!" svaraði Palli. "Þú fer hægt, Bogga systir, en þú sígur á. Ger sem þú vilt, en víst vil eg kaffið."

Hannes sagði helztu fréttir úr sveit þeirra skýrt og greinilega, en fór svo fljótt sem varð yfir söguna af viðskiftum sínum og föður þeirra. Lét hann þess eins getið, að sökum þess að föður þeirra hefði fallið svo illa tiltæki sitt að ganga í herþjónustu, þá hefði hann tafarlaust tekið þann kostinn, að fara fyrri en nauðsynlegt var, í þeim tilgangi að afstýra leiðindum og máske ógeðfeldum stælum. Og þegar til alls kom, þá skifti litlu hvort hann lagði að heiman deginum fyr eða síðar, og það hefði móðir þeirra undireins samsint að væri alveg rétt og satt.

Þegar Jón, bóndi Bjargar, kom heim frá vinnu sinni um kveldið og frétti hver kominn var, lék hann á alls oddi. "Mikið vildi eg til vinna, Hannes minn," sagði hann þegar þeir heilsuðust, "að geta nú

farið með þér og lagt hönd á að lúskra helvítis Þýskaranum eins og hann á skilið. En kona og þrjú ung börn hafa bönd á mér, sem eg get ekki slitið.''

''Og sem þér kæmi ekki til hugar að slíta, þó þú gætir, ef eg þekki þig rétt,'' svaraði Hannes brosandi.

''Víst ætti það nú að vera svo,'' sagði Jón, ''en þú trúir ekki og því trúir enginn hvað illþolandi er að hlusta á gaspur þýsksinnaðra seppa, sem gelta og gjamma daginn út, mitt í vinnunni, og hræra svo saman fleipri um frið, og fjandskap, er þeir leggja á Bandamenn, með sérstöku tilliti til Canadamanna, að nær ógerningur er að greina eitt frá öðru. Þetta spanar mig svo upp og æsir, að eg veit stundum varla hvað eg er að gera. En sleppum því. Þess bið eg þig umfram alt, að þú gerir þetta hús að heimili þínu á meðan þú verður í borginni, því eg er svo sólginn í að frétta um alt sem gerist og eg veit þú fréttir svo margt, sem ekki kemur í blöðunum, og við fréttum aldrei.''

''Hvað segir þú mér annars frá tengda-pabba? Af því sem hann hefir sagt við mig, get eg til að honum hafi brugðið að mun, þegar hann vissi að þér var alvara.''

''Já, skoðanirnar, sem h a n n hefir fengið að láni, eru honum óþægðarbaggi, auðvitað,'' svaraði Hannes. ''Honum er þess vegna ekki láandi þó honum sárni að sjá mig fara í stríðið, sem Philip Sheridan, hinn frægi og undireins hlífðarlausi herkonungur Bandaríkjanna í innanríkisstríði þeirra, sagði að væri helvíti sjálft. Og svo bætti það nú ekki úr,'' bætti hann við og brosti, ''að eg var svo einfaldur að tilkynna honum trúlofun okkar Sigríðar á Landi.''

''Ha, ha! Tvö högg í senn, og rot-högg bæði!'' varð Jóni að orði.

..... Það voru nú liðnir næstum tveir mánuðir síðan Hannes byrjaði á hernaðar-námi sínu, sem honum reyndist auðlært. Innan mánaðar var hann kominn langt fram fyrir marga, sem búnir voru að róa tvo mánuði og meir á sama ''skóla'' bekknum. Að hann flaug þannig áfram var máske einkum því að þakka, að hann var lang bezta skyttan í sínum flokki, og kunni byssuburð og flestar þær hreyfingar og sveiflur, sem kendar voru.

Einhverntíma fyrir háttatíma á hverju laugardagskvöldi fór hann heim til systur sinnar og dvaldi þar til sunnudagskvelds. Þangað fékk hann öll bréf sín og fréttir að heiman, og frá festarmey sinni í Regina, og þar ritaði hann öll sín bréf og hvað annað sem rita þurfti. Ef til vill var hann eini maðurinn í flokknum, sem aldrei fékk bréf til herbúðanna, en sú var ástæða til þess, að honum þótti ónæðissamt og glaummikið í ritskálanum.

Eitt laugardagskvöld kom hann heim til systur sinnar tveim stundum fyr en venja var til. Hann hafði heyrt að fundur yrði haldinn í Breiðsal þá um kvöldið til þess að andmæla herskyldulögunum, og því hafði hann fengið sig lausan fyr en ''reglurnar'' gerðu ráð fyrir. Hann sagði að sig hálf langaði til að sjá og heyra ''Gvend Sól-

argang," sem Íslendingum var svo tíðrætt um, að nafn hans var á lofti hvar sem hann kom á íslenzkra manna mót. Vildi Jón koma með honum?

Jú, Jón var til með það, hafði ekkert viðbundið, og ekki heyrt til þessara ótímabæru friðar postula langa lengi. Það var gaman að hlusta á upphrópanir þeirra, stöku sinnum......

Breiðsalur var nokkurnveginn þétt setinn þegar þeir Hannes og Jón gengu inn, og fundur byrjaður. Fyrstu orð sem þeir heyrðu voru þessi:

"Er nokkur sá faðir, nokkur sú móðir, hér inni, sem ekki vill andmæla því glæpsamlega athæfi Canadastjórnar, að ætla sér að draga soninn úr foreldrahúsum, til fórnfæringar á blótsstöllum auðvaldsins?"

"Þarna sérðu nú Sólarganginn og heyrir kvarnarhljóðið!" hvíslaði Jón að Hannesi.

Fundurinn fór friðsamlega fram og ræðurnar góðar, í sinni röð, en einkennilegar að því leyti, að þær voru helzt ekkert nema upphrópanir frá upphafi til enda. Tilgangurinn var augsýnilega sá, að hrífa tilfinningar áheyrenda fremur en vit þeirra og skilning. Af og til heyrðust mótbárur, þegar einhver ræðumanna fór sérlega gapalega með efnið, eða þegar svo freklega var beitt í vindinn, að hætta var á að hvolfdi kænunni. En mótbárurnar voru veigalitlar, enda engum þeirra gefinn gaumur.

Það varð hlutverk Hannesar að koma með mótbáru, sem tekin var til greina. Seinasti ræðumaðurinn á dagskrá reyndist svo frekjufullur og tvinnaði svo kænlega saman rétt og rangt, satt og ósatt, að Hannesi var ofboðið. Hann spratt úr sæti sínu nálægt dyrum og kallaði með svo hárri og drynjandi rödd, að ræðumaður þagnaði:

"Álítur ræðumaður virkilega drengilegt og okkur sæmandi að neita meðborgurum okkar á vígsvæðum Frakklands og Belgíu um þá liðveizlu og þau björgunartæki, sem þeim eru lífsnauðsynleg?"

"Eg er kvaddur hingað til að ræða alvörumál, en ekki til að þræta við einn eða annan um einfeldningslegar spurningar," svaraði ræðumaður og ætlaði að halda áfram, en rödd Hannesar yfirgnæfði hans í annað sinn.

"Sé spurning mín einfeldnisleg, þá er vitmanni innan handar að svara henni umhugsunarlaust."

Fundarstjóri stóð þá upp og bauð Hannesi fimm mínútna málfrelsi, eftir að ræðumaður lyki sínu máli, en þó því aðeins að hann kæmi upp á pallinn.

Mörgu hýru auga var skotrað til þessa hervædda trölla þegar hann stikaði inn ganginn og upp á ræðupallinn. Og svo tígulegur var hann og fyrirmannlegur, að ræðumennirnir allir á pallinum risu sem einn maður úr sætum sínum og heilsuðu honum. Hann var herðabreiður og svo hár vexti, að hann bar höfuð og herðar yfir hvern hinna og í augum fundarmanna var hann auðveldlega "fjögra maki." Þegar hann snéri sér að fundarmönnum, duldist engum, að hér var sann-íslenzkur maður,—

norrænn víkingur endurreistur, full sex fet á hæð, skol-jarpur á hár, augun dökkblá og hvöss, og svipurinn stillilegur, þó þar byggi eitthvað er sýndi að þessi ungi maður mundi halda sínu fyrir hverjum sem til kæmi.

"Eg kom hingað til að hlusta og heyra, en ekki til að tala," sagði Hannes og brýndi raustina. "En úr því heiðraður fundarstjóri hefir leyft mér að segja nokkur orð, þá tek eg því með þökkum.... Eg stend hér ekki upp í þeim tilgangi að skattyrðast við nokkurn mann, eða flytja ávítanaræðu, heldur til þess að vekja athygli á málsatriðum, sem ekki hafa verið tekin til greina á þessum fundi.

Ef eg skil rétt, þá er "friður á jörðu og velþóknan meðal mannanna" mergur málsins, sem hér hefir verið flutt í kvöld. Betra, göfugra málefni getur maður ekki hugsað sér. Sé friðar-mál flutt ómengað af óskyldum efnum, þá kemst þar enginn ágreiningur að, því allir vilja frið hafa og óska eftir honum í allri einlægni. En það er misskilningur, og hann háskalegur friðarmálefninu sjálfu, að eyða tíma og kröftum til að prédika um frið á jörðu, á meðan helmingur heims er að brenna í aleyðandi ófriðareldi. Á þessu augnabliki er ekki um nema eitt einasta kappsmál að ræða, en það er að slökkva þann óskapa eld. Að dreifa hugum manna á meðan svo stendur, er sama sem að auka eldinn, því dreifingin tefur æ meir og meir fyrir stríðslokum. Aftur á móti, að sameina hugi manna um eina kappsmálið,—að slökkva eldinn, er að flýta fyrir komu þeirrar óskastundar allra þjóða, að friður komi í stað stríðs.

Ef eldur kemur upp í bóndabýli úti í sveit, hvað verður bóndanum fyrst fyrir? Kallar hann fólk sitt máske saman á fund til að skeggræða um orsakir eldsins og hvernig hentast sé að byggja næst? Eða skorar hann á það að ganga fram hraustlega, slökkva eldinn og bjarga fémæti? Eg trúi ekki að tvískift sé skoðun á því, hvað bóndanum yrði fyrst fyrir að gera, undir þeim kringumstæðum.

En þannig er nú ástatt hér. Þó ekki sjáum við eldinn, þá er okkar kanadíska hús nú að brenna. Krefst þá ekki sómatilfinning okkar þess, vinir og meðborgarar, að við ljáum okkar lið til þess að slökkva eldinn?"

* * *

Haustið var að ganga í garð, ágústmánuður vikinn úr sessi, og september tekinn við dagráðum. Fylkingin, er Hannes tilheyrði, var nú búin að dvelja nær mánuði í herbúðaþyrpingu Canadamanna, hinni miklu, fram við Dofra-sund. Oft hafði hann séð strendur Frakklands austanmegin sundsins, en ekki stígið fæti á franska jörð, þó óðum nálgaðist nú sá tími, að honum hlotnaðist sá heiður.

Honum leið vel og hafði liðið vel frá upphafi. Þarna voru í þyrpingu margar þúsundir vaskra drengja, flestir kátir og fjörmiklir, er ekkert létu fyrir brjósti brenna, og tilbreytingin var endalaus. Jafnharðan og einn flokkur fór "yfirum," kom annar að

handan til að hvíla sig, og aðrir til að styrkjast, er sýkst höfðu eða særst og voru ekki vígfærir. Með nýjum degi kom ávalt eitthvað nýtt að sjá og heyra. Þeir, sem komu að "handan" færðu nýjar sögur, nýjar fréttir af vígsvæðunum og lýstu svo vel útliti og umbúnaði, að nýsveinarnir fengu æ gleggri og greinilegri hugmynd um hvað fyrir þeim lá, þegar á hólminn væri komið, og það útaf fyrir sig var góður og gagnlegur fróðleikur fyrir þá, sem voru á ferðinni til þessa "fyrirheitnalands." Skemtisamkomur voru tíðar, sumar ágætar, sumar lélegar, en menn gerðu sér gott af öllu og tóku því, sem fram var borið, með háværum fagnaðarlátum. Alt þetta dreifði hugsunum hermanna og spornaði á móti óyndi og heimþrá.

Hvort sem Hannes var háður, eða ekki, sama lögmáli og menn yfirleitt eru og hefir þessvegna stundum fengið sárustu löngun til að vera laus úr þessum solli og horfinn heim til ættmenna og vina, löngun til að vera orðinn að barni aftur, að ganga á skóla og bisa við að læra stafrofið,—hefir fundið til þess á tómstundum og langdregnum næturstundum þegar illa gekk að festa svefn, þá lét hann það aldrei á sér sjá eða á sig festa, stundu lengur. Fyrir tilviljun hafði hann líka komist að því, að einn var þó staður í London, þar sem honum veittist létt að gleyma í svip öllu, sem erfitt var og mótdrægt, og þangað vandi hann komur sínar í hvert skifti sem færi gafst að bregða sér til borgarinnar miklu, sem nú vafði sig í kufli næturskugganna svo vel sem varð, í því skyni að verjast árásum loftfaranna þýsku. Félagsbræður hans frá herbúðunum fengu hann aldrei til að fylgja hópnum á þá skemtistaði, er þeir töldu hentasta þeim, er verulega vildu njóta fárra frístunda. Leiðir þeirra skildu æfinlega á Waterloo-vagnstöðinni, eftir að þeir höfðu mælt sér þar mót til heimferðar, á fastsettri stund. Þaðan tók Hannes sér far norður á Great Russell stræti og var á svipstundu kominn inn í brezka stórsafnið, British Museum, og þar tafði hann sem lengst mátti.

Frá því hann fyrst fór að heiman hafði órói og heimþrá aldrei sorfið eins hart að honum, eins og fyrstu dagana eftir að hann fór frá Winnipeg á austurleið, enda ástæða til. Á fimtudag hafði hann fengið fjarveruleyfi frá laugardagskvöldi til mánudagsmorguns, og þeirri frístund ætlaði hann að verja til að heilsa heitmey sinni, —og kveðja hana, vestur í Regina. En á föstudagskvöldið flaug sú óheilla herör um búðirnar, að fylking Hannesar skyldi leggja af stað austur til Bordens-búða í Ontario, stundvíst á hádegi á laugardaginn. Það var kunnugt að innan hálfsmánaðar yrði lagt upp, en svona sviplegt uppþot kom öllum eins á óvart eins og það kom þeim meinlega illa, en varla þó hugsanlegt að nokkrum þeirra kæmi þetta jafn hörmulega illa eins og Hannesi. Honum fanst í svipinn alveg óhugsandi að hverfa svo úr landi burt, að ekki hefði hann augnabliks viðtal við ástmey

sína, sem hann hefði helgað líf sitt og sál. En hér var ekkert svigrúm, ekki einu sinni til að nota talsíma eitt augnablik. Það eina, sem hann gat gert, var að fela systur sinni að síma Sigríði, um leið og hann afþakkaði kveðjugildið, sem þau hjón höfðu efnt til, honum til glaðningar næsta þriðjudagskvöld.

Það var einhver tilfinning ekki svo fjarskyld örvænting, sem greip hann þeim heljartökum þegar járnbrautarlestin sveiflaði honum austur yfir Rauðá og Winnipeg var að hverfa, að þó sól væri í hádegisstað, fanst honum að farið væri að syrta af nótt. En þá kom meðfæddur kjarkur hans og tók svo fast í taumana við tilfinningarnar, að þær sefuðust og eyddust á stuttri stund. Það skýrðist æ betur og betur fyrir honum, að hér væri ekkert óvænt á ferðum. Það var bara gamla sögnin endurtekin, að enginn getur þjónað tveimur herrum í senn. Hans nákomnasti herra, þráin að sjá og kveðja unnustuna, var smár og veigalítill í samanburði við þann herrann, sem fólginn var í her og stjórnarvöldum. Fyrir þeim háa herra hlutu allir einstaklingsherrar ekki aðeins að beygja sig, heldur rýma sæti hvenær sem krafist var. Þetta ok, ásamt mörgum öðrum, tóku menn á herðar sér, þegar þeir réðust til herþjónustu.

Þegar morgunsólin var að rísa yfir öldur Efra-vatns og varpaði lýsigullslit á Þrumuvíkina breiðu og svipmiklu, skotraði Hannes bréfi til Sigríðar í póstkassann á vagnstöðinni í Port Arthur, og það hafði að geyma kveðjuorðin, sem hann hafði hugsað sér að flytja henni munnlega einmitt þennan sunnudag. Þessi kveðjuorð mundi hún lesa fyrir hádegi næsta dag, bara einum degi seinna en hún átti að heyra þau af vörum hans. Þetta var þó hugnun. Að vísu var honum varnað að sjá hana, en án þess að koma í bága við lög og reglur gat hann séð hana í hvert skifti, sem hann lét aftur augun. Þeim rétti gat enginn svift hann. Við það skyldi hann sætta sig. . . .

Og nú var hann hingað kominn, fast að landamerkjum Frakklands. Hann var ekki óbreyttur liðsmaður lengur. Áður en frá Bordens-búðum væri farið, var hann skipaður Sergeant, eða heræfingastjóri og reglu-vörður í sínum flokki. Yfirmenn hans höfðu strax í Winnipeg tekið eftir því, að hann bar af flestum liðsmönnum í fylkingunni og að orð hans og framkoma sýndu að hann var gæddur frábærum leiðtogahæfileikum. Stöðunni fylgdu aukin störf og aukin ábyrgð, en hann var maður til að mæta hvorutveggja, og fagnaði yfir auknu verki, því aðgerðaleysi átti hann bágast með að þola.

* * *

Kvöld eitt nær október-lokum, í kalsaveðri með snjóhraglanda í lofti, var barið létt og þýðlega að dyrum á Landi. Þegar Sveinn lauk upp dyrunum féll hann í stafi af undrun, að sjá þar komna Sigríði dóttur sína, brosleita og hoppandi af kæti. Undir eins og hann

gat komið upp orði hrópaði hann: "Anna mín! Sigga er komin!" Móðir og dóttir tóku jafnsnemma til fótanna og mættust á miðju gólfi í setustofunni. Eins og geta má nærri, eftir nær sex mánaða fjarveru, fuku spurningarnar örar en skæða-drífa í norðvestan roki.

Fyrsta spurning Sigríðar var um fréttir frá Hannesi. Höfðu þau heyrt frá honum nýlega? Jú, þau voru nýbúin að fá bréf frá honum, "og þvílíkt þó bréf," sagði Sveinn, "bara ómerkilegt spjald og á það hafði Hannes ritað: "Einhversstaðar á Frakklandi. . . . Mér líður vel."

Sigríður kannaðist við svona bréf, hafði séð þau svo mörg, og eitt frá Hannesi um sama leyti og þau fengu sitt. Við þetta yrðu menn að sætta sig,—vera ánægðir á meðan orðin: "Mér líður vel," stæðu á spjaldinu. Við betra væri ekki að búast á meðan armlangir óvinir væru viðbúnir að hremma pósttöskurnar, bæði á sjó og landi, og svo bætti hún við: "Eg held þið hafið bæði spurt mig, hví eg hefði ekki skrifað ykkur um komu mína? Því er auðsvarað. Eg er ráðin til hjúkrunarstarfa á Englandi eða í grend við vígsvæðin. Eins og hermennirnir eru hjúkrunarkonurnar skyldar að fara þegar "kallið kemur," eftir að þær hafa verið ráðnar. Því á níunda degi héðan á eg að sigla frá Montreal."

Foreldrar hennar sátu agndofa og störðu á hana, eins og hefðu þau ekki heyrt eða ekki skilið orð hennar. Vék hún þá orðum að því aftur, og bað þau að láta þetta ekki fá á sig. Hún yrði í engri hættu og óttaðist í rauninni öllu fremur, að hún fengi aldrei að fara lengra en til Englands, en mikið langaði sig til að koma "yfir sundið."

Alt í einu vatt hún svo talinu að Brennigerðisfólkinu, um líðan þess og hvert Palli væri farinn til námsins. Já, Palli var nýfarinn. Jakob hafði lagst hastarlega í september, og um tíma verið hætt kominn,—fengið snert af lungnabólgu. Því hafði Palli dregið að fara þangað til faðir hans var úr allri hættu. Nú væri þar piltur í vinnumensku og gegndi öllum útiverkum. Jakob var óðum að ná sér, enda gat hann nú verið áhyggjulaus og haldið sig inni að mestu. Sigurborg var sami fullhuginn og áður, hress og glöð á hverju sem gekk, og altaf á ferð og flugi.

"Eg ætla að skreppa þangað í fyrramálið, til þess að heilsa þeim, og—kveðja þau," sagði þá Sigríður. Foreldrar hennar tóku vel í það, sögðu að Sigurborgu að minsta kosti mundi þykja vænt um að sjá hana. "Hafið þið sézt síðan eg fór að heiman?" spurði Sigríður, og kvað móðir hennar já við því, sagði að faðir hennar og hún hefðu verið þar af og til á meðan óráð var á Jakobi og vaka þurfti yfir honum.

"Það var ykkur líkast," sagði Sigríður og kysti þau.

Morguninn eftir varð Sigurborg í Brennigerði meir en lítið hissa, þegar Sigríður á Landi gekk óboðin inn í eldhúsið. "Eg hefi gam-

an af að koma fólki á óvart," sagði hún eftir að þær höfðu heilsast. "Eg vona þú takir ekki illa upp þó eg geri mig svona heimakomna?"

"Illa upp!" svaraði Sigurborg. "Nei, eg get varla tekið það illa upp að bjartur og blessunarríkur morgun færir mér svo velkominn gest."

Vék þá talinu að Hannesi, að veikindum Jakobs, og að lyktum að ákveðnum störfum Sigríðar fyrir handan haf. Það þótti Sigurborgu mikil frétt, leizt vel á, og gat þess að í sporum Sigríðar mundi hún hafa gert slíkt hið sama. "En foreldra þinna vegna," sagði hún, "sakna eg þín. Þeim verður daufleg vistin, held eg, þar sem þú ert eina barnið. Það er alt öðru máli að gegna hér, þar sem við höfum bæði Björgu og Palla svo gott sem heima."

"Eg held þar sé ekkert að óttast," svaraði Sigríður. "Þeim kom það hálf illa fyrir í svipinn, en hafa nú áttað sig og eru nú meira að segja áfram um að leggja ögn af mörkum. . . . En hvernig líður Jakobi? Gæti eg fengið að heilsa honum."

"Auðvitað," svaraði Sigurborg hiklaust. "Eg ætla að líta inn til hans og vita hvort hann er klæddur." Gekk hún þá inn úr eldhúsinu, en kom að vörmu spori og sagði Jakob klæddan og kominn fram í setu-stofuna.

Gekk Sigríður þá inn til hans, en hann reis upp úr þægindastólnum, heilsaði henni kurteislega en gleðilátalaust og bað hana sitja. En svo hafði hann hagað sætinu, að andlit hennar vissi móti glugganum, en hann hafði gluggan til hálfs að baki sér.

Hún hóf samtalið með því að láta í ljós gleði sína yfir vaxandi styrkleik hans, eftir svo þunga legu. Barst þá talið að einu og öðru, en brátt beindi hún því til Hannesar, að hún hefði oft heyrt frá honum, en illa hefðu sér brugðist vonir um að sjá hann áður en hann lagði af stað austur. "Eg veit," sagði hún og það kom ofurlítill titringur í rödd hennar, "að þér er kunnugt um hvað samdist með okkur, skömmu áður en hann gekk í herinn."

"Þú átt við trúlofun ykkar?" sagði Jakob spyrjandi og svaraði sér svo sjálfur: "Já, mér er það kunnugt, og það líka, að eg tók því máli, ásamt öðrum, á annan veg en rétt var og sanngjarnt."

"Má eg þá álíta að þú lítir nokkuð öðru vísi á það mál nú?" spurði Sigríður.

"Ef þú vildir vera svo góð, þá gerðir þú mér stóran greiða, Sigríður mín!" svaraði Jakob.

"Guði sé lof! Nú get eg glatt Hannes með góðum fréttum." Hún spratt úr sæti sínu, lagði hendur um háls honum og kysti hann. Svo settist hún niður, horfði augnablik út um gluggann, leit svo til Jakobs og sagði: "Mig langar svo til að biðja þig bónar, en veit ekki hvernig eg á að byrja."

"Það gerir engan mun, hvernig þú byrjar," svaraði hann. "Láttu mig heyra."

"Eg ætla þá að byrja á því," sagði hún, "að eg er á förum til

Englands, og um slóðir áþekkar þeim, er Hannes hefir troðið á undan mér."

"Hvað! hvað! Ert þú líka að fara í það jarðneska . . . . víti? Hvaða erindi á kvenfólk í þau djöflabæli?"

Jakob hafði sprottið á fætur í ákafri geðshræringu og gekk um gólf á meðan hann var að stilla sig og hlusta á útskýringar hennar: "Já, já!" sagði hann, "eg hafði ekki athugað þessa hliðina, en sé nú að tilgangurinn er góður og göfugur,—verkið nauðsynlegt. En góða mín, er það virkilega rétt, er það sanngjarnt fyrir þig, að yfirgefa foreldra þína, sem hnigin eru að aldri og einmana?"

"Guð launi þér þessi orð," svaraði Sigríður og tár stukku fram í augu hennar. "Bónin, sem eg mintist á, er einmitt í þessu sambandi. Ef einhver ráð væru til að endurnýja gömul vináttubönd á milli míns heimilis og ykkar, veit eg að foreldrar mínir yrðu ekki einmana lengur, og þá legði eg af stað hughraustari en annars."

Jakob stóð seinlega á fætur, tók um hendur hennar og sagði: "Vel gerir þú, Sigríður mín, að vekja máls á þessu." Hann gekk um stund þegjandi um gólf, nam svo staðar frammi fyrir henni, hvesti augun á hana og sagði: "Það var mitt að byrja, því orsökin var hjá mér. En nú hefir þú leyst mig af hólmi, hefir sýnt mér greiða og góða slóð, en sem eg hafði ekki séð áður, og þú hefir með framkomu þinni í þessu máli sýnt mér og sannað hvílíkt kvennval þú ert. Það met eg og þakka guði fyrir."

"Jæja, Sigríður mín,—dóttir mín, leyfi eg mér að segja. Í dag fer eg ekki lengra út í þetta, en ef guð lofar komum við Sigurborg mín til að heimsækja ykkur á morgun."

— — Næsta dag litlu eftir hádegi komu Brennigerðis-hjónin og var fagnað eins og óvæntum, en kærkomnum gestum. Um það þýðir ekki að fjölyrða, en innan hálfrar stundar var full sætt fengin, en sundurþykkja öll strikuð út úr samvizku-reikningi þ e i r r a Sveins og Jakobs, sundurþykkja, sem bygð var á misskilningi einum og bráðræði. En mál sitt endaði Jakob á þessa leið:

"Þegar neyðin kendi mér að halda mig við ofninn, dag eftir dag, fór eg meðal annars smámsaman að finna til þess, hve fávíslegt var, jafnvel afkáralegt, að fæð skyldi vera okkar á milli, einkum þar sem við vonum að börn okkar tengist hjúskaparböndum. Eg vissi þá ekki, og ekki fyrr en í dag, hve hjálpleg þið reyndust okkur, þegar eg byltist rænulaus í fletinu. En þar var önnur ástæða. En mig skorti vit, ef til vill þrek, til að vekja máls á þessu. Við þetta sat þangað til í gær, að dóttir ykkar var svo góð að heimsækja mig, að herja á híðbjörninn geðilla og grimma. Með ástúðlegri blíðu og nærgætni sýndi hún mér margan sannleik, sem eg hafði ekki fest auga á fyr. Mér sýnist nú að menn geti verið góðir vinir, þó hvor um sig hafi sína sérstöku skoðun, á einu eða öðru. Með komu sinni í gær sýndi Sigríður

mér, að til þess þarf ekki annað en umburðarlyndi. Eins og alt of margir Íslendingar á eg helzt til lítið af því efni, en víst hefi eg ásett mér að hagnýta framvegis svo vel sem verður, það litla sem til er.” — —

— — Tveimur dögum síðar fylgdu bæði hjónin Sigríði á vagnstöðina. Og á pallinum stóðu þau þögul og mændu á eftir lestinni, sem bar hana burt, þangð til hún hvarf fyrir sveig á brautinni. Þá sneru þau baki að járnbrautinni án þess að mæla og gengu til hesta sinna. Jakob varð fyrstur til að rjúfa þögnina. Hann sneri sér til Sveins og Önnu, þegar þau voru að stíga upp í vagninn, og sagði:

“Nú hefi eg þá bón að bera fram, sem þið megið ekki neita, en hún er sú, að þið komið heim með okkur Sigurborgu, og tefjið sem lengst þið megið. Á morgun gjöldum við ykkur svo í sömu mynt.”

* * *

Það voru komin jafndægur haustið 1918 og fult ár liðið síðan Hannes fyrst hafði stígið fæti á “fyrirheitna landið.” Það var í glaða sólskini síðdegis tuttugasta september 1917, að hann leit þetta kaunum hlaðna land, þessar sundurtættu sveitir í fyrsta sinn, og honum hafði blöskrað eyðileggingin og bölið, sem henni fylgdu. Stór og prýðileg kauptún fyrir fjórum árum voru nú bara svört og sviðin bruna-flög, hér hálf-brunninn veggur, á hinum staðnum hékk hluti af þekjunni á hálfbrunnum stoðum og víða ekkert nema öskuhrúga þar sem áður stóðu reisuleg heimili. Þar sem áður voru belti af föngulegum, laufgrænum skógartrjám, voru nú bara brotnir og sviðnir staurar og stofnar. Jörðin sjálf var öll viðbjóðslega bólugrafin, — víðar og djúpar hvosir, líkastar hálfgerðum kjallara-flæmum, þar sem sprengikúlna regnið hafði komið þéttast niður.

Sem sagt var nú liðið fult ár frá því Hannes kom á þessar stöðvar, og á þeim tólf mánaða tíma hafði hann bara einu sinni fengið svigrúm til að bregða sér yfir til Englands, þar sem þeim álögum var þó létt af um stund, að þurfa að hlusta á eilífa herbresti og stórskota dynki. Reyndar var hann nú orðinn svo vanur þeim banvæna glumrugangi og grimdaræðinu, sem þar bjó á bak við, að hann langaði ekki til Englands af því, að þar gæti hann notið kyrðar og verið tiltölulega óhultur. Langt frá því. Það, sem dró hug hans þangað var sú von, að þar kynni hann að fá einhverja vitneskju um, hvar heitmey hans væri niðurkomin, og meira að segja, máske að sjá hana og tala við hana, þó hann gerði sér að skyldu að bæla niður svo glæsilega von, jafnharðan og hún gægðist fram í huga hans. Ætti hann að koma nokkru til leiðar þurfti hann vikufrí að minsta kosti, en svo var annríkið mikið, orustur stærri og smærri svo látlausar, að á heilu ári fékk hann lengst fjögra daga frí og þó hann þá gerði alvarlega tilraun að leita, reyndist tíminn ónógur. Hann kom úr Englandsförinni jafnfróður og hann fór.

Þangað til nú hafði hann æfinlega fengið bréf á mánaðarfresti og stundum oftar, en að undanteknu fyrsta bréfinu, sem hún ritaði á sjóferðinni, og sem færði honum svo óvæntar gleðifregnir að heiman,—að því undanteknu færðu bréf hennar honum litlar upplýsingar aðrar en þær, að hún væri á Englandi, að henni liði ágætlega, og að hún hefði helzt meira að gera en hún kæmist yfir. En nú voru liðnar sem næst sex vikur án þess að bréf kæmi frá henni, og hafði hann þó í millitíð fengið bréf að heiman. Þetta olli honum óróa. Þegar einn dagur leið svo á fætur öðrum, að ekkert kom skeytið, þá var ekki undravert þó grillur ýmsar brytust fram í huga hans, einkum á tómstundum. Það var svo margt sem gat komið fyrir,—slys, sjúkdómur, dauði, nei, nei, nei, ekki það, og þá var eins og hann heyrði rödd móður sinnar, er hann svo oft hafði heyrt á bernskudögum sínum. "Festu hug og augu æfinlega við björtu hliðina, Hanni minn, og gleymdu því aldrei að guð er kærleikur og því sigrar hið góða." Og minningin um þessi orð móður hans færðu honum æfinlega endurnýjaðan þrótt, og trú á réttmæti orðanna. En samt steyptust samskonar éljaköst efasemdanna yfir hann, aftur og aftur. Hann gat ekki að því gert.

Áður en fylking hans fór "yfirum" frá Englandi, var Hannes Sergeant Major, eða yfirkennari og eftirlitsmaður, og fylgdi þeirri stig-hækkun auðvitað nýjar skyldur og ábyrgð. Meðal annars var hann þá sjálfsagður að taka við forystu, ef lautenant hans sýktist, eða særðist svo í orustu, að óvígur yrði. Og þetta gerðist áður en Hannes hafði verið viku á vígsvæði.

Litlu fyrir hádegi hafði stórskotalið Þjóðverja tekið að senda látlausa kúlnahríð niður á reitinn framundan liði Hannesar og á löngu svæði til beggja handa. Eftir stundar langa dembu höfðu þeir kubbað sundur flestar gaddavírsflækjur Bandamanna, og var þá vegurinn fær yfir banareitinn þveran, þó ekki væri hann greiður. Að vörmu spori stukku Þjóðverjar þá upp úr víggröfum sínum og komu á harðahlaupum. Bandamenn hlupu jafnsnemma upp úr sínum gryfjum og fóru jafngeist til móts við hina. Mættust þessi tvö öfl á miðjum reitnum og þar féll lautenant Hannesar óvígur, en kallaði til Hannesar, er var nærstaddur, að taka nú við af sér og reka dónana heim aftur. "Lautenant Jakobsson," sagði hann, "þú ert sverðlaus. Hér er mitt," og hann slöngvaði því að fótum Hannesar, sem greip það, veifaði því yfir höfði sér og bað pilta sína að sýna nú hvað þeir ættu til. Þeir gerðu það líka, og það drengilega, því innan fárra mínútna var bardaginn um garð genginn, og Þjóðverjar komnir í felur, en á þeim reit sem Hannes réði yfir skildu þeir eftir fjóra menn örenda, átta særða og sex herteknar, sem þar voru afvopnaðir og síðan reknir eins og sauðskepnur heim til herbúða. Þannig endaði fyrsti bardaginn undir

forystu Hannesar og fékk hann hrós fyrir.....

.... Á síðastliðnum vikutíma hafði Hannes enga hvíld fengið og ekki svefn nema á hlaupum,—augnabliks blund í senn. Þegar ekki var að verjast látlitlum áráss-um Þjóðverja, þá var að snúa blaðinu við,—að heimsækja féndur sína og smámjaka þeim norðaustur á bóginn. En auk þessara heimaverka, ef svo má að orði komast, komu sífeld hróp um liðveizlu frá grönnum þeirra til beggja handa og þeim liðsbónum mátti ekki neita, á meðan nokkur var ferðafær. Við þetta hafði Hannes verið að berjast í fulla sjö sólarhringa, að heita mátti uppihaldslaust, þangað til í dögun um morguninn, að eitthvert vald alt í einu þaggaði niður í byssunum. Alt datt í dúnalogn á svipstundu og sjálfsagt af því, að allir, vinir og óvinir, voru vitaúttaugaðir og komust ekki lengra hvíldarlaust.

Hraustur og þolinn eins og hann var, var Hannes þá svo þreyttur að hann kastaði sér alklæddum upp í fletið og valt út af steinsofandi á koddann. Þegar hann vaknaði var komið undir hádegi og spratt hann upp í flýti og gekk út, en alt var kyrt í grendinni. Þá frétti hann að fylkingu hans var ætluð tveggja daga hvíld, ef ekkert óvænt kæmi fyrir. Lagði hann sig þá fyrir aftur, en gat ekki sofnað fyrir þrálátri umhugsun um Sigríði og óvissuna um líðan hennar. Hann vissi hve gagnslaust það grufl var, og til þess að slíta sig frá því, setti hann sér fyrir að líta í svip yfir liðna árið.

Þeir voru svipmiklir drættirnir flestir, sem brá fyrir sjón hans, þegar hann leit inn á land endurminninganna, og sumir grófgerðari en svo, að hann langaði til að sjá þá oftar en einu sinni. Sumar myndirnar aftur, hafði hann gaman af að athuga, einkum þær frá fyrstu mánuðunum, á meðan alt var nýstárlegt og undravert fyrir augum hans. Honum var nautn í að íhuga kænskubrögð og hrekki sem beitt var til þess að villa óvinunum sjónir, — að ginna þá til að rýra mótstöðuafl sitt þar sem atlaga var fyrirhuguð, en auka það þar sem ekkert átti að gera. Skömmu eftir að Hannes tók við lautenantsstöðu, tók hann í fyrsta sinn þátt í einum þeim missýningaleik. Bretar söfnuðu aukaliði á reitinn þar sem brezku og frönsku hersveitirnar komu saman. Að þessu komust Þjóðverjar og söfnuðu líka liði til varnar. Á tilsettum tíma brutust Frakkar fram, á sínum reit, og ruddu öll vígin þýzku, og náðu því takmarki, er þeir höfðu ætlað sér. Þar tókst Hannesi að bjarga einangruðum hóp franskra hermanna úr lífsháska og var veittur "stríðskrossinn" franski til menja um þann atburð.....

..... Það var dynjandi rigning, er haldist hafði uppstyttu lítið í meir en sólarhring. Jörðin öll var vatnsósa, tjarnarpollar í öllum lautum og víggrafirnar ill-færaurleðju díki. Í þessu veðri og færi lagði Hannes upp með tutt-

ugu valda menn, litlu eftir miðnætti, í því skyni að heimsækja Þjóðverja og launa þeim sem mætti fyrir óþarfa ástundunarsemi og viðleitni að vinna Canadamönnum mein. Slysalaust komust þeir yfir banareitinn og niður í gryfjurnar. Bardagi varð þar harður, en endasleppur. Þaðan höfðu þeir með sér átta menn hertekna og sex særða.

Hannes gekk síðastur heimleiðis, fór hægt og leit eftir að enginn sjúkur eða særður yrði skilinn eftir. Þegar hann var kominn heim undir sínar víggrafir féll sprengikúla til jarðar fá skref fyrir aftan hann og gróf sig í jörðina með ægilegum gný og varpaði stóreflis hlassi af hráblautri mold og leir hátt í loft, en það féll óðara niður aftur, ofan yfir og umhverfis Hannes. Honum varð ekki bylt við,—var þessu of vanur til þess, en fór strax að brjótast út úr haugnum og halda áfram. En nú varð honum seingengt, því bæði var það, að höggið, sem þessi óþrifa dyngja greiddi honum, var nóg til að rota veigaminni mann, og hitt, að aurleðjan hékk í þykkum lögum utan á klæðum hans. Loks komst hann þó á móts við varðmann, sem í dimmunni gat ekki greint hver eða hvað þar var á ferð, og snaraði því byssu sinni í mið um leið og hann spurði: "Hver er þar?"

"Leir-kökkur!" svaraði Hannes og hélt áfram göngunni, fullviss þess að vörðurinn þekti málróm sinn. Umsvifalaust kom líka svar varðarins:

"Far ferða þinna, Leir-kökkur!"

Við þetta og þvílíkt reik hugsana sinna komst Hannes nú, eins og oft áður, að þeirri niðurstöðu, að ætti nokkur flokkur manna hrós skilið fyrir störf sín þar, þá væru það ekki hermennirnir, heldur brautryðjendurnir, starfsmennirnir, sem á öllum stundum dags og nætur voru viðbúnir að ganga út í "elds og kúlnahríð" til þess að rista nýjar víggrafir, gera við gamlar, eða hrofa upp bráðabyrgðar hlíf ofanjarðar. Á hermennina kæmi eitthvert fát, í líkingu við berserksgang, þegar gengið væri til orustu, og undir þeim áhrifum væru þeir á meðan hríðin stæði yfir. Þeir mundu ekki eftir nokkurri hættu og vissu varla hvar þeir voru, eða hvað gerðist. Brauta- og ristumennirnir voru sviftir öllum þesskyns örvandi áhrifum. Þeirra var að moka og grafa, á hverju sem gengi, með urrandi, geltandi hríðskotum í hundraðatali alt í kring, með loftið yfir höfði þeirra þrungið af eldspýju úr þúsund byssukjöftum fjær og nær, og kúlur á flugi fram og aftur, með hvellum og drunum svo að alt virtist leika á reiðiskjálfi. Í þessum tröllaslögum áttu þeir engan þátt. Þeirra var bara að moka, sem aftók, eða telgja brýr yfir gjótur og víggrafninga, og að líta ekki einu sinni upp þegar einhver þeirra hneig að velli fyrir "óskyta ör," og var borinn burtu lemstraður eða látinn.

Þegar hér kom hugleiðingum hans sótti á hann svefn, en áður en hann gæti sofnað, varð hann á svipstundu glaðvakandi, er hann heyrði sagt: "Böggull og tvö bréf til laut. Jakobson!" Böggullinn og annað bréfið voru að heiman, hitt frá Sigríði. Bréf móður sinnar opnaði hann fyrst, leit yfir það í flýti og er hann sá að alt gekk vel heima, lagði hann það til hliðar, en opnaði langþráða bréfið frá unnustunni. Bréf hennar var venjufremur fréttaríkt. Hún sagði nákvæmlega frá viðleitni sinni, frá fyrstu, að komast á vígsvæða-spítala, og að nú fyrir tveimur dögum væri hún komin á sjúkrahús í grend við Arras. Hún vissi ekki hvar hann var, en hafði hugmynd um að hans fylking væri skamt frá Valenciennes, og þangað vonaðist hún að komast með tíð og tíma. Bréfið endaði hún með spurningu, sem hann hafði ekki áður gefið gaum: "Hvað segja ykkar menn um stríðslok? Hvar sem eg hefi farið hefir álitið verið það, að þau sé fyrir hendi."

Hér voru fréttir, sem frétir gætu heitið. Hér sá hann að með dásamlegri staðfestu og ástundun hafði Sigríður í marga mánuði beitt öllum brögðum til þess að komast fram að vígsvæðunum og sem næst þeim reit, sem hann stóð á og bera þar með honum þá byrði, sem svo mörgum varð ofraun. En sjálfur hafði hann sýnt þá lítilmensku að víla og kvarta og gera sér grillur, sem hann sá nú að einvörðungu voru grundvallaðar á ímyndun og þróttleysi, hvorttveggja ósamboðið karlmanneðli. En svo vissi hann auðvitað ekkert um allar hennar andvökustundir, þegar hjartað brann í brjósti hennar af ótta og kvíða,—ekkert um þá stjórnlausu hræðslu sem greip hana, þegar hún vaknaði af draumi, sem sýndi henni ástvininn liggja blæðandi og ósjálfbjarga langt frá allri mannlegri hjálp. Og nú var hún nærri k o m i n! Bara örfáar, stuttar mílur skildu á milli. Hann skyldi bregða sér á fund við hana næsta dag, sjá hana og tala við hana í fyrsta sinn eftir hálft annað ár. Það var óumræðileg gleði, að eiga þess von innan sólarhrings. Áður en kvöldið liði, skyldi hann færa þetta í tal við kaftein sinn, fullviss þess að hann mundi ekki andmæla.

En annað varð nú upp á teningnum, þegar til kom. Hervöldin æðri höfðu þennan sama dag ákveðið að fylking Hannesar, auk annara, skyldi þá um kvöldið taka sig upp og flytja búferlum á annan reit og nokkru fjær þeim stað, en hugsjón Hannesar sá einn þess virði, að festa hug og auga á.

—Einu sinni enn var Hannes sviftur helmingi ákveðins hvíldartíma, en til þess fann hann ekki, hvorki áður eða núna, því eftir eins dags hvíld og væran svefn vildi hann miklu heldur halda áfram fyrirsettu verki en vera aðgerðarlaus. En hví þurfti nú þessa breytingu endilega að bera að höndum sama daginn og honum var gefið tækifæri að heimsækja heitmey sína? Því gat hann

auðvitað ekki svarað, en af reynslunni vissi hann, að engar slíkar snögg-sveiflur voru gerðar án þess að gildar og góðar ástæður væru til. Þreytandi var það auðvitað að þurfa að taka sig upp einmitt á þessari stund, en hugfró var fólgin í því, og hún mikil, að vita heitmey sína svona nærri, hrausta og vonglaða. . . . . .

Það var nær aldimt að kvöldi þess tíunda nóvember, þegar Þjóðverjar alt í einu linuðu á sókninni, og það svo, að logn mátt heita í samanburði við æðandi storm. Fylking Hannesar bjó þá í víggröfum óvinanna, fáar mílur frá Mons, höfðu haldið sér þar í tvo eða þrjá daga, síðan þeir hrundu Þjóðverjum út þaðan. Og síðan höfðu Canadamenn staðið í nær uppihaldslausri orustu og aldrei harðari eða grimmilegar sóttri en í dag. Hermenn beggja flokka virtust verða fegnir stundarfrið, þó ekki væri til annars en að binda um "skinnsprettur" og "rispur," sem blæddu óþægilega ef ekki var um bundið, þó þau smásár í sjálfu sér gerðu engum mein, eða hindruðu stríðs-iðju.

Það lá í loftinu, og ríkti í hugskoti hermanna, líklega jafnt meðal óvina sem vina, að eitthvað sérstakt væri í gerð. Og það var eðlileg tilfinning, því að frá upphafi stríðsins höfðu æðstu herdrottnar hlutaðeigandi þjóða aldrei komið saman á sameiginlegum fundi, fyrri en í dag. Einhverja þýðingu hlaut sá stórmenna fundur að hafa, en hver kunni að þýða? Hver kann að ráða ósagða gátu?

Allir vonuðu og óskuðu eftir stríðslokum og friði, en fáir voguðu að flíka þeim vonum og eftirlöngunum.

Það skorti eina stund til miðnættis þegar sú hátíðlega skipun var send öllum hersveitum, að stundvíst klukkan ellefu á ellefta degi nóvember mánaðar, 1918, skyldi stríð þetta taka enda. Frá þeirri stund hefði enginn hermaður heimild til að bera annan banaspjóti.

Fögnuður hermanna yfirgnæfði allar aðrar tilfinningar, en lítt mátti það merkja, því að venjuleg fagnaðarlæti voru bönnuð. Stríðið stóð enn yfir,—í tólf stundir til, og enginn þorði að treysta því, að stríðsþreytan mætti meir en hefnigirni. Þegar lýsa tók af degi smá-hertu Þjóðverjar skothríðina og guldu Canadamenn líku líkt. Með vaxandi dagsbirtu harðnaði sóknin, og sóttu Canadamenn nú sérlega fast fram. Þeir höfðu fyrir löngu tekið þorpið Mons af Þjóðverjum, en neyðst til að flýja þaðan litlu síðar. Nú hugðu þeir að enda sína sókn með því að taka Mons í annað sinn, og þeim tókst það. Þorpið var algerlega á þeirra valdi löngu áður en klukkan varð ellefu og stríðið endaði.

Í þessari hríð særðist Hannes, ekki skaðlega, en þó svo, að um stund var hann ekki sjálffær. Það var myrkt orðið af nótt þegar hann var borinn inn í sjúkrahús í grend við hans gömlu herbúðir. Þar féll hann í fastan svefn og vaknaði ekki fyr en kom-

inn var bjartur dagur morguninn eftir,—fyrsta virkilega friðardaginn í Norðurálfu, eftir hálft fimta ár af ófriði.

Hann tók eftir því strax í svefnrofunum, að dynjandi sviða-verkur var í öllum líkamanum, og þá fór hann að muna hvað gerst hafði deginum áður, og þá áttaði hann sig líka á því, að sár hans voru ekki skaðleg,—bara "skinnsprettur," en nógu stórar líklega, sumar, til þess að halda honum við rúmið nokkra daga. Um þetta og um þessa snöggu breytingu frá ófriði til friðar var hann að hugsa, vart alvaknaður enn og með augun aftur, þegar hann heyrði svo undur hljómþýða rödd yfir höfði sér:

"Hér sjáumst við þá loksins, Hannes minn!"

Hann opnaði augun, vék sér til á koddanum og sá þá hvar Sigríður kom fyrir höfðagaflinn á rúminu og staðnæmdist við kodda hans. Eftir hálft annað ár eða meir, leit hann nú ástmey sína í fyrsta sinn og aldrei fanst honum hann hafa séð hana jafn dýrlega fagra eins og á þessu augnabliki. Varir hennar brostu svo blíðlega og gleði hjartans speglaði sig í augum hennar, en rósroða hríslur vöfðu sig um vangana hennar hvítu og mjúku.

"Sigga mín! Sigga mín elskuleg!" sagði Hannes og reisti sig upp á olnboga, og meiddi sig þá svo, að hann beit á jaxlinn, til þess að reka ekki upp hljóð. "Guði sé lof fyrir þetta augnablik. Þú hefir frá upphafi verið mín dýrmætasta guðsgjöf, en aldrei eins dýrmæt eins og núna. Þú ert lífgjafi minn og ljósgjafi. Komdu ögn nær mér, hjartans bezta," og hann tók um handlegg hennar með hægri hendinni, sem heil var að mestu.

"Sussu, sussu!" svaraði hún blíðlega og roðinn færðist nú yfir alla vangana og niður á háls. "Eg get það ekki, hjartans vinur minn! Biddu mig ekki um það núna! Sérðu ekki augun, sem blína á okkur úr öllum áttum?"

"Víst sé eg þau," svaraði hann, —"en hvað um það? Mér er sama hvað mörg augu glápa á okkur. . . . . .Nei, nei reyndu ekki að slíta þig frá mér, elsku hjartað! Þú veizt að eg sleppi engu að óþörfu, sem eg næ haldi á, og þér sleppi eg ekki aftur, og gef þér ekki augnabliks lausn fyrri en þú bænheyrir mig og blessar."

* * *

Það var komið fram undir miðjan desember, dagarnir óðum að styttast og veðrið að kólna dag frá degi. Og daufheyrður hefði sá verið, sem þá hefði ekki getað greint "fótatak" vetrar "norður í geim," því svo nærri var nú Frosti hinn kaldráði, að hrollur fór um flesta, af gustinum, sem af honum stóð. En jafnvíst er þó samt, að meðal kanadisku hermannanna, sem í þúsund tugatali biðu óþreyjufullir á Englandi eftir farrými heim, var ekki einn einasti, sem ekki hefði í allri alvöru tekið undir með Stephani: "Kom heill og mér velkominn vertu, þú, v e t u r ef blæstu mér heim." Skammdegisdagar og vetrargaddur vega lítið á móti heimþrá þeirra, sem árum saman hafa ver-

ið að tefla við dauðann, í fjarlægu landi. . . . . .

Sólin var komin nær hádegisstað þegar Jón vinnumaður í Brennigerði kom hlaupamóður heim frá pósthúsinu, og steypti stórri syrpu af bréfum og bögglum úr poka sínum á stóra eldhúsborðið. "Hér er úr mörgu að moða," sagði hann, "en þetta hygg eg ykkur þyki vænna um en alt hitt, hjónin góð," og veifaði stóru og þykku bréfi. "Það er þó, svei mér munur á bréfinu því arna og þeim, sem þið hafið átt að venjast. Og annað jafn fyrirferðarmikið færi eg Landshjónunum frá Siggu."

Sigurborg leit á bréfið og færðist bros yfir andlit hennar, er hún sá rithönd Hannesar á umslaginu. Bað hún þá Jakob að vera nú hraðhendan að opna bréfið og lesa upphátt á meðan hún lyki við að búa til miðdagsmatinn. Eftir að hafa tekið blöðin úr brotum, sá Jakob að bréfið var eiginlega mörg bréf saman, í samstæðri heild, það fyrsta dagsett tólfta nóvember og það seinasta þann tuttugasta og fjórða.

Þó ekki hefði verið völ á öðrum sannana-gögnum, þá var þetta efnismikla bréf sýnilegur vottur þess, að stríðið mikla var virkilega á enda kljáð, og þá sjálfkrafa numið úr gildi það þagnar-lögmál, sem svo lengi hafði bannað hermönnum bréfaskriftir, að mestu eða öllu leyti.

Fyrsta bréfið var stutt og bar þess merki að það hafði verið skrifað með hvíldum. Í því fór Hannes mörgum orðum um fögnuð sinn þegar hann vaknaði af værum og endurnærandi svefni og sá festarmey sína blíða og brosandi við rúmstokk sinn. Aftur á móti drap hann bara lauslega á bardagann aðfaranótt stríðslokadagsins, og á sár sín, viðkvæm að vísu, í svip, en skaðlaus alveg, eins og annars öll sár, sem hann hefði áður fengið,—væru í raun réttri rispur og skinnsprettur, fremur en sár, enda byggist hann við að verða heill heilsu innan hálfsmánaðar.

Seinasta bréfið endaði hann á þessa leið:

" . . . Jæja, eftir nær sextán hundruð sólarhringa af látlausum hamförum á landi, á sjó, og í lofti, eru nú sverðin slíðruð, og skot-vopnum varpað í geymslubyrgi. Stormurinn er lægður, og dúnalogn komið. Það er ótrúleg veðrabreyting á svo stuttri stund og sumum finst hún um of. En mér finst kyrðin og friðurinn dýrmætari gjöf heiminum, en alt annað. En verður friðurinn varanlegur? Stöku menn trúa því staðfastlega og allir vona það. En skýlaust svar getur framtíðin ein gefið. Það er hennar að segja hvort stjórna skuli heiminum framvegis: hernaðarspeki eða lögspeki.

Því miður get eg ekki neitt ákveðið sagt um heimkomu okkar Sigríðar, en allra bragða leita eg til þess að komast af stað sem fyrst má verða, og hefi þegar lagt drög til þess. En hér eru nú sjálfsagt meir en sextíu-þúsundir kanadiskra hermanna og allir vilja verða fyrstir, auðvitað. Á morgun förum við alfarin af Frakklandi

og eftir að til London er komið get eg fyrst alvarlega lagt stund á heimferðarmálið. Í þessu sambandi vil eg þá geta þess að heitmey mín hefir lofað að giftast mér daginn sem við göngum á skip til heimferðar, með þeim skilningi að brúðkaupsgildi okkar skuli fólgið í fagnaði okkar yfir heimkomu til ættmenna og vina. Læt eg ykkur svo geta til hvort eg muni eða muni ekki gera mitt til að brottfarar-dagur okkar rísi sem fyrst yfir hafið.

"Um mig sjálfan skal eg vera fáorður. Í samanburði við þann fjölda annara sem frægðarverk hafa unnið, eru mín störf tilkomulítil, en tilkynt hefir mér verið, að herstjórn Breta ætli mér minnispening fyrir ágætis þjónustu, og stríðskrossinn franska fékk eg fyrir tilviljun, fremur en hreystibragð. Sjálfum finst mér það helzt frásagnarvert, af minni þátttöku í þessum svaðalega skollaleik, að eg hafi einhvernveginn verið svo lánsamur að særast aldrei svo, að bein eða taugar biðu skaða af. Stundum "skall hurð nærri hælum," en ætíð þegar svo bar til, var eins og eitthvert ósýnilegt afl bægði svo byssuhlaupi eða höggvopni til hliðar, að eg stóð óskemdur, eða sama sem. Eg trúði þá og eg trúi enn, að trúarafl og bænir móður minnar, og unnustu, hafi á einn veg eða annan útvegað mér þá hulins-hlíf, sem bjargaði lífi og limum á öllum hættu stundum. . . ."

Fáum dögum síðar fengu bæði Brennigerðis- og Lands-hjónin svohljóðandi símskeyti frá þeim Hannesi og Sigríði, er þá voru komin vestur yfir hafið til Halifax:

"Hingað komin frísk og fagnandi. Við sitjum jólin heima."



# Amundsen

Norræni örninn
Í norður skygndist,
Er rann hinn langi
Ljósi dagur.
—Lýsti um ís-breiður
Endalausar
Og hrjúfar hrannir
Sem há-fjöll væru.

Hreyfðist sem fyr
Í hugar-djúpi,
Þráin eilíf
Og ó-slökkvandi:
Flug að hefja
Um höfin yztu,
Því ó-numin lönd
Myndu enn í fjarska.

Hreyfðist sem fyr
Í hugar-djúpi,
Dirfska og vit
Er voga skyldi.
En örninn eldist—
Og áður flaug
Harð-sóttar ferðir
Um heim-skaut tvenn.

Eldist örninn
Að ytri sýn.
Fundið er jafnvægi
Fjörs og krafta.
En andinn finnur
Engu að síður,
Örvandi návist
Hins nóttlausa dags.

Eldist örninn
Að ytri sýn.—
Hrukkótt er brún
Og hvasst er auga.—
En andinn skygnist
Enn sem fyr,
Eftir voldugu
Viðfangs-efni.

—Bregður þá fyrir
úr fjarlægð sýn:
Sendist gaukur einn
Frá suður-heimum.

Hyggst muni kanna
Heim-skaut ið nyrðra,
Og fýsilegt eignast
Frægðar orð.

En örninn kennir
Óvit hans.—
Flugu þeir ásamt
Áður fyrri.
—Ókyrrist þó
Er allur heimur
Veit að hinn suðræni
Sigldi í strand.

Ókyrrist mjög
Er allur heimur
Veit hina dæmdu
Í dauðans greipum.
—Hafði hann sjálfur
Horft í augu
Hels og hungurs
Í hafíss voða.

Hafði hann einnig
Horft í augu
Þrekleysi gauksins
Geigvænlegu.
—Myndi hann geta
Gleymt þeim skap-bresti,
Og munað einungis
Mannlega neyð?

Myndi hann geta
Munað djúprætta
Norræna drenglund
Og norrænt eðli?
—Var hér ei voldugt
Viðfangs-efni,
Samboðið hetjum
Horfins tíma?

Samboðið hetjum
Seinni tíma,
Með varmar vonir
Og voldug tæki?
Samboðið anda
Er segul-skaut
Æðra heims
Myndi óðum nálgast?

— — —

Norræni örninn
Í norður flaug!
Mundi hann aðeins
Mannúðina!
—Þögult er norðrið,
Þó norræn hjörtu
Spyrji upp-heims ljósin
Um afdrif hans!

Þögult er norðrið,—
—En norrænn hugur
Veit það samboðið
Sæ-konungi,
Krýndum þöglri tign
Þreks og göfgi.—
Heimur vor enga
Æðri veitir.

31. Desember 1928.

*Jakobína Johnson.*



# Á vordegi

Sí-glaði sunnan-blær og sól-gylta haf,
Ljúfar eru vonirnar, sem vor-morgun gaf.

Segið mér að sunnan—eg sízt fæ skilið í—
Hví er ætíð ógnandi, út við hafs-brún ský?

Þýtur blær í blöðum, breytast skýja-drög.
—Dökkir líða skuggar yfir skóginn og lög.

Vind-sog í skógi — — og skruggur — og skúr!
—Smáfuglarnir leynast bað við lim-garð og múr.

Þrumu-gnýr í fjarlægð—þrungið andartak.
—Strjálir dropar detta, sem dúfur stígi' á þak.

Rofar fyrir röðli og regnbogi skín.—
Dularfulla, dásama, dýrðlega sýn!

Sí-glaði sunnan-blær og sól-gylta haf,
Huggið þá sem hreggviðrið harms-efni gaf!

*Jakobína Johnson.*

# Barnamorðingjar

Eftir *Stgr. lækni Matthíasson.*

Af öllu, sem eg hefi lesið og lært um dagana, man eg ekkert, sem álíka hefir hrifið og snert viðkvæma strengi huga míns og hjarta, eins og ýmsar frásögur biblíunnar þegar eg var barn. Mikið var það að þakka því, að faðir minn sagði mér margar þær sögur áður en eg var læs, meðan barnssál mín var meðtækilegust; og hann sagði þær vel; en síðan festust áhrifin enn betur í huga mér, þegar eg sjálfur lærði biblíusögurnar seinna.

Stór og háfögur þótti mér hugsjón Gyðinga (eða öllu heldur spámanna þeirra) að vera og vilja ætíð verða guðs útvalda þjóð, sem ætlað væri að vinna undir sig allan heim og allar þjóðir, þar til að síðustu yrði aðeins ein þjóð og einn hirðir. Og mikið varð dálæti mitt á hetjum Gamlatestamentisins—þar vantaði heldur ekki bardagana.—Þeir Móses og Jósúa, Samson og Davíð voru mitt mesta uppáhald og af spámönnunum Esajas.

Gaman var að fylgjast með Mósesi, þegar hann sló á klettinn og þegar hann leiddi Gyðingana yfir hafið rauða og tilkomumikið var að fylla flokk Jósúa þegar hann lét sólina standa kyrra, og blés niður borgarmúrana í Jeríkó eins og spilaborgir.

Oft samgladdist eg Gyðingum, hve drottinn gat verið þeim notalega hlyntur við viss tækifæri, eins og t. d. þegar hann lét þá sleppa alveg óskemda meðan plágurnar dundu yfir ræfilsgreyin Egyptana.

Mér fanst það þá, eins og mér reyndar finst stundum enn, að eftir öllu réttsýni ættu sjúkdómar aðeins að koma niður á þeim einum, sem hefðu til þeirra unnið, svo að þeir, a. m. k. sumir, gætu bætt ráð sitt í tíma, en öðrum yrði það til viðvörunar. En eg veit vel, að eg er ekki vel fallinn til að vera heimssiðameistari og skal ekki halda þessari heimspeki minni fram til neinnar streitu. En ógleymanlega grimmur og geigvænlegur þótti mér engill dauðans í hvert skifti, sem hann birtist, og ekki sízt þegar hann í umboði drottins gekk hús úr húsi og deyddi Egyptabörnin og sneiddi hjá húsum Gyðinganna. Engillinn gerði að vísu eins og fyrir hann var lagt—það varð svo að vera. En hann Heródes! Það var sá herjans blóðhundur, sem eg hataði af öllum sálarkröftum. Mér fanst hann margfalt verri og hvimleiðari en Júdas og Efialtes og Neró samanlagðir

Eg lærði smásaman, að frá aldaöðli hefir mannkynið, jafnt Gyðingar sem aðrar þjóðir, altaf annað veifið orðið að sæta grimmri meðferð bæði af eigin völdum og vegna harðra örlaga náttúrunnar. En ætíð sveið mér sárast hvað minstu smælingjarnir, ungbörnin urðu að þola.

Sárt tók mér til lóunnar í kvæði

Jónasar, þegar hún flaug heim til unganna og "alla étið hafði þá hrafn fyrir hálfri stundu." En sama sagan endurtók sig þráfalt og enn átakanlegri í mannheimi. Lengi fram eftir öldum tíðkaðist útburður barna í flestum löndum og þótti víst ekkert tiltökumál, þegar um veikluð eða vansköpuð börn var að ræða. En oft mun hinsvegar hafa viljað til, að hin efnilegustu börn sættu þeirri sömu meðferð. Allir þekkja söguna af Rómulus og Remus, Kýrus Persakonungi o. fl. og úr sögum okkar nægir að benda á dæmin um Helgu hina fögru og Finnboga ramma. (Það má vel vera að fleskið, sem var látið í munn Finnboga, hafi bjargað lífi hans).

En hvað var barnaútburðurinn hjá barnafórnunum, sem tíðkuðust hjá sumum þjóðum eins og t. d. í Sýrlandi og Karthagó—þar sem algengt var að aragrúa af ómálga börnum, og stundum eldri, var fórnað á hryllilegasta hátt á blótstalli grimmra goða.

Frá sögunnar morgni og jafnvel fram á vora mannúðarlegri tíma hefir ætíð í styrjöldum endurtekið sig sama grimdaræðið hjá sumum hernaðarvíkingunum, að þeir þyrmdu ekki börnum frekar en þeim, sem eldri voru. Í Landnámu er þess getið um Ölve barnakarl, að hann hlaut viðurnefni sitt fyrir það "að hann henti ekki börn á spjótsoddum eins og þá var víkingum títt." Þau ummæli benda á, að hans dæmi hafi verið sjaldgæf undantekning frá venjunni, enda eru margar sögur úr styrjöldum miðaldanna og jafnvel úr styrjöldinni síðustu, sem segja frá slíkum hrottaskap.

Heimurinn er víða ennþá á gömlu menningarstigi, t. d. kunna landkönnuðir, er hafa ferðast meðal sumra heimskra þjóða í Afríku, að segja frá svipuðum sögum og áður gerðust á víkingatímum forfeðra vorra, en þó bætist þar ofan á ennþá verri meðferð á konum og börnum, sem seld eru mansali, eða t. d. aðfarir sumra villiþjóða, sem fara herferðir í þeim tilgangi aðallega, að afla sér mannakjöts til fæðu, og er þá allra mest sózt eftir barnakjöti. Það þykir bezta krásin.

En sleppum nú Heródesi og öllum illmennum og níðingum, sem myrt hafa ungbörn frá alda öðli. Enn eru þeir barnamorðingjar ótaldir, sem lítið standa hinum að baki. Það eru *sjúkdómar* þeir, er sérstaklega leggjast á börn, eins og t. d. barnaveiki, kíghósti, mislingar, skarlatssótt og barnakólera. Allir þessir sjúkdómar eru lífskæðir veikluðum börnum, en ýmsir fleiri sjúkdómar koma til greina og fylgja gjarnan í fari þessara nefndu sjúkdóma. Þó að börnin lifi af t. d. mislinga og kíghósta er mörgum hætt við að taka nýja sjúkdóma að auki, þegar líkaminn er veiklaður orðinn. Þannig er það algengt, að berklaveiki ríði í garð að þessum barnasjúkdómum undangengnum.

Þegar alment er talað um barna*dauða* í læknaritum, þá er þar átt við dauða ungbarna á fyrsta ári og er hann miðaður við tölu lifandi fæddra barna á því sama ári, þannig, að sagt er að hann sé svo

og svo mikill af hverju þúsundi, t. d. 50 eða 150 eða 260 0/00 eða meira.

Í öllum menningarlöndum eru árlega gefnar út skýrslur, er sýni allan manndauða og þá sérstaklega barnadauðann fyrir sig. Nú er það mjög misjafnt í löndum hve langt aftur í tímann slíkar skýrslur eru til. Engin þjóð mun eiga jafngamlar skýrslur um þetta eins og Svíar. Elstu skýrslur þeirra eru frá 1751—1760. Þá var barnadauðinn hjá þeim 205 0/00, en um sama leyti mun hann hafa verið langtum meiri hjá ýmsum öðrum þjóðum.

Elstu skýrslur okkar Íslendinga stafa frá 1838—1840. Þá var barnadauðinn hjá okkur 330 0/00 og er haldið að óvíða hafi hann þá verið meiri nema meðal villiþjóða. Með vaxandi framförum þjóðanna í öllum heilbrigðisháttum, bættum efnahag og aukinni menningu hefir barnadauðinn smámsaman þokast niður á við og er nú á tímum kominn það lengst niður, þar sem bezt er menningarástandið, að hann er kominn niður í 40—50 0/00. Og það er nú svo gaman að vita, að *við Íslendingar erum á síðustu árum komnir í tölu þeirra þjóða,* sem skara fram úr öllum öðrum þjóðum í þessu tilliti.

Neðanrituð tafla sýnir barnadauðann í nokkrum löndum samkvæmt skýrslum síðari ára.

*Ungbarnadauði í ýmsum löndum*:

| | | |
|---|---|---|
| Í Rússlandi | um | 250 0/00 |
| " Þýskalandi | " | 168 " |
| " Frakklandi | " | 122 " |
| " Danmörku | " | 88 " |
| " Englandi | " | 77 " |
| " Svíþjóð | " | 66 " |
| " Noregi | " | 64 " |
| " Íslandi | " | 49 " |
| " Nýja Sjálandi | " | 47 " |

Eins og þessi tafla ber með sér, erum vér Íslendingar komnir það langt í að vernda líf ungbarna vorra, að við komumst nærri því landi—Nýja Sjálandi—sem um nokkurt skeið hefir verið alment rómað fyrir að þar væri minni barnadauði en í nokkru öðru landi heims.

Þetta mega teljast gleðileg tíðindi og eru í þessu efni orðnar feiknaframfarir frá því um miðja síðastliðna öld, þegar árlega dóu um 300 börn af hverju þúsundi, sem fæddist á ári hverju.

Hvernig stóð á þessum mikla barnadauða og hvernig stendur á honum þar, sem hann er enn mikill? Orsakirnar eru í stuttu máli aðallega tvær: *efnaleysi og mentunarleysi.*

Þegar við lítum til baka hvernig sakir stóðu hjá okkur Íslendingum fyrir og um miðja öldina sem leið, þá var fátækt mjög almenn og engin uppfræðsla um heilbrigðismál. Fólkið hafði hvorki í sig né á. Þar af fylgdi sjúkdómar og veiklun, sem kom niður á börnunum. Húsakynni voru afarslæm og klæðnaður lítill eða óhentugur. Fæði var óholt, sjaldan nýmeti og kýrnar geldar mánuðum saman. Þar af leiddi skyrbjúgur og aðrir sjúkdómar, sem orsakast af vöntun bætiefna (vitamin). Börnin voru ekki lögð á brjóst, en fengu pela og dúsu. Nú er það margfengin reynsla, að af pelabörnum deyja alt að 9 sinnum fleiri en af

brjóstbörnum. Og dúsurnar bættu ekki úr skák. Konur tugðu í dúsuna, oftast brauðmat, en stundum fisk, lifur og annað. Óhrein léreftstuska eða klúthorn var notað í dúsuna. Ef konan, sem tugði, var haldin af einhverri næmri veiki, var barninu voði vís. Af öllu þessu leiddi, að ungbörn fengu margskonar meltingarkvilla, sem drógu þau til dauða. Þegar nú ofan á þessa kvillasemi bættust skæðir faraldrar af barnaveiki, mislingum eða kíghósta, þá ágerðist barnadauðinn fram úr öllu hófi. T. d. varð hann 610 0/00 1846 þegar mislingarnir gengu, en 439 0/00 1882 þegar þeir gengu næst þar á eftir um landið.

Loks má geta einnar ástæðu, sem ætíð hjálpar til að auka barnadauðann, og það er mikil barnkoma. Á Íslandi var barnkoman vanalega nálægt helmingi meiri fyrir og um miðja öldina síðustu heldur en hún er nú. Þá var barnkoman árlega um 40 0/00 (fyrir hvert þúsund landsmanna) þar sem hún nú er aðeins nálægt 25 0/00. Mikil barnamergð hefir í för með sér fátækt og örðugleika við hirðingu og uppeldi barnanna.

Svona var það hjá okkur þá og svona er ástandið enn hjá villiþjóðum víðsvegar um heim og hjá illa siðuðum þjóðum, eins og t. d. Rússum.

Eftir að augljóst er orðið, hverjar eru aðalástæðurnar fyrir miklum barnadauða, má með nokkrum rétti segja, að þær þjóðir, sem hæstan sýna barnadauða, séu slæmir barnamorðingjar, þó þær að vísu vegna fákunnáttu, viti ekki hvað þær gera. En nú er svo komið, sem betur fer, að allar menningarþjóðir skilja þetta og keppa að því, að draga sem mest úr dauða ungbarna sinna. Í því skyni er lögð mikil áhersla á alþýðufræðslu í heilsufræði, yfirsetukonur fá betri tilsögn, hjúkrunarkonur eru látnar heimsækja mæður og börn til að kenna rétta barnameðferð og ókeypis læknis-eftirlit og læknishjálp stendur öllum fátækum til boða.

Feður og afar okkar, sem nú erum fullorðnir, hafa sagt okkur ljótar sögur af hinum ægilega barnadauða fyrir og um miðja síðustu öld. Sérstaklega fanst þeim eftirminnilegt, hve barnaveikin gat stundum verið skæð. Það kom t. d. fyrir all-víða að af 10—12 barna hóp urðu eftir aðeins 3—4 börn—og það stundum á einni viku.

Nú var það algengt á þeim tímum á voru landi, eins og enn er meðal villiþjóða, að guði almáttugum var um alt kent og þá líka þetta, þegar börnin dóu í hrönnum. Þá þótti mönnum, sem dauðans engill væri sendur inn á heimilin líkt og hjá Egyptum forðum. Og meðan engir þektust vegir til að ráða bót á þessu, sættu menn sig við ósköpin og sögðu sem svo, "að blessuðum smælingjunum væri í rauninni bezt komið fyrir hjá himnaföðurnum."

Menn trúðu blint á guðs forsjón, en minna eða ekkert á eigin framsýni eða fyrirhyggju og líkt og bændur þá alment "settu á guð og gaddinn"—þegar um kvikfénaðinn var að ræða, þá gilti í rauninni sama reglan um barnahópinn.

Menn hlóðu niður ómegðinni hugsunarlaust, þó engin væru efnin til að koma krökkunum á legg.

Þegar rætt er um hinar miklu framfarir á landi voru á síðastliðnum mannsaldri og þá sérstaklega hvað manndauðinn hefir minkað og meðalæfi manna hefir aukist að stórum mun, svo að við erum nú með hinum allra langlífustu þjóðum, þá vilja ýmsir gefa okkur læknum dýrðina sem þeim, er mest hafi að þessum framtörum unnið. Sennilega ber þó miklu fremur að benda á hitt, hve efnahagur þjóðarinnar, alþýðufræðsla og þarafleiðandi sjálfstraust manna hefir vaxið um allan helming.

Með vaxandi viti verða menn meira og meira sjálfum sér forsjón.

"Dauðans engill" sneiddi forðum hjá heimilum Gyðinganna, en húsvitjaði óspart hjá vesalings Egyptunum.

Sjálfsagt hefir Egyptum þótt það slæm réttvísi hjá skaparanum í þá daga.

Ekkert er nýtt undir sólinni. Það er svo skrítið, að enn þann dag í dag kemur það árlega fyrir, að dauðans engill sneiði að miklu leyti hjá vissum hverfum stórborganna, en heimsæki önnur þess meira og tilfinnanlegar. Það er alkunnugt, að það stingur algjörlega í stúf með það hvað barnadauðinn er margfalt skæðari í þeim borgarhlutum, þar sem fátæklingar búa og þeim hverfum, þar sem býr efnaða fólkið og betur mentaða. T. d. má segja um þá hluta New York-borgar, þar sem búa efnaðir, mentaðir Gyðingar, að þar fari oft dauðans engill algjörlega framhjá, en heimsæki þess meir þá borgarhlutana, þar sem búa fátækir Ítalir, Kínverjar og Svertingjar. Þekking er afl og með auðæfum má afla sér þekkingar og allskonar úrræða. Það er aukin velmegun og aukin þekking, sem hefir hjálpað oss Íslendingum til að komast í röð með fremstu menningarþjóðum heims. En einhver ánægjulegasti ávöxtur þess er hin mikla rénun barnadauðans.

Vanþekking og efnaskortur, sem fyrrum í sameiningu hjálpuðust að til að koma börnunum í gröfina, eru nú að hverfa úr sögunni.



# Þelsokkar Þórunnar

Eftir *Guðmund Friðjónsson.*

Þórunn heitir kvenmaður, sem dvelur í húsmensku í Sölvavík á Hvanndalaströnd.

Forðum tíð voru hvannir sóttar "út í Hvanndali," innan úr meginsveitinni og söl tekin í víkinni, til manneldis. Þessar strandnytjar voru sóttar lengra að, þegar hart var manna milli, og skreið og hvalur slíkt hið sama.—Enn sér merki margra götutroðninga eftir þessari strönd, endilangri, sumir segja tuttugu talsins, sem reiðskjótar og klifjahestar þessara lestamanna tróðu og eftirskildu til minja, öldum og óbornum.

Nú eru hvannir óætar og söl aðeins beitijurt. En þó er stutt síðan hvannarót var látin í brennivín til sælgætisauka, ásamt einiberjum, og þótti sá drykkur höfðingjaveig—meðan höfðingjar voru í landi.

Þórunn í Sölvavík er meykerling. Engi maður veit til þess, að hún hafi elskað karlmann. En hún hefir vissulega unnað tóskap. Fólk, sem hefir kynnst henni, veit, að hún ann honum hugástum.

Þórunn hefir átt fáeinar kindur og heldur þeim enn við lýði. Þær eru svartar, gráar og mórauðar. Þessa liti hefir hún kembt saman í tóskap sinn, ýmist blandað þeim, eða haft þá eina sér. Hún hefir gert að kappsmáli, að kindurnar færu ekki niður fyrir kúgildistölu, ærnar. Og svo hefir hún sett á eitt lamb eða tvö, til viðhalds stofninum, það og það árið.

Þessi kona hefir unnið prjónles úr ull sinni. Þó kann hún vel að spinna vefjarþráð og saumgarn. Hún hefir gefið sokka og vetlinga smámsaman, þegar hún hefir hitt vinafólk sitt. En sumt hefir hún selt fyrir peninga. Haldið er, að hún eigi gull og silfur í handraða sínum, sér til gamans. Sú ímyndun styðst við það, að hún lítur seðla óhýrum augum, en hefur upp brún við 'gjallanda málmi.' Þegar henni innhendast seðlar, víxlar hún þeim fyrir 'harðan málm,' sem hún kallar svo. Þessi kona forðast kaupstaðar úttekt eins og heitan eld; lætur sér lynda náttúrugæði lands og sjávar. Þó er hún fíkin í kaffi, og vill hafa það sterkt.

Utan við Sölvavík er grandi, sem heitir Gjögur, brimsorfinn. Haföldunum er svo uppsigað við hann, að þeirra milli er látlaus ófriður. Ofan við þenna annmarka strandarinnar, er graslendisbakki, þar sem jarðvegurinn er feldur af við áreitni stórbrima. Þarna situr Þórunn sífelt haust og vor, þegar kveldar og vel liggur á veðráttu. Húsmenskukonan heldur þar á prjónum sínum, horfir út í náttmálalitbrigðin og raular vísur fyrir munni sér. Kvæðalagið hefir hún samið sjálf, eða erft eftir foreldri:

Snjöll í rómi, ungleg æ
alda á Gjögri lóar;
aftanroði út' á sæ
anda mínum fróar.

Þó að aftankul sé komið, er henni brísheitt á höndum. Þær eru þykkar og þriflegar, þvílíkt sem lummur á fullvaxinni kæpu. Þessi fósturdóttir náttúrunnar virðist gædd birnuyl, undir þolrifjum gildvaxins líkama.

Nú er Þórunn sextug. Tóvinna hennar er með sömu áferð, sem hún hafði á sér fyrir tuttugu árum, eða þrjátíu. Þessi kona þarf engin gleraugu. En það vill til að hún lyftir lagði upp að ljósi í skammdegi, þegar hún hærir þel, og vill vanda sig allra mest. Hún prjónar verðlauna-vel með aftur augun, eða í svartnætti, og sjaldan horfir hún á prjóna sína, heldur starir hún þá út í fjarska rúms og tíðar.

Húsfreyjan í Sölvavík heitir Salgerður. Hún er á orði og jafnvel annáluð fyrir vaðmálagerð og þann tóvarning, sem gengur gegnum vefstól; en bóndi hennar er garpur á sjónum, harðsóttur og aflasæll formaður á opnum bát. Víkin liggur svo fyrir opnu hafi, að þar er ekki vélbáti fært. Þórunn hefir unað sér hjá þessum hjónum í þrjátíu ár. Þarna vinnur hún fyrir kindum sínum á sumrin og mjólk. Sjómat fær hún umtölulaust, enda tekur til handargagns innan bæjar, til híbýlabótar, og er þá að jafnaði skift.

Þannið lifir Þórunn í Sölvavík. Eitt sinn var hún vinnukona hjá föðurbróður sínum, á yngismeyjaraldri sínum. Dóttir hans, nokkuð yngri en Þórunn, var þar þá, Ingunn að nafni. Þær voru samrýmdar frændkonurnar og mæltu til vináttu með sér. Nú var þessi frændkona Þórunnar kaupmannskona á Þveráreyri og hafði lengi verið. En svo heitir hraðvaxandi þorp í næstu sýslu við Sölvavík. Þangað hafði Þórunn aldrei komið, eða svo langt út í veröld. Þessar frændkonur höfðu eigi sézt í þrjátíu ár og engar orðsendingar farið milli þeirra.

Þveráreyri hefir vaxið ört við útveg og kaupsýslu og hún hefir dregið til sín fólk úr sýslunni, sem Sölvavík er í, einkanlega ungar stúlkur, sem þar hafa dvalið í vetrarvistum. Þær höfðu orð á velgengni borgarfólksins, að kaupmennirnir þar og útgerðarmennirnir lifðu höfðingjalífi. Þessar stúlkur sögðu Þórunni, að frændkona hennar ætti við drotningarkjör að búa, byggi í stórhýsi svo íburðarmiklu, að stigar í því væru fóðraðir með 'flaueli,' og á veggjum héngju speglar mannhæðar háir. Þórunn tók lítið undir þetta, mælti eitthvað á þá leið: "Tvennir verða nú tímarnir og ekki nema það þó!" Hún mundi þá tíð, að faðir Ingunnar átti í vök að verjast og að þær frændkonurnar "sátu mjótt við eld," eins og segir í fornsögu einni.—

Salgerður og Þórunn sátu að kveldlagi um veturnætur á rúmum sínum og tóku ofan af ull. Þetta haust var góðviðrasamt, gæftir langvinnar og fiskur úti fyrir Sölvavík svo nærri landsteinum, að nálega mátti kasta

honum upp á Gjögurinn af önglum. Þessar konur sátu oftast þöglar við ullariðnað sinn. Nú tók Salgerður til máls og leit til Þórunnar staðföstum augum og ylríkum.

"Mikið höfum við hérna góðum og gæskuríkum guði að þakka fyrir árgæskuna og aflann og alla náð og miskunnsemi gjafarans, Þórunn mín. Það má nú segja. Sælt er að búa að sínu og holt er heima hvað, segir spakmælið. En þó að við höfum yfir engu að kvarta, hefði samt verið gaman að létta sér svolítið upp, sjá sig ofurlítið um, áður en tjaldið fellur í síðustu ljósaskiftunum."

Þórunn þagði við þessu stundarkorn og hnuðlaði togið í lófa sínum, kipti í toglokk og mælti síðan.

"Ójá! Þú ert nú svo efnuð, að þ ú gætir það, og víst ættir þ ú það skilið fyrir alla þína heimilis alúð og iðni og ástundun og dugnað og sparsemi, þó að vel fari nú um þig."

Salgerður brosti og mælti:

"Þ ú ættir það skilið ekki síður en eg að lyfta þér upp; ekki hefir þú notið svo margs um dagana."

"O—mér hefir liðið vel hjá þér, hérna hjá ykkur, ekki er um slíkt að tala, húsmóðir góð. Eg uni mér við rokkinn minn og prjónana og alt að tarna."

Salgerður greiddi ullarhana milli handa sér og leit gegnum hann út í glugga. Hún mælti:

"Þú ættir nú að taka þig til Þórunn mín og fara í orlof til frænku þinnar á Þveráreyri og sjá alla dýrðina, sem þar er sögð úti og inni, ljósadýrð og stofuprýði."

"Eg ætti nú ekki eftir annað en það," svaraði Þórunn. "Mér sýnast þessar ferðir þangað, unga fólksins, ekki til annars en að gera það óánægt og fylla það með óyndi, þegar heim kemur, fyrir utan sóunina, sem eg tala nú ekki um."

"Þú ert nú orðin svo roskin og ráðin," mælti Salgerður, "að þú skiftir ekki skapi, eða háttum, þó að þú sjáir dýrðina í borginni. Ungu skinnunum er vorkunn, sem ekki eru búin að átta sig á lífinu, unglingum, sem ekki eru búnir að finna sjálfa sig, blessuð mín."

Nú varð þögn um stund og báðar konurnar kiptu í toglokkana ótt og títt. Salgerður mælti enn í alúðar róm:

"Þú getur fært henni frænku þinni sokka og þeim mæðgum, eða á hún ekki uppkomna dóttur? sem eg heyri sagt að sé mesta gull og keppikefli. Þær myndu taka móti þér, mægðurnar, ekki sízt, ef þú kæmir til þeirra færandi hendi."

Nú var slitinn fyrir þeim samræðuþráðurinn. Húsbóndinn kom í dyrnar og mælti snjallraddaður:

"Þá erum við komnir að og ekki alveg tómhentir, drekkhlaðnir af fiski og höfðum lúðu í eftirdragi, sem er heldur bitastæð. Það væri gaman fyrir ykkur, kerlingarnar, að lötra niður í víkina og skoða slækið flata á mölinni."

Salgerður svaraði og greip í tog.

"Það gerum við, þegar við sjóðum af henni rafabeltin og höfuðið. Þá er tilvalinn tími til þess."

Árstíðin lötraði leiðar sinnar á seinagangi, og daginn stytti smám saman. Konurnar héldu sig að vinnunni, eins og þær áttu vanda til. En eftir þetta viðtal var Þórunn lausari við sæti sitt en hún var vön að vera—á kveldin þá stóð hún öðru hverju við lampaljósið og hærði mórauða ull með mikilli nákvæmni. Hún dró eina og eina hæru úr lögðunum, eins og þegar fis eru tínd úr dún. Þegar þessu hafði framundið eina viku, mælti bóndi kvöld eitt:

"Hvað er nú, Þórunn! ertu að missa sjónina, eða hvað?"

Húsmenskukonan brosti og mælti:

"Ekki svo mikið enn, að um sé að kvarta!"

Þegar Þórunn hafði fullhært ullina, svo að hún þóttist vera búin að leita af sér allan grun, tætti hún tvenna sokka úr þessu þeli og tvennar spjarir. Vandvirkni Þórunnar við þessa sokkagerð verður naumast með orðum lýst. Hún bar sviðaflot í kemburnar og fékk með því móti lyppuna svo seiga, að bandþráðinn mátti gera enn smærri en ella. Þetta band, þó að þrinnað væri, varð hárfínt, spunnið við fingur sér. Þó að Þórunn prjónaði blindandi, feldi hún ekki niður lykkju. Og ekki fataðist henni snúningslykkjan, þó að hugur hennar væri úti í æfintýralöndum, eða í álfheimum. Meðan hún þæfði sokkana teygði hún þá og strauk smám saman með lófunum og að lokum svaf hún á þeim, þurkaði þá og fergði þannig. Illepparnir fengu samskonar handayfirlegging. Þessi prjónasaumur varð dúnamjúkur átektar, og voðfeldur eins og baðmullardúkur. Eigi voru skjólgæði hans á huldu. Og það sagði sig sjálft, að þessum sokkum mátti trúa fyrir fótum í hörðu frosti og hryssingslegum umhleypingum á refilsstigum.— Þegar þessu var lokið, gerði Þórunn sér brydda selskinnsskó og reyndar tvenna. Voru aðrir stærri en hinir. Þegar þar var komið, mælti Salgerður við hana með gleðihreim sigurvegara:

"Nú sé eg að þú ætlar í langferð, góða mín."

"Ójá!" svaraði Þórunn, "eg var að hugsa um að lyfta mér upp í þessari blessuðu tíð; annað hvort er nú að hrökkva eða stökkva. Það er nú svo sem ekki víst, að náðartíminn verði svo ýkjalangur úr þessu, sem mér verður úthlutaður."

Salgerður mælti og brosti gletnislega:

"Og fylgdarsveinninn — hver verður hann?"

"Guð fylgir mér," svaraði Þórunn.—

Hún lagði af stað með fullu tungli, áleiðis til borgarinnar. Leiðin er svo löng, að nema mundi sex dagleiðum í skammdegi fyrir konu, sem komin er af léttasta skeiði og óvön ferðalagi. Hvergi bað hún um fylgd, en sætti samferðum, þegar þær buðust. Sumstaðar voru glöggar götur og ferill milli bæja í héluhrafli, sem lagðist á jörðina, annars alauða. Hún þurfti yfir fjall, sem nær 3,000 fet upp í loftið. Þetta var örðugasti hjallinn á leið Þórunnar.

Þar naut hún leiðsagnar og stuðnings póstsins. Hún komst heil á Húfi til Þveráreyrar. Segir nú ekki af ferðum Þórunnar fyrri en hún kemur heim í Sölvavík eftir mánaðar útivist. Þá var skift um tíðarfar og fallinn snjór á jörð, svo að götur allar voru komnar í felur og slíkt hið sama misfellur landsins. Þegar svo fellur, er göngumönnum óskemtileg gangan og ónotaleg. Mjöllin leynir holum og hnjótum svo að fæturnir gera ýmist, að rekast í hrjónur, eða falla niður í skorninga. Stundum liggur við falli, jafnvel fótfimu ungviði, hvað þá roskn-um lýð.—Þórunn kynni að hafa haft slíkt og þvílíkt bak við eyrað, þegar hún kom að kvöldlagi inn í eldhús húsmóður sinnar, alsnjóug, og mælti, er hún hafði heilsað, með þrem kossum:

"Aldrei framar skal eg fara í langferð, meðan eg má vera hjá þér , elsku góða." Þetta ávarp notaði hún þarna í fyrsta sinn. Salgerði varð þá að orði:

"Þér hefir ekki gengið alt að óskum, Þórunn mín, ef eg á kollgátuna."

Þórunn hristi af sér snjóinn og mælti:

"Það gengur nú svo í henni veröld, að á ýmsu veltur, trúi eg. Á misjöfnu þrífast börnin bezt."

"Þú hefir staðið við áætlunina heldur vel, kemur eftir réttan mánuð. Það er þér líkt að hafa alt í föstum skorðum. Mér þykir vænt um, að þú ert komin heim, mér hefir hálfleiðst að hafa þig ekki í bænum. Þetta er líklega vanafesta. Og nú held eg þér komi vel að fá í bolla. Kaffið er á könnunni og heitar rúsínulummur í bakara-ofninum. Gerðu svo vel, ef þú getur þá notað þér þetta eftir alla dýrðina í borginni."

"Sleppum nú þeirri dýrð!" svaraði Þórunn. En það er þér líkast að taka svona móti mér, landeyðunni, þegar eg kem til þín af þessum húsgangi."

Samtalið féll niður, því að fjármaður hjónanna kom að í þessum svifum.

Þórunn háttaði venju fyrri þetta kveld. Hún mundi vera þreytt og hvíldarþurfi. Salgerður ætlaði að færa henni kveldverð. En þá svaf hún í rúmi sínu, í herbergi, er hún hafði út af fyrir sig, og blés mæðilega öndinni.

Næsta kveld sat húsfreyja í herbergi sínu og bætti flík við kertisljós. Bóndi var útivið og kyrlátt kringum Salgerði. Veit hún þá ekki fyrri til, en Þórunn kemur til hennar, leggur hendur um háls hennar og segir:

"Mikið er eg lifandi guðs fegin að vera komin heim, heim til þín í höfn úr þessum flækingi, sem eg sé eftir að hafa farið í, meðan eg tóri."

Röddin skalf og Salgerður varð vör við, að andardrátturinn var heitur og tíður, eins og henni væri mikið niðri fyrir.

Húsfreyju varð hverft við.—

"Hvað hefir komið fyrir þig? Þú, sem aldrei missir jafnvægið og ert svo stilt og tamin."

Hún klappaði á kinn Þórunnar og fann að hún var vot. Salgerður mælti í mjúkum róm:

"Hver gat fengið sig til að særa þig, einstæðinginn?"

"Eg er ekki einstæðingur, meðan eg á þ i g að," svaraði Þórunn og reyndi að harka af sér. "Og nú er eg komin heim í góða bæinn. Því er eg að kvarta? Eg skil ekki í sjálfri mér, að vera svona ístöðulaus alt í einu."

"Það er af því, að eitthvað amar að þér," mælti Salgerður. "Tyltu þér nú á rúmið hjá mér og léttu af þér, segðu mér ferðasöguna og láttu fjölina fljóta."

Þórunn þerði sér um augun og settist.

"Ertu ekki lurkum lamin eftir ferðalagið?"

"Ónei, ekki þarf eg að kvarta um það. Eg er ekki fótfúin enn til stórra muna."

"Og þó gekstu þessa löngu leið í ófærð."

"Það er nú það sama, eg þoldi það vel. Aðrir verða mergsviknir en þeir, sem þín hafa notið, spái eg, og eg hefi haft af þeim manni að má, að eg hefi sjaldan fundið til lúa um dagana."

"Það má nú segja, Þórunn, að þér hefir ekki verið fisjað saman, eins og grennlunum sem nú vaxa upp."

"Og þó er eg þreklaus í aðra röndina, eða svo reyndist eg nú, og viðkvæm eins og væfla. Ekki hélt eg nú, að það kæmi fyrir mig, að verða svona sundurkramin, þó svolítið blési á móti mér í bili."

Salgerður klappaði á vanga Þórunnar og mælti:

"Hvað kom fyrir, góða mín? Viltu ekki trúa mér fyrir því. Það léttir á að vera ekki ein um mótlæti."

Þórunn svaraði með rödd, sem virtist koma úr kafi:

"Jú, eg vil segja *þér* það, eg kom einmitt til þín í þeim vændum að útausa hjarta mínu hjá *þér*, sem tókst mér svo vel í gærkvöld, þegar eg kom heim, og þú hefir verið mér svo góð öll þessi ár, betri en nokkur systir getur verið, þó þú hafir ekki verið með fagurgalann á vörunum. Þú hefir verið svo nærgætin við mig. Það er ónærgætnin, sem rekur suma í gegn, og kreistir hjartað í manni."

"Nú fer eg að skilja," mælti Salgerður, "frænkum þínum hefir þótt lítið koma til sokkanna þinna."

"Þær, þær þáðu þá ekki," svaraði Þórunn og brast í grát.

Salgerður vissi það um Þórunni, að henni hafði aldrei brugðið til muna í 30 ár, enda þótt lífsháski hefði vofað yfir húsbónda á sjónum. Nú engdist hún af ekka. Húsfreyja hallaði henni að sér og gaf grátinum ráðrúm. Hún fór nærri um, að það regn þyrfti að streyma. Þegar sljákkaði ekkinn, mælti Salgerður í hughreystandi róm:

"Frænka þín hefir samt tekið þér vel, þykist eg vita?"

"Já, það gerði hún að því leyti, að hún jós í mig góðgerðum, lét aka mér í bíl og bauð mér í bíó, sem það kallar svo. En eg fór ekki til þess alla þessa leið, eins og þú kannast við. Eg fór til þess að færa henni sokkana og spjarirnar, gefa henni það, sem eg hafði lagt í svo að segja hjart-

slátt minn og blóðrás. Og það fór þá svona.

Og nú þyrmdi yfir hana annari grátkviðu.

Salgerður beið og lét hana fjara. Þá var það Þórunn, sem hóf aftur samtalið.

"Eg hefði nú þolað það, eða sætt mig við það, að frænka mín bandaði hendi við tóskapnum mínum. Hún kannaðist þó við það, að sokkarnir væru vel tættir, meira að segja að þeir væru þess verðir að fara á sýningu, sagði hún. En hún bætti því við, að ullarsokkar væru *nú* fallnir úr móð, síðan silkisokkarnir komu í búðirnar; í borginni gætu engar heldri konur sýnt sig í ullarsokkum. Geymdu þá og láttu þá á sýningu, sagði hún. En meðan á þessu stóð, kemur frökenin aðvífandi, svo að segja berfætt í þessum stuttu pilsum, sem skrolla ofan við kné, og handleggina allsbera, slíkt og þvílíkt að sjá! og rekur augun í sokkana og segir: Eru þetta engjasokkar úr sveitinni? Getur nokkur verið í svona görmum? Og þá var mér allri lokið og mér fanst eg vera rekin í gegn, stungin í hjartað, svo ónærgætnislega."

Þórunn andvarpaði og ræskti sig.

"Voru þetta öll hennar gæði?" mælti Salgerður.

"Ekki segi eg það; hún vildi gefa mér úr búðinni döðlur, svokallað konfekt, brjóstsykur og sígarettur og eg man ekki hvað."

"Þáðirðu það?"

"Ónei, eg skrökvaði því að henni, að eg treysti mér ekki til að bera bagga svo langa leið, sem eg ætti fyrir höndum."

"Eg skil, eg skil! Og svo hefir þú ekki haft tóskapinn þinn á boðstólum annarsstaðar, vænti eg?"

"Eg bauð aldrei frökeninni þá, sem henni voru merktir, komst ekki svo nærri henni. Hún var aldrei heima, var á sífeldum þönum úti í bæ eða eg veit ekki hvar. En á heimleiðinni gerði eg mér þá minkun að hafa þá á boðstólum, eg gerði mér þá vanvirðu."

"Eg hlusta og hlýði á," mælti húsfreyja.

"Já, eg kom að fjárhúsi á Gilsbakka í rökkri og hríðarmuggu, hitti þar Bjarna son bóndans og bauð hann mér að setjast að. Eg vildi áfram og þá sagðist hann skyldi fylgja mér. Allir voru svo gestrisnir, þar sem eg kom. Eg þáði fylgdina. Þú hefir heyrt að hann er trúlofaður Bótholdi í Hlíð. Mig langaði til að launa honum fylgdina og bað hann að þiggja sokkana, sem eg ætlaði að gefa frökeninni. Það bar svo vel í veiði, að fangamarkið stóð heima." Þórunn þagnaði og barðist við ekkann. "En hann vildi ekki taka við þeim, sagði að kærastan sín vildi ekki, *alls ekki, koma í ullarsokka,* af því að þeir væru gengnir úr gildi og sveitastúlkur yrðu að klæða sig eins og kaupstaðarstúlkur, annars ættu þær nú handvíst að verða að athlægi í borginni.

Þarna bar að sama brunni, sem á eyrinni, nema frænka mín sagði, að ullarsokkar væru fallnir úr móð, en Bjarni taldi þá vera

gengna úr gildi. Og svo sagði hann, þegar hann rétti mér sokkana: "Ætli þeir séu ekki bezt komnir á sýningu þessir dýrgripir þínir, Þórunn?"

"Nú, hann kallaði þá þó dýrgripi!"

"Ójá, svo sagði hann; en eg veit nú ekki, hvort alvara var í orðunum, sumir eru svo tvöfaldir inn við beinið."

"Það er nú virðing út af fyrir sig, Þórunn mín, að fá verðlaun á sýningu. Þetta getur orðið þér til gæfu og gleði á seinni skipunum. Þú munt hafa heyrt það, að hátíð á að halda á Þingvöllum árið 1930 og þar á þá að verða sýning á allskonar iðnaði. Þar kemur konungurinn okkar blessaður og sú góða og göfuga drotning. Það mun vera í ráði, að gefa drotningunni sokka og vetlinga og ekki kæmi mér á óvart, þó að þínir yrðu fyrir valinu og kæmust á fætur drotningarinnar. Mér er sagt, að hún sé lítillát og laus við að skreyta sig. Við skulum harka af okkur og vona alls hins bezta. Hver veit, nema hvannarótin hérna af ströndinni komist í brennivín og svoleiðis á konungsborð. Það kann að sannast hérna við Víkina okkar, að margur á sín lengi að bíða, og sá hlær þó æfinlega bezt, sem seinast hlær."

Í þessari andrá kom húsbóndi í herbergisdyrnar og bauð gott kvöld. Þá reis Þórunn á fætur og gekk út úr stofunni, með sorgina á baki en vonina í fyrir.



# Hreiðar heimski

Þröngt var skáldi hallargólf hilmis.
Hirðin gervöll sat um hvert orð.
Skutu gneistum skimandi augu.
Skullu þungar hnútur um borð.
Sérhvert orð var blikandi brandur,
brýndur kala, sem leyndist í hug.
Sendu allir Hreiðari hvemsur;
hrutu þær sem eldingaflug.

Stóð hann fast og hjó af sér háðið.
Hrundu lögin markvilt og sljó.
Íslands son í konunga kynnum
kuflinn bar úr jökum og snjó.
Hugur þó að frækinn og fimur
fleygur væri' um málefni öll,
tunga hans og ytra borðs æði
oftast vann þó hirðveizlu spjöll.

—Hreiðar orti konungi kvæði.
Kulda sló um Magnúsar brá.
Hálfum orðum hljóðið samt leyfði.
Hilmi þótti vegsemdin smá. —
Hann sem örn úr hásæti glæstu
horfði fast með dulráðið skap,
meðan skáldið hálfleika-hugar
hóf sinn leik um virðing og tap.

Gervöll varð að hlæjandi hlustum
hirðin bragðvís, glödd hverri smán.
Augnaráð sem örvar á flugi
ortu þögul hamingjurán.
—Illa tömdum atgervismanni
orkan reynist tvíeggjað sverð;
snýr að honum áreitin öfund
allri sinni ránfugla mergð.

—Fyrst var sem úr hendingum horfinn
hljómur allur, frosinn í dá.
Tungan ekki treganum náði.
Tómið kalt í stefjunum lá.
Varir báru hjáróma hjartans,
hélustorkin ljóðvana orð,
eins og þegar frostbrak í frerum
fellur yfir hjarnþunga storð.

Skáldið kvað.—Með stækkandi straumi
stigu ljóðin hendinga snjöll,
eins og vaxnar elfurnar brjóti
ísinn, þegar hlánar um fjöll.
Braust þá fram með eldinga afli
ómur hver og leyndasta þrá.
Orðin voru höfugum hituð
harmi, sem á brjóstinu lá.

Líkt og mjúkum vordöggum vafin
væri jörð við hækkandi skin,
er í dölum ljúfróma ljóða
lindir undir gróandi hlyn,
svo að lokum lofðungi kvað hann.
Ljóðið æðstu sigurlaun vann:
Ennisröðull alvalda tigins
yfir skáldið vermandi rann.

Kvaddi hann þá konung og hirðir.
Knörrinn rann að Þveræings-strönd,
þar sem röðull náttfari nemur
norðurdjúp og skimar um lönd.
Heyrist ennþá hendinga gnýrinn
hljóma yfir tímanna val.
Vestur sæ af lofstírnum leggur
ljómann heim í Svarfaðardal.

*Jón Magnússon.*

# Vöxtur og vaxtartap*)

Eftir *Ragnar E. Kvaran.*

Eg hefi nýlega verið að lesa um sérstaklega einkennileg tré, sem ferðamenn skýra frá, að þeir hafi séð í Japan. Sum þeirra eru meira en hundrað ára gömul, en eru þó ekki enn hundrað þumlungar á hæð. Einn ferðamaðurinn segist hafa séð sérstaklega merkilegt trjáasafn þessarar tegundar í garði greifa eins í Tokio. Þar voru furutré, sem sáð hafði verið á seytjándu öld, en þau voru ekki orðin stærri en það á fyrsta fjórðungi þessarar aldar, að bera mátti tréð í annari hendinni í leirpottinum, sem það óx í. Önnur höfðu verið gróðursett um það leyti, sem Columbus fann Ameríku, en voru ekki stærri en venjuleg tveggja ára tré. Í öðrum stað sá hann ofurlítinn plómutréssmælingja; það var alt hnútótt og kvistótt, bogið og undið af aldaárás vinds og veðurs, og ekki stærra en svo, að vel mátti hafa það á stofuborði, enda eru þessi tré til þess notuð oft, meðan þau bera blóm. Og hann bætir þessu við: "Þar voru enn önnur lítil tré, sem sáð hafði verið í æsku þeirra manna, sem nú eru komnir við aldur, og þau eru enn í tebolla, og sum jafnvel í fingurbjörgum kvenna."

Hvernig stendur á þessum dvergtrjám? Þau eru alveg sömu tegundar og önnur tré, en ræturnar eru af ásettu ráði særðar eða kliptar af, jafnóðum og þær vaxa ofmikið; þau eru látin svelta í mjög lélegri og magurri mold, látin vera vatnslaus um langt skeið í senn, en þó er lífinu haldið í þeim, þangað til þetta er orðin afbökun á tré, tré-brúður, eins og með hrukkótt gamalmenna-andlit á fótleggjum lítils barns. Og það þarf að beita mikilli þolinmæði og nákvæmni, til þess að ná þessum árangri, þessum nærri því hlægilega dvergvexti.

Það mætti virðast undarleg ánægja að fást við trjárækt á þennan hátt. En þó er þetta vafalaust lærdómsríkt. Því svo mikil sem þolinmæðin verður að sjálfsögðu að vera, til þess að gera slíkar tilraunir, þá er þolinmæðin augsýnilega meiri, sem lífið sjálft beitir, að gefast aldrei upp í baráttunni til vaxtar, hversu mikið, sem tafið er fyrir og hversu miklir þröskuldir sem settir eru í veginn.

En víst er ánægjan undarleg. En þó er hún ekki eins óvenjuleg og ætla mætti. Það er alkunna, að dæmin eru óteljandi fyrir því, að menn hafa haft gleði eða einhverja ánægju af því að ala upp dverga í mannlegu félagi. Sú var tíðin, að sjálfsagt þótti að hafa að minsta kosti einn dverg við hverja konungshirð, og jafnvel á

---

*) Þetta er ágrip af erindi, er flutt hefir verið á nokkrum stöðum meðal V. Ísl. á síðastliðnu ári. *Höf.*

setrum aðalsmanna. Eg veit ekki hvernig sálarfræðingar myndu gera grein fyrir þessari nautn af vanskapnaðinum. Má vera að þeir telji mönnunum fróun að því að hafa fyrir augum það, sem þeim er óveglegra og ómerkilegra; þeir nytu sinna eigin yfirburða þess betur, sem augljósari væri skorturinn hjá öðrum. Og reynsla er að minsta kosti fyrir því, að ekki er ótítt, er einhver maður hefir verið settur mikið ofar öðrum mönnum, að hann hafi þá haft tilhneigingu til þess að draga úr vexti þeirra, sem með honum hafa átt að dvelja. Enginn staður hefir reynst verri til þess að ala upp menn með manndóm og sjálfstæði, heldur en konungahirðir eða höfðingja. Þar eru tafarlaust stýfðir vængir einstaklingsins, en ræktaðir þeir eiginleikar, sem horfa í áttina til þrælslundar eða manndómsleysis.

Þetta öfugstreymi mannlegrar lundar er í sjálfu sér mjög eftirtektarvert. En þó er annað eftirtektarverðara og raunalegra. Og það er, þegar vexti er kipt úr heilum þjóðum og kynþáttum, án þess að bent verði á, að það sé gert í raun og veru að nokkurs manns vilja eða af ásettu ráði. Og þetta er svo algengt, að svo að segja hver þjóð er sannfærð um, að þetta sé einmitt hennar saga. Allar þjóðir hafa þá trú, að þær hafi átt það, sem þær nefna sína gullöld, endur fyrir löngu. Þjóðsögur allra landa segja frá fornu tímabili, er menn voru dáðrakkir og snildin ríkti, þegar karlar voru göfugir tápmenn og konur voru spakar af viti og drenglundin var þeirra eðli. Og þessi trú er ekki reist alveg í lausu lofti. Bak við hana er að minsta kosti sá sannleikur, að því fer fjarri, að mönnum hafi farið eins verulega fram á því tímabili, er sögur greina frá, og oftast er talið. Víst er um það, að ýmsir mannfræðingar telja "Cro-Magnon" manninn, sem svo er nefndur og uppi var fyrir tuttugu þúsund árum, hafa verið búinn ágætari líkamsgáfum og meira heilabúi en síðar hafi verið. Vér tölum að minsta kosti hættulega mikið um *framþróun* í mannlífinu. Réttara er vafalaust að tala um *framvindu,* eins og sumir eru þegar farnir að gera. Mannlífið breytist sífelt, en því fer fjarri, að þær breytingar séu allar til meiri vaxtar eða æðra lífs.

Fyrir þessa sök er það, að vér erum svo þráfaldlega að reka oss á undarleg dæmi þess, að það sem er hugsjón vor í dag í einhverju efni—hugsjón, sem vér teljum ekki líklegt að nái fótfestu í félagslífinu fyr en eftir langan tíma og eftir mikla baráttu, hefir ef til vill verið áður til í miklu ákveðnari mynd heldur en nú er. Það er eins og tekið hafi verið fyrir vöxtinn, þegar framförin var allra mest, og alt hefir svo sigið aftur ofan í dverglíf og dáðleysi. Markvert dæmi þessa skilnings bar fyrir mig eigi fyrir löngu við lestur ritgerðar eftir einn af hinum yngri sagnfræðingum Bandaríkjamanna. Hann er að rita um pólitíska hugsjón hinna norrænari manna — Norðurlandabúa, Engil-Saxa og Þjóðverja og umfram alt Ameríku-

manna. Allar hafa þessar þjóðir haft tilhneigingu til þess, er nefnt hefir verið lýðræði — demókrati. Þegar Ameríka tekst að byggjast, sprettur stjórnskipulag upp af þessari rót, eða dræltir að því að minsta kosti, alveg af sjálfsdáðum. Og allir vita, að þetta orð hefir orðið að félagslegri trúarjátningu þessarar álfu. Og því verður naumast neitað, að svo mjög sem mönnum ber á milli um aðferðirnar til þess að ná framtíðarfyrirkomulagi á félagsmálum þjóðanna, sem unað verði við, þá eru nú fleiri um það sammála en verið hefir um langt skeið áður, að framhjá lýðræðinu verði ekki komist og eigi ekki að reyna að komast. Vér sjáum með öðrum orðum, að hér er hugsjón, sem hinar menningarmestu þjóðir eru að þreifa fyrir sér til þess að fá gerða að veruleika. Þær eru að reyna að vaxa í áttina til lýðræðis; en með því orði er átt við, að öllum lýð þjóðarinnar sé gefinn kostur á að ná þroska, og það verði almenningsins vilji og upplag, sem endurspeglist í háttum þjóðlífsins. En einkennilegast í máli sagnfræðingsins var það, sem nú skal hafa eftir honum:

"Þessi pólitíska stefna eða viðleitni er ekki bundin við Engil-Saxana eina, heldur er hún sameiginleg þeim og Hollendingum og Skandínavískum þjóðum, eins og saga þeirra ber ljóst vitni. Og sannleikurinn er sá, að fullkomnasta dæmið um demókratíska sjálfstjórn, sem til er í öllum mannanna sögum, er ekki frá Engil-Söxum, heldur frá hinu óblandaða norræna kyni þjóðarinnar á Íslandi.

Íslandi er svo háttað, að menn gætu búist við, að það væri síðasti staðurinn, þar sem birtist hin fullkomnasta demókratíska sjálfstjórn. Þessi einkennilega eyja, snævi þakin og full af eldfjöllum, úti við baug Norðurhafsins, er svo fátæk og ófrjó, að það mætti virðast augljóst, að dreift fámennið yrði svo aðþrengt í baráttunni fyrir lífinu, að enginn tími ynnist fyrir félagslegt líf eða hugsanalíf. Auk þess voru fyrstu norsku landnemarnir ekki á háu menningarstigi. Þeir voru ómentaðir víkingar, gefnir fyrir rán, dýrkuðu heiðna guði og stóðu ekki í neinu sambandi við menningu Evrópu. En þessir hálfviltu menn, sem lentu við berar strendur Íslands fyrir meira en þúsund árum síðan, höfðu í blóði sínu svo mikinn félagslegan, hagkvæman þroska, að þeim tókst að setja á stofn lýðveldi, sem varð stórfurðulegt að eðli. Stjórnskipun lýðveldisins var í engu öðru falin en löggjafar- og dómþingi. Það þurfti ekki að halda á framkvæmdarvaldi né lögreglulíði. Fulltrúar þjóðarinnar hittust og komu sér saman um hvað gera skyldi og hvað skyldi vera lög. Dómurinn túlkaði lögin í vandamálum. Þjóðin gerði það, sem á vantaði, af frjálsum vilja. Og þessi furðulega stjórn hélst við með góðum árangri um margar aldir."

Þetta eru sannarlega ekki ómerkileg ummæli. Og það vekur oss til umhugsunar um það, hvort svo raunalega hafi í raun og veru

ekki tekist til, að tekið hafi verið fyrir þroska vorn, íslenzkra manna, í þúsund ár. Jæja, hvað sem um það er, þá er vissulega ómaksins vert að gera sér grein fyrir, hvernig þeim þroska var áður farið, að því leyti, sem vér getum gert oss hans grein, og hann birtist í stofnunum þjóðfélagsins. Enginn þekkir sjálfan sig, sem ekki þekkir að einhverju leyti sína eigin þjóð og hennar forlög, sigur og ósigur. Með því einu móti er þess nokkur kostur að átta sig á, hvort maður er sjálfur að stefna aftur á bak eða áleiðis. Það vill svo til, að nú er mikið talað manna á meðal um heimferð til Íslands 1930. Hvað sem úr þeirri för verður, þá er sá atburður, sem minnast á, frábærlega merkur fyrir oss — engu síður fyrir oss, sem höfum farið hingað vestur um haf og tekið oss hér bólfestu, heldur en fyrir hina, sem heima eiga á Íslandi. Athöfnin verður til þess, engu síður fyrir oss en þá, að gerður verður upp reikningurinn að einhverju leyti um það, hvort vér höfum ástæðu til þess að líta svo á, sem oss hafi hnignað svo, að stefnt sé til dverglífs í samanburði við það, sem búast hefði mátt við. Fyrir þá sök ætla eg ekki að biðja neinnar afsökunar á því, þótt eg drepi hér á örfá atriði ,sem að þessu máli lúta.

Mörgum kann að virðast þessi ameríski sagnfræðingur taka alt of djúpt í árinni með orðum þeim, er eg hafði eftir honum, er hann þykist finna hjá hinni íslenzku þjóð ákveðnari og greinilegri einkenni þess, en annarsstaðar, sem sé innst inni í hugsjón og vilji hinna germönsku þjóða. En sé það rétt, sem hann segir, þá er það víst, að vér höfum ástæðu til þess að búast við, að með þjóð vorri séu faldir vaxtarmöguleikar, sem vér höfum vanrækt nokkuð eða ekki veitt nándar nærri þá athygli, sem vert er og skylda vor að gera, ef vér viljum vera sjálfum oss trú. En er þetta rétt? Var eitthvað að gerast, þegar íslenzk þjóð var sett út úr og fjarri öðrum þjóðum, sem vert sé að taka eftir?

Ameríkumaðurinn segir, að menning þeirra manna, sem fyrst komu til Íslands, hafi verið hrá, og að mörgu leyti nokkuð svolaleg. Þetta er vafalaust rétt að töluverðu leyti.*) En þó eru menn ekki búnir að vera nema sem svarar æfi einnar kynslóðar í landinu, þegar komin eru upp héraðaþing í mörgum sveitum, og vitrir menn hætta ekki fyr, en samþykt er að gera alt landið að lögskipuðu þjóðfélagi. En þeir hrapa að engu. Þeir velja þann manninn, sem kunnastur var fyrir lögvísi allra landsmanna og láta hann rannsaka löggjöf móðurlandsins, Noregs, í þrjú ár með tilhjálp hinna spökustu manna, til þess að átta sig á hverju eigi að hafna og hvað eigi að nota í hinu nýja landi. Og hver verður svo árangurinn? Þeir gera

*)Hinsvegar er heldur enginn vafi á því, að langsamlega of mikið orð hefir á þessu verið gert. F. C. S. Schiller telur líklegt að þjóðlífssaga Íslands, er numið hafi verið af ótömdum einstaklingshyggju-mönnum, varpi ljósi yfir aðferðir lífsins til þess að temja einstaklinginn (Tantalus or the Future of Man). Líklegast er í flestar áttir betra að leita eftir slíkum dæmum.

fyrst og fremst eina stórkostlega uppgötvun. Hún er sú, að landið geti alt verið eitt ríki, allir landsmenn verið ein samfeld þjóðheild, án þess að nokkur einn maður sé settur til allsherjar stjórnar. Þessi hugsun er svo róttæk, að á þeim tíma var ekkert til í heiminum er henni samsvaraði. Í Noregi voru fjöldi smákonunga og síðan einn allsherjar konungur. Á Íslandi verður enginn. Hinir beztu og myndarlegustu bændur verða foringjar og forgöngumenn sinna héraðsbúa. Þeir voru nefndir goðar og höfðu á hendi hina formlegu helgiþjónustu, því að alt þjóðlífið var nátengt trúarbrögðunum, en vald goðanna var svo að segja alt komið undir manndómi þeirra sjálfra. Væru þeir að eðlisfari engir foringjar, þá leituðu menn blátt áfram til annara, sem þeim voru fremri.

Nú mætti ætla, að þar sem svo er til stofnað og hér var gert, hlyti öll löggjöf að fara í ólestri og endirinn að verða upplausn félagslífsins. Stundum fáum vér líka þessar hugmyndir af því að lesa sögur vorar. En þar er þess að gæta, að sögur fjalla yfirleitt um það, sem aflaga fer, því að það er æfintýralegra, *sögulegra*. Auk þess var menningin ung. En mest er um það vert, að veita því athygli, hvert *stefnt* er, hvað er verið að leitast við að gera. Og hér er áreiðanlega verið að reyna að gera hitt og annað, sem er nýstárlegt.

Sagnfræðingar vorir hafa bent á, að *fátækralöggjöf* Íslendinga til forna hafi verið að miklum mun fullkomnari og ákveðnari en dæmi voru til á þeim tímum í öðrum löndum. Það verður ekki einungis siðferðisleg skylda, heldur og lagaleg skylda að sjá þeim mönnum farborða, sem ekki voru þess umkomnir að gera það hjálparlaust. Um það leyti sem svo var háttað suður um öll lönd, að það eitt var í raun og veru úrræði þeirra manna, sem undir höfðu orðið í lífsbaráttunni, að skreiðast betlandi um á þrepum kirkna og klaustra, ef þeir áttu ekki að deyja drotni sínum í holum og afkimum borganna, þá var svo til ætlast með löggjöf á Íslandi, að ytra lífi hvers aumingja skyldi borgið, og hefir þó lífsbaráttan naumast verið léttari þar en annarsstaðar.

Nokkurs er og um vert að athuga það, að í hinni fornu löggjöf er svo fyrirmælt, að hrepparnir væru *ábyrgðar og vátryggingarfélög* til þess að bæta hreppsbúum skaða, sem kynni að hljótast af eldsvoða eða sótt í nautgripum. Ef bóndi misti úr sótt minsta kosti fjórða hluta af gripum sínum, þá var skaðanum jafnað niður á alla hreppsbúendur. Sama var um eldstjón að segja. Hér er vissulega um skilning á félagslífi mannanna að ræða, sem ekki hefir enn, þúsund árum síðar, fundið þann búning, sem sæmilegur geti talist.

Alþingi Íslendinga hefir eigi staðið nema skamma stund, er það er í lög leitt að banna *hólmgöngur* eða einvígi. Nú á tímum virðast þetta nokkuð sjálfsögð fyrirmæli, en ómaksins er það vert að taka eftir því, að sams-

konar löggjöf kemst ekki á í Englandi, Frakklandi og Þýskalandi fyr en átta til níu hundruð árum síðar. Eitthvað merkir þetta í löggjöf manna, sem svo höfðu vanist við vopnaburð, sem forfeður vorir fyrir meira en níu öldum.

Og í því sambandi er fróðlegt að veita því athygli, að þótt eigi væri á þeim tímum litið sömu augum á mannvíg, sem nú er gert, þá hvíldu þó svo þungar sektir á slíkum afbrotum, að vart er annað hugsanlegt, en að þær hafi hlotið að sliga hvern meðalmann fjárhagslega. Fræðimaður einn hefir tjáð mér, að hann hafi veitt því athygli, að bætur fyrir frjálsborna menn í Englandi í tíð Elfráðar ríka hafi eigi verið hærri en fyrir þræla á Íslandi.

Eg fæ nú ekki undan því komist, þegar eg renni huganum yfir öll þessi atriði, að þau séu þess merki, að þarna hafi verið frábærir þroskamöguleikar á ferðinni. Hér eru hugsanir að brjóta sér veg, sem áreiðanlegt er um, að ekki hafa fundið sæmilegan farveg enn hjá neinni þjóð. Bak við þetta alt saman er sú skapgerð eða það tilfinningalíf, sem trúir á manngildið og hefir virðingu fyrir manninum. Íslendingar mistu vald á lífi sínu um óralangt skeið og nærri lá að þessi lund dæi alveg út eða sæist í dvergmynd einni. En þetta var með þeim falið.

Og hvað er þetta þá, sem eg hefi verið að reyna að gera grein fyrir? Sé það rétt, sem eg hefi verið að halda fram, að þarna væri birt í frumlegu formi sú stefna, sem táknuð er með lýðræði á nútíðarmáli, þá er það líka víst, að fortíð vor tekur höndum saman við það, sem merkilegast er í félagslegri viðleitni hinna mestu menningarþjóða nútímans. Öll umbótastefna leitar þess, hvernig á að vernda manninn og manngildið fyrir þeim óvinum, sem á hann sækja? Hvernig á að búa svo um, að maðurinn verði verndaður fyrir því að vera rekinn í hjörðum til slátrunar, þegar einhverjir blindir kraftar seilast eftir auðlindum heimsins? Hvernig á að koma högum svo fyrir, að maðurinn sé ekki háður því, sem Wilson Bandaríkjaforseti nefndi: "economic serfdom" — þeirri tegund mansals, sem algengust er á vorum tímum? Hvernig á að skapa þá menningu, þar sem maðurinn er í öndvegi og alt annað skör lægra?

Eg fæ ekki annað séð, en að þetta sé sama viðleitnin í dag, sem sú er birtist á svo einstæðan hátt í upplagi þeirra manna, sem stofnuðu ríki úti í Atlantshafi fyrir þúsund árum, og fóru þá aðrar leiðir en nokkrir menn höfðu áður farið. Dirfska nýjunganna bjó í þeim. Heilagur andi hins tilbreytingaríka lífs var yfir þeim. Á máli trúarbragða mætti segja að þeir hafi vaxið að náð. Því að þetta er að minni hyggju það, sem felst í því, sem á trúarlegu máli er nefnt náð. Náðin er það, er tilveran hefir gefið manninum nýja hvöt, sannari skilning og æðri vilja til fullkomnara lífs. Náðin er það, sem lyftir manninum upp yfir gamla ófullkomleika, fæðir manninn að nýju, gerir hann að vopni í baráttu hins unga lífs

heilags anda. Og hafi nokkurir menn endurfæðst, þá voru það þeir, er svo voru róttækir, að þeir lögðu nýjar undirstöður frá grunni fyrir sjálfa sig, svo að segja um leið og þeir urðu að þjóð.

Eg sagði áðan, að forfeður vorir hefðu mist vald á lífi sínu er frá leið. Einhver skemd kom í lífstré þeirra, þegar vöxturinn sýndist allra glæsilegastur. Sturlungaöldin skall á eftir friðaröldina. Eg hefi ekki þekkingu til þess að rekja, hvernig á þeim sorgarleik stóð. Hitt vita allir, að þjóðin lifði dverglífi þaðan af um margar aldir, hvað sem síðar kann að verða.

Ýmsir menn með íslenzkri þjóð virðast hafa töluvert greinilegt hugboð um, að á þessu sé nú að verða allákveðin breyting. Enginn getur veitt verulega athygli þeim breytingum, sem eru að verða á háttum manna á Íslandi, án þess að láta sér skiljast, að breytingarnar eiga mikið skylt við vöxt og gróður. En fyrir Íslendinga, er hér búa, skiftir enn meiru, að hvaða niðurstöðu þeir komast um sitt eigið líf. Verður sagt, að hér sé stefnt nokkurnveginn eins beint í áttina til farsældar þroskans, eins og sanngjarnt sé að ætlast til?

Þessi spurning er ekki vakin til þess, að henni verði hér svarað endanlega, heldur til þess, fyrst og fremst, að skilja hana eftir í hugum manna, því hér á það við eins og annarsstaðar, að vér náum aldrei langt sem þjóðflokkur, ef vér ekki gerum oss far um að þekkja sjálf oss betur en vér gerum nú. Það er verkefni fyrir fróðleiksmann, að semja sögu Vestur-Íslendinga. Og eitt af því, sem eg held að sá maður mundi benda á, er þetta:

Íslendingar hér í landi hafa aðallega fengist við þrjár tegundir af atvinnugreinum. Þeir hafa verið bændur, kaupsýslumenn og iðnaðarmenn. Í öllum þessum greinum hafa þeir reynst hafa farsælar gáfur, en ekkert þar fram yfir. Vér höfum fengið allgóðan orðstír, sem landnemar og borgarar. En sannleikurinn er sá, að vér höfum verið alt of lítilþægir og lágt hugsandi um oss sjálfa. Og vér höfum ekki þekt vorar eigin takmarkanir. Eg hygg að það liggi í sjálfu blóði voru og upplagi, að vér verðum ávalt eftirbátar þjóða eins og Dana um búskap. Það er ekkert, sem bendir á það, að nokkur Íslendingur hafi haft þolinmæði Skotans eða snilligáfu Gyðingsins við kaupskap. Reynslan í þessu efni er nákvæmlega sú sama hér, eins og hún hefir verið á Íslandi. Og í báðum álfunum hefir reynslan verið sú um íslenzka menn, að það er sem þeir nái sér fyrst niðri við tvennskonar störf. Heima við strendur Íslands hafa þeir reynst harðvítugastir sjósóknarar heimsins. Og kunnugur maður hér í norðurhluta álfunnar hefir sagt mér, að naumast muni vera til nokkurt veiðivatn frá Manitoba til Kyrrahafs, þar sem Íslendingur sé ekki við verk. Þetta mun ekki vera nein tilviljun. Og hitt mun heldur ekki vera nein tilviljun, hvernig farnast hefir um þá menn yfirleitt, sem komist hafa út úr hinum

almennu verkefnum og inn á brautir hinnar æðri mentunar.

Það ,sem síðast hefir verið bent á, þarf ekki að rekja. Enginn þjóðflokkur í Norður-Ameríku á tiltölulega jafn marga stór-myndarlega lækna, eins og þessi (nema ef vera skyldu Gyðingar). Nokkrir menn hafa reynst meira en liðtækir við vísindastörf. Merkilega margir hafa rutt sér braut að virðulegum fræðslustofnunum. Forystuhæfileikar í stjórnmálum virðast ekki sjaldgæfari hér en annarsstaðar, því í þeim efnum virðist metnaðinn skorta meira en hæfileikana. Ýmsir prestar hafa reynst glöggir vitmenn. Og öll eru þessi dæmi fleiri og ákveðnari en svo, að til mála geti komið að telja þau tilviljun.

Og á hvað bendir þetta alt saman, þegar yfir það er litið í heild? Það er engin nýjung, þótt á það sé bent, að allar þjóðir séu ekki jafnhæfar fyrir allan starfa. Hitt væri nýjung, ef heil þjóð léti sér þá vitneskju svo að kenningu verða, að hún skipaði öllu lífi sínu samkvæmt henni. Og um þessa þjóð—íslenzka menn—er það vitanlegt, að það eru tvenskonar störf, sem henni láta betur en nokkur önnur. Annað er baráttan við höfuðskepnur náttúrunnar, og hitt er glíman við andlegar gátur og raunir. Vestur-Íslendingar hafa þennan arf í brjósti sér, hvort sem þeir eru sér þess meðvitandi eða ekki. Svo bent sé á enn eitt dæmi, sem fram er komið af líffræðilegri hvöt, en ekki af tilviljun, þá má geta þess, að þegar Íslendingur getur sér heimsfrægð fyrir afrek sín hér í álfu, þá er það fyrir það, að hann hefir sameinað þessa eiginleika hvorutveggja. Vilhjálmur Stefánsson er frægastur núlifandi Íslendingur fyrir að ganga á hólm við höfuðskepnurnar og fyrir að leysa með vitsmunum sínum úr gátu norðursins.

Eg get ekki að því gert, að mér finst vér mega af þessum dæmum öllum nokkuð læra. Og fyrst og fremst það, að það er skylda vor við sjálf oss og niðja vora að gera það sem í voru valdi stendur, til þess að hugur og metnaður hinnar yngri kynslóðar horfi í þá átt, sem er gáfum hennar samkvæmast. Nú er meginþorri íslenzkra manna hér í álfu við búskap eða kaupsýslu. Þetta eru þörf störf, en metnaður vor getur ekki legið á leiðum þeirra, vegna þess, að aðrar þjóðir hafa, að því er séð verður, langsamlega mikið betra upplag til þeirra starfa. Vér verðum að nota þau störf og fást við þau—ekki sem framtíðaratvinnuvegi þjóðflokksins, heldur sem lyftu upp í önnur störf, sem oss eru hugnæmari og eðlilegri. Og þau störf eru, eins og nú er í haginn búið þessa stundina, öll bundin við æðri mentun. Mér hefir verið sagt af kunnugum mönnum, að um það leyti, sem þeir menn voru að alast upp, sem nú eru miðaldra, þá hafi það verið metnaður manna í íslenzkum fjölskyldum víðsvegar út um bygðir, að sjá um að minsta kosti einn maður af fjölskyldunni kæmist til menta. Að þessu unnu allir, sem eitthvað var skylt málið. Nú er mér tjáð, að þetta sé mjög að breytast. En það verður

að breytast aftur. Köllun Íslendingsins liggur í gegnum hin æðri mentastörf, eða hún er ekki til. Og þegar þjóðflokknum í heild sinni verður það ljóst, þá skapast hið sérkennilega fyrirbrigði, sem ætla má að Vestur-Íslendingurinn geti orðið. Enn virðist hann ekki vaknaður til meðvitundar um íbúandi krafta sína. Væri hann það, þá væri hann þegar búinn að skrifa eitthvert verulegt skáldrit í óbundnu máli. Frá upphafi nafns Íslendingsins hefir honum verið gefið það í vöggugjöf að geta ritað. Og það er hér meðal Vestur-Íslendinga, þar sem lýstur saman áhrifum hins mikla starfandi ameríska heims og hinu íhugula upplagi hins einangraða anda um aldir, sem skilyrði ættu að vera fyrir því, að mikið skáldrit væri samið.

Sumir missa móðinn, ef hugsað er stórt fyrir þjóð þeirra. En að því er séð verður, þá virðist það vilji Íslendinga í Ameríku að verða myndarlegir fóstursynir hinnar miklu álfu. Þeir eru drottinhollir við Kanada og Bandaríkin. En að verulegu gagni kemur það þá fyrst, er þeir hafa til fulls áttað sig á, hvað þeir eiga að gefa. Þeir eiga ekki fyrst og fremst að gefa handafla sinn, heldur sjálfa sig, anda sinn, sál sína. Þeir eiga að gefa álfunni íslenzka, vitra mentamenn. Geri þeir það, þá lifir Vestur-Íslendingurinn. Geri þeir það ekki, þá verður hann dvergur.



# Níunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Hið níunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var sett í Goodtemplarahúsinu í Winnipeg þriðjudagsmorguninn 21, febr. 1928 kl. 10 f. h. Forseti félagsins séra Ragnar E. Kvaran setti þingið. Bað hann fundarmenn að rísa úr sæti og syngja sálminn nr. 638 eftir séra Matth. Jochumsson ("Faðir andanna") áður en til þingstarfa væri tekið. Flutti hann að því loknu forseta skýrsluna, ítarlegt og ágætt erindi yfir starfsemi félagsins á liðnu ári. Gat hann nokkurra merkra Íslendinga, er andast hefðu á árinu, en sérstaklega þeirra skáldsins Stepháns G. Stephánssonar og fyrv. dómsmálaráðherra Thomasar H. Johnson. Að erindislokum mæltist hann til þess að þingheimur stæði á fætur í virðingarskyni við minningu þeirra og var það gert.

B. B. Olson stakk upp á að þingheimur þakkaði forseta erindið og starf hans á árinu í þágu félagsins með því að standa á fætur, bar hann sjálfur upp tillöguna, er var samþykt í einu hljóði. Var þá skorað á forseta að birta skýrsluna strax í báðum íslenzku blöðunum og bíða eigi með það að fundarbók yrði prentuð. Veitti forseti leyfi til þess að fengnu samsamþykki þingsins.

Þá gat forseti þess, að samkvæmt breytingum er gerðar hefðu verið á lögum félagsins á síðasta þingi, er heimtuðu fulltrúakosningu til þings, væri óhjákvæmilegt að skipa nefnd til að yfirlíta kjörbréf slíkra fulltrúa, og ákveða atkvæðisrétt félagsmanna innan þings að þessu sinni. Tillaga frá B. B. Olson að forseti skipi þriggja manna kjörbréfanefnd var samþykt, og þessir útnefndir: Jón J. Bíldfell, séra Rögnv. Pétursson og B. B. Olson. Krafðist nefndin kjörbréfa þeirra fulltrúa er á þingi vóru staddir og vék því næst afsíðis til starfa.

Þá gaf skrifari félagsins, hr. E. P. Jónsson ritstj. Lögbergs, munnlega skýrslu yfir skrifarastörfin. Kvað hann samvinnu hafa verið hina beztu. Tólf stjórnarnefndarfundir verið haldnir á árinu og margvísleg mál verið afgreidd og sum erfið. Skýrði hann þá frá því að sökum annríkis gæti hann ekki sint skrifarastörfum þingsins, hefði hann því fengið annan mann, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson til þess að gegna því verki fyrir sig og mæltist til að þingið og forseti veitti samþykki til þess. Virtist þingið ánægt með þessar ráðstafanir, og tók dr. Sig. Júl. Jóhannesson við ritstörfunum.

Var þá tillaga borin upp og samþykt, um að skipa dagskrárnefnd. Skipaði forseti þessa: A. B. Olson, Jakob F. Kristjánsson og Á. Sædal.

Féhirðir, hr. Árni Eggertsson las upp skýrslu yfir fjárhag félagsins yfir árið 1927. Var skýrslunni útbýtt á prenti meðal fundarmanna. Voru þar dregnir saman í eitt reikningar fjármálaritara, féhirðis og skjalavarðar. Bar skýrslan með sér frábæran dugnað og ágæta frammistöðu þessara embættismanna. Tekjur á árinu höfðu orðið rúmir $3,-560.00 en útgjöld rúmir $2,500.00. Í sjóði við árslok voru $3,032.54. Helztu inntektaliðir voru þessir: Ársgjöld félagsmanna og deilda..........$ 564.68
Auglýsingar í Tímaritinu...... 2,373.50
Seld Tímarit og bækur........ 421.25
Verðlaun gefin af Aðalst. Kristjánssyni ................ 100.00

*Helztu útgjöld voru þessi:*

| | |
|---|---|
| Prentun Tímaritsins .......... | $ 913.39 |
| Ómakslaun fyrir auglýsingasöfnun .............. | 593.38 |
| Ritstjórn og ritlaun ............ | 259.14 |
| Kenslulaun í íslenzku .......... | 375.00 |
| Ritföng og auglýsingar ........ | 140.16 |
| Veiting til Jubilee nefndar 1 júlí 1927 .............. | 100.00 |
| Veiting til heimferðarnefndar 1930 ..................... | 100.00 |

Styrkur til deildarinnar "Brúin" Selkirk .................... 50.00
Greiddur ferðakostnaður ...... 96.64
Kostnaður við þinghald 1927 .. 40.00

Alls nema eignir félagsins eftir matskrá yfirskoðunarmanna, í bókum, peningum og útistandandi auglýsinga gjöldum í 9. árgangi Tímaritsins $8,790.64, og þó ótalinn 9. árgangur ritsins, en á honum hvíla skuldir; prentun, auglýsingasöfnun, ritlaun, o. s. frv.

Féhirði var þökkuð skýrslan, og samkvæmt tillögu frá A. P. Jóhannssyni, henni vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. B. B. Olson las þá upp af hálfu endurskoðenda, svohljóðandi skýrslu:

"Til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, Herra forseti, háttvirtir þingmenn:

Vér, sem kosnir vorum til að yfirskoða reikninga og eignir félagsins, leyfum oss að leggja fyrir yður eftirfarandi álit og skýrslur embættismanna félagsins. Oss er sönn ánægja, að lýsa því yfir að vér höfum fundið reikningshöld í góðu lagi, bækur rétt færðar og alt vel af hendi leyst; ennfremur að fjárhagur er nú betri og blómlegri en nokkru sinni áður.

Vér finnum að hjá skjalaverði eru nokkur (gömul) eintök Tímaritsins, færð til reiknings hjá fyrv. útsölum., er hæpið mun að talin verði til eigna. Leggjum vér því til að stjórnarnefndinni sé heimilað að strika þessar skuldir af bókum skjalavarðar, sem hann og stjórnin telja óinnheimtanlegar.

Fjármálaritari hefir komið fjármálaritarabókunum í ágætt lag og á hann miklar þakkir skilið fyrir það starf sitt á árinu.

Féhirðir leggur fyrir yður skýrslu sem óefað er sú bezta er enn hefir verið lögð fram á þingi. Honum hefir ekki eingöngu heppnast að innheimta á liðnu ári stærri upphæð fyrir auglýsingar en nokkuru sinni áður heldur hefir hann safnað í "Tímaritið", sem nú er prentað og verður lagt fram hér á þinginu, auglýsingum, er nema $2,573.00. Er það meira en nokkuru sinni áður hefir verið. Öll skjöl og bækur hafa verið nákvæmlega yfirskoðaðar, og er oss ánægja að votta að alt er það rétt og verk hans í þarfir félagsins unnið með dugnaði og hagsýni. Oss er því ánægja að leggja til, að um leið og þingheimur tekur við þessum skýrslum embættismanna sinna, votti hann þeim og félagsstjórninni allri þakklæti sitt fyrir vel unnið starf á árinu.

Winnipeg 18. febr. 1928.

*B. B. Olson,*
*Walter Jóhannsson,*
Yfirskoðunarmenn."

Tillaga þessi var studd og samþykt í einu hljóði.

Formaður dagskrárnefndar J. F. Kristjánsson, lagði þá fram eftirfarandi skýrslu:

Dagskrárnefndin leggur til að eftirfarandi dagskrá sé fylgt:

1. Þingsetning,
2. Ársskýrsla forseta,
3. Skipun kjörbréfanefndar,
4. Skipun dagskrárnefndar,
5. Skýrslur annara embættismanna og milliþinganefnda,
6. Sveitardvöl ísl. barna úr Winnipeg,
7. Bókasafn félagsins,
8. Húsabyggingarmál,
9. Útgáfumál, "Tímaritið" o. fl.,
10. Samvinnumál við Ísland,
11. Söngkenzlumál,
12. Íslenzk kensla,
13. Útbreiðslumál,
14. Íslandsför 1930,
15. Íþróttamál,
16. Björgvinsmál,
17. Löggilding félagsins,
18. Kosning embættismanna kl. 2 e. h. síðasta þingdag, 23 febr. 1928.
19. Ný mál.

Winnpeg 21. febr. 1928.
J. Kristjánsson, Á. Sædal, A. B. Olson."

Enn var ekki komin skýrsla kjörbréfanefndar. Las þá forseti upp skýrslu frá stjórnarnefnd deildarinnar "Frón" í Winnipeg, og afhenti ritara; gat þess að nefndarálit yrði ekki afgreidd fyr en gengið væri frá skýrslu kjörbréfanefndar, er úrskurði hverjir væri atkvæðisbær-

ir á þinginu. Var því þingi frestað til kl. 2 e. h.

2. fundur settur kl. 2 e. h. Forseti gat þess að kjörbréfanefndarálitið væri enn ókomið, halda mætti áfram með skýrslur en þær yrði ekki afgreiddar. Las hann þá upp svo látandi skýrslu milliþinganefndarinnar er kosin var til að hafa til meðferðar sveitadvöl ísl. barna úr Winnipeg.

"Til Þjóðræknisþings Ísl. í Vesturheimi:

Nefndin, sem á síðasta þingi 1927 var sett í málið, "sumarfrí barna," átti fund með sér að heimili forseta, frú Þórunnar Kvaran 3. júní síðastl. og ákvað þá að birta í báðum íslenzku vikublöðunum, erindi þess efnis, að biðja þá sem kynnu að vilja taka unglinga yfir sumarmánuðina, sem og þá er kynnu að vilja koma unglingum fyrir í dvöl þá mánuði júlí og ágúst, að láta eitthvað af nefndarfólkinu vita um það fyrir 28. júní. Bæði blöðin birtu þetta erindi með glöðu geði og tóku enga borgun fyrir, en samt fékk nefndin ekkert verkefni og gerði þess vegna ekki neitt.

Winnipeg 18. febr. 1928,

Virðingarfylst,

*B. Magnússon skrifari nefndarinnar.*"

Árni Eggertsson lagði til að skýrslan væri viðtekin, samþ. Mrs. Swanson sagði lítinn áhuga hafa komið fram í þessu máli, örfáar fyrirspurnir og sömuleiðis fá tilboð.

Þá var tekið fyrir bókasafnsmálið. Lagði félagsstjórnin fram frumvarp til reglugerðar fyrir því, er svo hljóðar:

"Frumvarp að reglugerð um útlán bóka úr bókasafni Þjóðræknisfélagsins:

1. gr. Skjalavörður félagsins er bókavörður.

2. gr. Bókasafnið skal vera opið til útláns fyrir félagsmenn einu sinni í viku tvær stundir í senn.

3. gr. Hverjum félagsmanni skal heimilt að fá tvær bækur að láni í senn um tveggja vikna tíma, endurgjaldslaust.

4. gr. Utanfélagsmenn eiga kost á að fá lánaðar bækur úr safninu gegn 20 centa greiðslu fyrir hverja bók í tvær vikur.

5. gr. Skili lánandi ekki bók á tilsettum tíma skal hann greiða fimm cent fyrir hvern dag, sem fram yfir er.

6. gr. Hverjum þeim er fær bók að láni úr safninu, skal skylt að skila henni aftur óskemdri, enda greiði hann fullar bætur samkvæmt mati bókavarðar, ef skemdir verða. Sætti lántakandi sig ekki við mat bókavarðar, getur hann skotið máli sínu til stjórnarnefndar, sem þá sker úr.

7. gr. Bókavörður skal halda skrá yfir allar bækur í safninu og skal sú skrá jafnan vera handbær félagsmönnum á útlánstímum.

8. gr. Félagsstjórnin greiði bókaverði $50.00 á ári í þóknun fyrir starf sitt."

Var frumvarpið tekið til umræðu. A. P. Jóhannsson kvaðst vera því andstæður að félagið stofnaði bókasafn til útláns í Winnipeg. Vildi hann láta það gangast fyrir því að bókasöfn væru stofnuð víðsvegar út um sveitir, en þeim haldið við sem til væri. J. J. Húnfjörð tók í sama streng, kvað bókasafn vera í sinni bygð. sem mikið væri notað. Forseti skýrði málið og kvað það mundi koma til umræðu og úrslita síðar. Sig. Baldvinsson var eindregið með því að bókasafn yrði stofnað í Winnipeg, en að bækur skyldu ekki lánaðar út fyrir takmörk bæjarins. Málinu var frestað til seinni tíma.

Árni Eggertsson gerði þá grein fyrir húsbyggingarmálinu. Litlar framkvæmdir orðið á árinu. Vék hann að því að nauðsynlegt væri að löggilda félagið. Gat þess enn fremur að dr. Ágúst Blöndal hefði komið til sín fyrir hönd nokkurra manna, er vissu til þess að hr. Emile Walters, listmálari, myndi fáanlegur til að koma hingað norður á næsta sumri, um sex vikna tíma, og segja íslenzkum ungmennum til við dráttlist og listmálning. Kvað hann dr. Blöndal fúsan til að koma á þingið og skýra þetta mál.

Enn var skýrsla kjörbréfanefndar ókomin, lýsti forseti því yfir, að á meðan

yrði tekin fyrir 19. liður hinnar væntanlegu dagskrár, *Ný mál*.

Las hann eftirfylgjandi skýrslur deildanna "Iðunn" í Leslie Sask. og "Brúin" í Selkirk, Man.

"Þjóðræknisdeildin "Iðunn" í Leslie, Sask., hefir á starfsárinu frá 7. febr. 1927—13. febr. 1928 haft 8 lögmæta fundi. Einnig hefir hún haft 3 arðberandi og uppbyggilegar skemtisamkomur, sem allar hafa verið vel sóttar af bygðarbúum. Ennfremur hefir deildin starfað í sambandi við Wynyard deildina "Fjallkonan" að söngkenzlu unglingafólks, er tilsagnar og æfingar hefir notið frá hendi hr. Brynjólfs Þorlákssonar, svo sem kunnugt er. Deildin hefir og lagt $65.00 í námssjóð Björgvins Guðmundssonar, en aðallega vinnur deildin að því að auka bókasafn, sem hún hefir umsjón með og og á mikið af góðum og fræðandi bókum og tímaritum. Deildin telur 50 góða og gilda meðlimi.

"Skýrsla skrifara þóðræknisdeildarinnar "Brúin" yfir árið 1927 lesin upp og samþykt á deildarfundi 10. jan. 1928.

Deildin "Brúin" hefir á síðastl. ári haldið 10 starfsfundi; átta af þeim reglulegir fundir, 2 aukafundir, ennfremur 7 skemti- og spilafundi, þar sem fólk hefir komið saman og spilað og rabbað yfir kaffi og góðgæti eins lengi og hverjum hefir þóknast.

Til peninga öflunar hefir deildin gert þetta: Haldið eina hlutaveltu, 1 dansleik, og 1 sjónleik. Deildin hefir varið peningunum þannig: látið kenna íslenzku í fimm mánuði; styrkt með fjárframlögum glímu- og líkamsæfingar unglinga, styrkt fjárhagslega þátttöku íslendinga í 60 ára Jubilee hátíð Canada bæði hér í bænum og í Winnipeg.

Meðlimir deildarinnar eru 85 alls.
Selkirk, 7. jan. 1928.

Guðjón S. Friðriksson, ritari.

Lesin var eftirfarandi skýrsla deildarinnar "Harpa" í Winnipegosis:

"Skýrsla Þjóðræknisdeildarinnar Hörpu, Winnpegosis, Man., yfir árið 1927.

Fundahöld 4 þessa daga: 3. marz, 4. apríl (ársfundur), 11. maí og 11. júlí. Á ársfundi voru kosnir embættismenn deildarinnar fyrir það ár,, forseti: Ármann Björnsson; varaforseti: G. F. Jónasson; féhirðir: Sigurður Oliver; varaféh.: T. H. Oliver; bókavörður: Malvin Einarsson; skrifari: Finnbogi Hjálmarsson; varaskrif.: Guðmundur Guðmundsson; yfirskoðunarmenn reikningsbóka og skjaladeildarinnar: Ól. Jóhannsson og Sigurður Magnússon.

Barnakensla í íslenzku fór fram í 22 daga af júlímánuði. 23 börn nutu tilsagnar. Þau voru á aldrinum 7 til 16 ára. Sóttu vel námið. Kennari Mrs. Óskar Friðriksson. Meðlimatala deildarinnar er nú 39 fullorðnir og 16 unglingar og börn—55 alls.

Deildin hefir beðið hr. Brynjólf Þorláksson að vera hér við söngkenslu næstkomandi aprílmánuð.

16. febrúar 1928.

*F. Hjálmarsson*, ritari.

Tók hr. Björn Magnússon þá til máls, með leyfi forseta, og flutti ítarlegt erindi um "Skógræktun á Íslandi". Var óskað eftir, að erindi þetta yrði birt á prenti. Forseti lofaði þjóðræknishugsanir ræðumanns og lýsti aðdáun sinni yfir því, að þessi maður, er mikinn aldur æfi sinnar hefði dvalið í óbygðum skyldi, í einverunni, hafa haft hugann fullan af hlýleika til Íslands og koma hér fram með ávöxt þeirra hugsana í ákveðinn tillögu. — Séra J. P. Sólmundsson tók í sama streng, áleit hugmynd tilögumanns góða, þótt hugsanlegt væri, að erfiðleikar kynnu að finnast á framkvæmdum. — Séra Jónas A. Sigurðsson þakkaði Birni Magnússyni fyrir að hafa skrifað um málið og flutt það hér. Kvað hann hinn mesta myndarbrag vera á flutningi þess, og lagði til þess að það væri tekið upp á dagskrá. — Árni Eggertsson kvað hugmynd Björns Magnússonar vera þá, að þegar heim væri farið 1930, hefði hver sá er heim færi, meðferðis fræ til sáningar í sínu héraði. Væri þetta fögur hugmynd.

Ungfrú Þorstína Jackson frá New York, var stödd á þingi. Kvað hún það áhugamál Emile Walters, að tilraunir

yrðu gerðar til þess, að "klæða landið". Hefði hann skrifað bréf um þetta til stjórnarinnar á Íslandi. Væri þeir þannig að vinna að sama máli, hvor í sínu lagi og hvor án vitundar annars.

Árni Eggertsson studd tilögu séra Jónasar. Forseti ákvað að málið skyldi tekið upp og bauð þinginu að ræða það. — Dr. Sig. Júl. Jóhannesson lagði til, að kosin væri þriggja manna milliþinganefnd í málið, er leitaði samvinnu um það við þá Björn Magnússon og Emile Walters. — Séra Jónas A. Sgurðsson vildi láta kjósa þingnefnd, en ekki milliþinganefnd. — J. F. Kristjánsson vildi heyra álit flutningsmanns, er lýsti yfir því, að hann kysi heldur þingnefnd.— Milliþinganefndartillagan dregin til baka.

Hafði þá kjörbréfanefndin lokið starfi og las séra Rögnv. Pétursson upp svohljóðandi nefndarálit:

"Skýrsla kjörbréfanefndar:

Eftir nákvæma athugun 20. og 21. gr. grundvallarlaga félagsins og með samkomulagi við alla hlutaðeigandi deildarfulltrúa, og umboðsmenn einstaklinga, leggur nefndin til, að atkvæðagreiðsla og kjörgengi á þessu þingi skuli svo tilhaga, sem mælt er fyrir í 20. gr. grundvallarlaganna, er svo hljóðar: "Atkvæðisrétt í félaginu hafa allir þeir, sem eru 18 ára og borgað hafa gjöld sín."

Með þessu skal þó ekki fordæmi sett um þingsköp í framtíðinni.

Á þingi 21. febr.1928.

Jón J. Bildfell, Rögnv. Pétursson, B. B. Olson."

Framsögumaður lýsti þá yfir, að á þingi væri staddir að eins fimm fulltrúar frá deildum út um bygðir, en tveir erindrekar, er færu með umboð nokkurra einstaklinga, í deildinni "Fjallkonan" í Wynyard, en sem ekki gætu skoðast sem fulltrúar eftir fyrirmælum 21. gr. laganna. Allmargir félagsmenn í deildinni "Frón" hefði og lýst því yfir við þingbyrjun, að þeir vildu eigi hlíta fulltrúa umboði þaðan. Til þess að koma í veg fyrir allan vanda við fundarstjórn og atkvæðatalningu í þinginu, hefði nefndin farið þess á leit við alla fulltrúa deildanna, að þeir segðu lausu umboði sínu og leyfðu að atkvæðagreiðslu skyldi háttað svo sem tíðkast hefir á undanförnum þingum.

Beðið var um staðfestingu á þessum ummælum og því skotið til fulltrúanna. Lýstu þeir því þá yfir, hver í sínu lagi, að þeir afsöluðu sér umboði sínu til þings, og myndi á sínum tíma gera hlutaðeigandi deildum grein fyrir því. Var þá nefndarálitið borið upp og samþykt.

Jón J. Bildfell, formaður heimferðarnefndarinnar 1930, skýrði frá starfi nefndarinnar á árinu og tilmælum hennar til þingsins á þessa leið:

"Til forseta Þjóðræknisfélagsins í Vesturheimi. Háttvirti herra! Nefnd sú, er kosin var á síðasta þjóðræknisþingi, til þess að hafa heimfararmálið 1930 með höndum, leyfir sér að leggja fram svohljóðandi skýrslu:

Fyrsta verk nefndarinnar var að skifta með sér verkum og var það þannig gert, að Jón J. Bildfell er forseti, séra Rögnv. Pétursson féhirðir, og Jakob F. Kristjánsson skrifari.

Ellefu fundi hefir nefndin haldið á árinu, sem sýnir, að hún hefir að minsta kosti leitast við að rækja skyldur þær, sem henni voru lagðar á herðar, svo sem ástæður hennar leyfa.

Aðal verk nefndarinnar hefir verið að innleiða og undirbúa málið í bygðum Íslendinga. Aðferðin, sem hún kom sér niður á, var að skifta bygðarlögum niður í deildir, og að nefnd væri kosin, sem sæi um mál þetta innan vébanda sinnar deildar, en sem svo aftur stæði í sambandi við aðalnefndina í Winnipeg.

Nefndin hefir því haldið eins marga fundi í bygðum Íslendinga og hún átti kost á, eða nánar fram tekið, í eftirfylgjandi stöðum:

*Í Selkirk.* Þar voru kosnir forvígismenn málsins: Runólfur Halldórsson, Guðjón S. Friðriksson og Bjarni Dalmann. — Á fundinum mættu fyrir hönd Winnipeg nefndarinnar, þeir Ásm. P. Jóhannsson og Jón J. Bildfell.

*Að Wynyard, Sask.* Kosnir þeir Árni G. Eggertsson lögmaður, Jón Jóhannsson,

Gunnar J. Guðmundsson, séra Friðrik A. Friðriksson og séra Carl J. Olson. — Fyrir hönd Winnipegnefndarinnar mættu þar og á öllum fundunum í Vatnabygðum, séra Rögnv. Pétursson og Árni fasteignasali Eggertsson, en af heimamönnum bygðanna tók W. H. Paulson þingmaður ákveðinn og áhrifamikinn þátt í fundarhöldunum og undirbúningi þeirra, sem vér þökkum hér með. Ennfremur flutti séra Rögnvaldur Pétursson áhrifamikið erindi á þjóðhátíð Vatnabygðanna um málið.

Í *Leslie, Sask.*, voru kosnir: Bjarni Davíðsson, H. G. Nordal og Þorst. Guðmundsson.

*Í Mozart, Sask.*, þeir Þórður Árnason, Hóseas Hóseasson, Páll Tómasson og Jón Finnsson.

*Í Elfros, Sask.*: Ólafur Ó. Jóhannsson, dr. J. P. Pálsson, og einhverjir fleiri.

*Á Bræðraborg,* við Foam Lake, Sask.: Jón Janusson, og Narfi Narfason.

*Í Churchbridge* (Þingvallanýlendu): Magnús Hinriksson, form.; Einar Sigurðsson, ritari; Jón Árnason, Jón Gíslason og Hannes Eyjólfsson. — Á þessum fundi mætti séra Jónas A. Sigurðsson fyrir hönd nefndarinnar í Winnipeg.

Í Nýja Íslandi—

*Á Gimli*: séra Sig. Ólafsson, form., séra Þorgeir Jónsson ritari, og Einar Jónasson fyrv. bæjarstjóri á Gimli.

*Í Riverton*: S. Thorvaldsson form., Sigurbj. Sigurðsson, G. J. Guttormsson ritari, Jón Sigvaldason, og Thorvaldur Thorarinsson.

*Í Árorg*: Séra Jóhann Bjarnason, dr. Sv. E. Björnsson, Sigurjón Sigurðsson. — Af hálfu Winnipegnefndarinnar mættu á fundunum í Nýja Íslandi, þeir séra Rögnv. Pétursson, og Ásm. P. Jóhannsson.

Í Norður Dakota—

*Garðar*: Jóhann Tómasson, Gamalíel Thorleifsson og Benóní Stefánsson.

*Mountain*: Séra Haraldur Sigmar, S. M. Melsted og Jóh. Anderson.

*Akra*: Bergþór Thorvardsson.

*Hensel*: Jakob J. Erlendsson, Joseph Einarsson og Fred. Johnson.

*Cavalier*: Björn Th. Thorvaldsson.

*Svold*: Ásbjörn Sturlaugsson, Jón Hannesson, Guðmundur A. Vívatsson, Björn Eastman og Árni Magnússon.

*Pembina*: Þorbjörn Bjarnason, Guðm. Þorgrímsson, Mrs. B. J. Johnson. —

Frá hálfu nefndarinnar mættu á þessum fundum í N. Dak., þeir séra Jónas A. Sigurðsson og Ásmundur P. Jóhannsson. Einnig mætti á þeim séra Ragnar E. Kvaran frá Winnipeg fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins.

Lengra er nefndin ekki komin með undirbúningsfundi, og eiga þeir af nefndarmönnum þakkir skilið, er þátt hafa tekið í þeim og lagt fram fé og tíma til að hrinda þessu máli áleiðis í það horf, sem það þarf að komast. Forseti nefndarinnar gat lítinn þátt tekið í þessum fundahöldum; fyrst sökum anna, og síðar sökum veikinda.

Eins og yður hr. forseti, er kunnugt, þá var nefndinni veitt leyfi til að bæta við tölu sína þremur mönnum, ef hún fyndi ástæðu til. Það leyfi hefir nefndin notað sér, því verkið er mikið og víðtækt, sem hún hefir með höndum. Fyrsti maðurinn, sem nefndin kaus sér til samvinnu var Hon. Thos. H. Johnson. Varð hann fúslega við tilmælum nefndarinnar og tók sæti í nefndinni. En því miður naut nefndin ekki hans aðstoðar lengi, því eins og kunnugt er, þá lézt hann 20. maí síðastliðinn og misti ekki aðeins nefndin, heldur og allir Vestur-Íslendingar þar einn af sínum ágætustu mönnum. Tökum vér þetta tækifæri til að votta ástvinum hans og ættingjum hluttekningu vora og söknuð við fráfall hans. Hinir, sem í nefndina hafa verið teknir eru Jóseph T. Thorson, sambandsþingmaður í Suður-Mið-Winnipeg, Guðmundur Grímsson,

dómari í North Dakota og séra Jónas A. Sigurðsson í Selkirk, í stað Thos. heit. Johnson.

Nefndin hafði ekki verið lengi að verki, þegar hún komst að raun um, að fjármálin voru henni þrándur í götu. Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins veitti henni $100.00 til nauðsynlegustu útgjalda. En hún rak sig brátt á, að það var með öllu ónóg upphæð, til að standa straum af allra nauðsynlegustu útgjöldum. Henni var því ljóst að svo framarlega sem þessu heimfararmáli ætti að vera nokkur sómi sýndur, yrði hún að hafa einhver úrræði önnur en þau, sem Þjóðræknisfél. gæti ráðið fram úr í fjármálunum. Þrír vegir virtust vera fyrir hendi. *Fyrst* að nefndin legði fram féð sjálf, og það hefir hún gert, að því leyti sem þessir $100.00 hafa ekki hrokkið til útgjaldanna á árinu. *Annað*: Að leita opinberra samskota meðal Vestur-Íslendinga, til þess að standa straum af útgjöldunum. *Í þriðja lagi*: Að fara fram á það við félög eða stjórnir, sem beinlínis, eða óbeinlínis, hefðu hag af þessari ferð, að leggja fram ofurlítið fé til að standast þann kostnað, sem óumflýjanlegur er, í sambandi við undirbúning ferðarinnar. Það ákvað nefndin að gera. Hún fann því stjórnarformann Manitobafylkis að máli og skýrði honum frá öllum ástæðum. Hversvegna henni fyndist sjálfsagt að Vestur-Íslendingar tækju þátt í þessu hátíðahaldi 1930 og færu þessa för. Líka hvaða þýðingu það hefði fyrir Manitobafylki út á við, ef Vestur-Íslendingar fjölmentu á hátíðina —minti hann á, að fylkið legði fram stórfé árlega til að auglýsa sjálft sig fyrir alheimi, en engin auglýsing gæti verið tilkomu- eða áhrifameiri, en þessi för til Íslands 1930, því að einmitt þá yrði allra augum snúið til hinnar litlu íslenzku þjóðar. Félst forsætisráðherrann á þetta og lofaði með bréfi dagsettu 29. apríl 1927, að leggja nefndinni til eitt þúsund dollara á ári í þrjú ár. Ekki hefir nefndin fengið neitt af þessu fé enn, og stafar það af misskilningi, er inn hefir komist hjá stjórnarformanni, en sem væntanlega lagast áður en um langt líður.—Nefndin hefir farið hins sama á leit við stjórnarformann Saskatchewanfylkis og hefir hann tekið vel í málið, þótt engar framkvæmdir hafi heldur orðið þar enn.

All-miklir dagdómar ganga meðal Vestur-Íslendinga um þetta mál, sem við er að búast. Það er með þá eins og Írana að þeir vita ekki hvað þeir vilja, og eru ekki ánægðir fyr en þeir fá það. Þó þori eg að staðhæfa að mál þetta á óhultara ítak í huga þeirra en flest önnur.

Nefndin getur fullvissað alla um, að hún er ekki að vinna að þessu máli í neinum öðrum tilgangi en þeim, að gera sem flestum mögulegt að taka þátt í förinni, sem fara vilja. Það sem nefndin hefir því ásett sér að gera og það sem hún álítur að hún eigi að gera er:

*Fyrst*: að sameina þá, sem fara vilja og útvega þeim sem aðgengilegust ferðakjör.

*Annað*: að sjá um að ferðin geti orðið sem veglegust að föng eru á.

*Þriðja*: að styðja að því eftir mætti að ættjörð vor hljóti sem ákveðnasta viðurkenningu hjá öllum þjóðum, fyrir menningaratriði því, sem hátíðin er haldin til minningar um. Takist nefndinni þetta, þá er hún ásátt með að hún hefir ekki til einskis erfiðað, og biður hún allar góðar konur og menn að aðstoða sig til þess.

Að síðustu leggur nefndin til:

1. Að kjörtímabil nefndarinnar sé lengt fram í árslok 1930.

2. Að nefndinni sé heimilað að bæta við sig eins mörgum og þörf eða kringumstæður krefjast.

3. Að Þjóðræknisfélagið veiti nefndinni $250.00 til nauðsynlegustu bráðabyrgðar útgjalda. Fyrir hönd nefndarinnar,

Jón J. Bíldfell, forseti."

Er framsögumaður lauk máli sínu, skýrði hann frá því að ungfrú Þorstína Jackson væri stödd á þinginu, sem fulltrúi Cunard gufuskipafélagsins, og myndi hún hafa eitthvað að segja í sambandi við þetta mál..

Ungfrú Jackson stóð þá upp, að til-

mælum forseta, og skýrði frá að hún hefði orðið forviða í haust, er hún kom heim úr ferð sinni um Canada, því þá hefði beðið sín ábyrgðarbréf frá Cunard gufuskipafélaginu, þess efnis að stjórnendur félagsins vildu hafa tal af henni. Við þessu sagðist hún hafa orðið og var þá erindið það, að fá hana til að túlka það við Íslendinga, að þeir fengju skip frá félaginu til heimferðar 1930. Hún kvaðst vilja kynna sér vilja Íslendinga í þessu máli áður en hún skýrði það frekar.

Samþykt var að viðtaka álit nefndarinnar lið fyrir lið. Var fyrsti liður borinn upp og samþyktur. Umræður spunnust um 2. lið nefndarálitsins. Séra Rögnv. Pétursson skýrði frá því, að nefndin færi fram á, að mega bæta við sig, sökum þess að henni væri það ljóst að aðstoðar yrði hún að leita sem víðast, máli sínu til eflingar. Fyrir stuttu hefði hann átt tal við Guðmund dómara Grímsson, er bent hefði á að heppilegt myndi vera að skipa fleirum í nefndina sunnan landamæranna. Hefði Grímsson dómari látið í ljósi að Íslendingar í Bandaríkjunum myndu eindregið óska að Bandaríkjastjórn tæki einhvern viðeigandi þátt í hátíðahaldinu, en til þess myndi þurfa allrar orku að neyta. Komið hefði honum til hugar, með styrk senatora og congressmanna frá Dakota og Minnesota, að fara þess á leit við Bandaríkjastjórnina að hún léti smíða vandað og veglegt líkneski af Leifi hepna, er fyrstur fann Vesturheim, er hún svo gæfi Íslendingum 1930 í viðurkenningarskyni um Ameríkufundinn. Þá benti séra Rögnv. á að Saskatchewan Íslendingar hefðu engan fulltrúa í nefndinni. En gjarna mætti líta svo á, sem W. H. Paulson þingmaður væri þar sjálfkjörinn, því verið hefði hann og væri málefnum nefndarinnar til hinnar mestu liðveizlu.

Ungfrú Jackson kvað tillöguna um Leifs líkneskið ágæta, sérstaklega væri það viðurkenning fyrir því að Íslendingurinn Leifur Eiríksson hefði fyrstur fundið þetta land. Vildi hún láta stjórn Íslands bjóða Bandaríkjastjórninni að senda fulltrúa á hátíðina.

Sigfús Halldórs frá Höfnum ritstjóri Heimskringlu taldi það stórþýðingarmikið atriði, að fá það viðurkent að Leifur hefði verið Íslendingur en ekki Norðmaður. Fanst honum Norðmenn beita þar yfirgangi og eigna sér þá menn er í raun og sannleika væru Íslendingar, en lítið gert til að hrinda áburði þeirra af sér.

Séra Jónas A. Sigurðsson skýrði frá því að hann hefði verið kjörinn til þess að mæta á hátíð Norðmanna í Camrose, og sannað þar eins greinilega og sögur gætu sannað, að Íslendingur, en ekki Norðmaður, hefði fundið Vesturheim,— að Leifur hefði verið Íslendingur en ekki Norðmaður. Sigfús Halldórs frá Höfnum afsakaði að hann hefði gleymt að geta þess, að séra Jónas A. Sigurðsson væri eini maðurinn hér vestra sem rækilega hefði tekið ofan í lurginn á Norðmönnum í þessu efni.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson lagði til að báðum ritstjórum blaðanna væri bætt við í nefndina, og séra J. P. Sólmundsson lagði til að dr. Sig. Júl. Jóhannesson væri einnig bætt við í nefndina, en A. B. Olson studdi. J. J. Bíldfell mælti móti þessum tillögum, kvað eigi vera til umræðu hverjum bætt skyldi í nefndina. Sigfúsi Halldórs frá Höfnum þótti athugasemdirnar einkennilegar. Séra J. P. Sólmundsson mælti með sinni tillögu. Séra Rögnvaldur Pétursson kvað spurninguna vera þá, hvort leyfa skyldi nefndinni að bæta við sig eða ekki, en ekki að þingið bætti við mönnum í nefndina. Vildi ekki láta þingið kjósa fleiri. Dr. Sig. Júl. Jóhannesson kvað ritstjóra blaðanna eiga að vera ljós þjóðarinnar og því sjálfsagðir í nefndina. Nokkrar umræður urðu um tillögurnar, vildu tillögumenn skoða þær sem breytingartillögur en aðrir sem sérstakar tillögur, er ekki kæmust að. Forseti úrskurðaði að þær væru ekki breytingartillögur heldur aukatillögur og yrðu því að takast til greina. Mrs. Anna Sigbjörnsson frá Leslie lagði þá til að umræðum skyldi lokið, G. K. Jónatansson studdi. Tillagan borin upp og samþykt. Bar þá forseti fyrst upp nefndartillöguna. Samþykt. Bar

hann þá upp tillögu dr. Sig. Júl. Jóhannessonar að bæta ritstjórunum í nefndina. Var hún feld með 28 atkv. gegn 19. Að lokum bar hann upp tillöguna um að bæta dr. Sig. Júl. Jóhannessyni í nefndina og var hún samþykt.

B. B. Olson lagði til en A. P. Jóhannsson studdi að 3. liður nefndarálitsins um að veita nefndinni $250 úr nefndarsjóði til bráðabyrgðar útgjalda sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Samþykt.

Lá þá fyrir að skipa í fjármála- og bókasafns-nefnd. Í fjármálanefnd skipaði forseti: A. P. Jóhannsson, Jón J. Húnfjörð og Tobías Tobíasson. Í bókasafnsnefnd: Hjálmar Gíslason, Mrs. Önnu Sigbjörnsson og Ágúst Sædal.

Var þá borin upp tillaga og samþykt í einu hljóði að kjósa þriggja manna þingnefnd í skógræktarmálið. Þessir tilnefndir og kosnir: Séra Jónas A. Sigurðsson, B. B. Olson og Björn Magnússon.

Húsbyggingarmálið lá þá næst fyrir. Umræður engar. Séra Jónas A. Sigurðsson lagði til en Jón J. Húnfjörð studdi að milliþinganefndin, er málið hefir haft með höndum sé endurkosin og málið falið henni til frekari afkasta á næsta ári. Samþykt.

*Útgáfumál Tímaritsins,* kom næst. Dr. Sig. Júl. áleit að í Tímaritinu þyrfti að vera unglingadeild, ef það ætti að ná tilgangi sínum. Það þyrfti að vera læsilegt fyrir unglinga, eða að minsta kosti eitthvað af því. Sigfús Halldórs frá Höfnum spurði hvernig á því stæði að tillagan, sem samþykt hefði verið á þingi í fyrra, að gefa blöðunum prentun ritsins sitt árið hvoru, hefði verið gengin á bug. Forseti svaraði því að engin tillaga í þessa átt hefði verið samþykt á þingi í fyrra, heldur af þáverandi stjórn félagsins, en núverandi stjórnarnefnd hefði ekki skoðað sig bundna þessu ákvæði og því ekki fylgt þeim fyrirmælum. Spyrjandi kvað fyrirspurninni svarað og væri hann samþykkur þessari skoðun stjórnarnefndar. P. S. Pálsson lagði til að málinu væri vísað til 3 manna þingnefndar, dr. Sig. Júl. Jóhannesson studdi. Samþykt. Í nefndina skipaði forseti: séra Jónas A. Sigurðsson, Finnboga Hjálmarsson og E. H. Sigurðsson.

*Samvinnumál* var næst á dagskrá. A. P. Jóhannsson hóf umræður, lýsti hann þeim hlýhug, er hann hefði fundið heima síðastliðið sumar, til Íslendinga hér vestra. Félaginu "Vestur-Íslendingi" í Reykjavík kvað hann vera mikið áhugamál að sem bezt samvinna takist við Íslendinga hér. Séra Friðrik Hallgrímsson væri forseti þess. Hann hefði skrifað sér nýlega og beðið sig að skila kveðju til Þjóðræknisfélagsins og þar með til Vestur-Íslendinga.

Vildu félagsmenn búa í haginn fyrir þá, sem heim koma 1930. Talsverð vanskil kvað ræðumaður hafa orðið á greiðslu á fé fyrir bækur og tímarit, er Þjóðræknisfél. hefði sent heim. Áleit að við þeim mætti gera með því að fela sölu umboð félaginu "Vestur-Íslendingi" er tjáð hefði sig fúst til að taka þetta að sér.

Tillaga að forseti skipaði 3. manna þingnefnd í málið. Samþykt. Þessir tilnefndir: A. P. Jóhannsson, séra Rögnv. Pétursson og Tobías Tobíasson.

*Söngkenslumál:* A. P. Jóhannsson formaður milliþinganefndarinnar í því máli lagði fram svolátandi skýrslu.

"Skýrsla milliþinganefndar um söngkenslu Þjóðræknisfél. í Winnipeg.

Herra forseti, heiðruðu þingmenn:

Nefndin, er góðfúslega tók að sér á síðasta þingi að komast að samningum við hr. Brynjólf Þorláksson söngstjóra um að æfa með börnum og unglingum hér í bænum, íslenzka söngva um þriggja mánaða tíma, leyfir sér hér með að skýra frá árangrinum af því starfi.

Nefndin tók þegar til starfa að loknu þingi í fyrra, hafði með sér fundi og gerði ýmsar nauðsynlegar ráðstafanir til þess að fá hr. Brynjólf Þorláksson til að byrja kenslu strax á síðastliðnu hausti. En við þeim tilmælum gat hann ekki orðið sökum þess að hann var þegar búinn að ráða sig í ýmsum íslenzkum bygðarlögum fram að áramótum. Tók þá nefndin fyrsta tækifæri, sem völ var á og vist-

aði hann hingað til Winnipeg, um miðjan janúar síðastl.

Ýmislegar nauðsynlegar ráðstafanir hafði nefndin gert fyrir komu söngstjórans, svo sem að auglýsa kensluna í íslenku blöðunum, útvega honum sjálfum húsnæði og fæði, til að byrja með, og húsnæði fyrir æfingar, er var afar áríðandi að fá bæði gott og hentugt. Báðir íslenzku söfnuðirnir hér í bænum lánuðu góðfúslega og endurgjaldslaust fundarsali sína, þrisvar í viku hverri, fyrir æfingar. Ber þeim sérstaklega þakkir fyrir þann höfðinglega greiða og *fjárhagslega* stuðning, er þeir þannig sýndu máli þessu. Æfingar fara nú fram þrisvar í viku frá kl. 7—9 á mánudags- og fimtudags-kveldum en frá kl. 3.30—5.30 e. h. á laugardögum.

Því miður hafa æfingar verið lakar sóttar en æskilegt hefði verið, og þátttakendur færri en vænta hefði mátt af jafn miklum fjölda Íslendinga og hér er í Winnipeg, og með því að kenslan er öllum boðin að kostnaðarlausu. Á laugardögum, er búast hefði mátt við að æfingar yrði best sóttar, hafa þær reynst lakast sóttar, en kveld-æfingar aftur á móti betur.

Um 70—80 unglingar og börn hafa sótt þessar æfingar þegar best hefir verið. Samt sem áður hefir hr. Þorláksson látið það álit sitt í ljós að nemendur hafi tekið undraverðum framförum, á ekki lengri tíma og þykir honum íslenzku framburður þeirra yfirleitt mikið betri en hann átti von á. Hann kveðst muni geta farið að hafa opinberar samkomur með þessum flokki síðari hluta næsta mánaðar. Vonar hann að þær samkomur beri góðan árangur og verði til þess að opna augu almennings fyrir þessu máli.

Geta skal þess, að konur þær, sem eru í nefndinni. hafa með frábærri skyldurækni aðstoðað hr. Þorláksson við allar æfingar.

Til að létta undir með útgjöldum í sambandi við starf þetta, hafa þau hvert um sig, séra R. E. Kvaran, hr. A. Eggertsson, Mrs. Gróa Brynjólfsson og hr. A. P. Jóhannsson góðfúslega boðist til að veita söngstjóra tveggja vikna fæði án endurgjalds og er þá aðeins óráðstafað síðasta mánuðinum, er nefndin vonast að greiðist fram úr með, á sama hátt.

Að síðustu skal geta þess að tími söngstjórans er allur upptekinn; fer hann tvisvar í viku ofan til Selkirk og æfir þar söngflokk meðal yngri og eldri.

Winnipeg 20. febr. 1928,

*A. P. Jóhannsson, Ragnar E. Kvaran,*
*Árni Eggertsson, Ragnheiður Davíðsson,*
*J. J. Bíldfell, Gróa Brynjólfsson.*

Skýrslan var viðtekin og samþykt í einu hljóði. Minti forseti á kappglímuna, um verðlaun Jóhannesar glímukappa Jósefssonar, er færi fram að loknum kveldverði. Gat þess að fyrir kveldskemtuninni stæði milliþinga-íþróttanefnd Þjóðræknisfélagsins. Mætti því svo líta á sem þetta væri starfsliður félagsins. Var svo fundi slitið og þingi frestað til kl. 10. næsta morguns.

Kl. 8 um kveldið var komið saman í Good Templara húsinu til að horfa á kappglímuna. Húsfyllir var í salnum. Hr. Sigfús Halldórs frá Höfnum setti mótið og gat þess, að þátt í kappglímunni tæki að þessu sinni 8 manns. Hefði forstöðunefndinni komið saman um að skitta keppendum í tvo flokka eftir þyngd. Með því yrði leikurinn jafnari. Í þyngri flokknum væru þrír menn: Óskar Þorgilsson, Björn Skúlason og Stefán Stefánsson, allir frá glímufélaginu í Oak Point, í Álftavatnsbygð. Í léttari flokknum voru Benedikt Ólafson, Grímur Jóhannesson, Vilhjálmur Jónsson, Örn Thorsteinsson, úr glímufélaginu Sleipnir í Winnipeg, og Sigurjón Borgfjörð úr glímufélagi Oak Point. Dómnefnd skipuðu: Jakob F. Kristjánsson, Halldór Metúsalemsson og Guðm. Stefánsson. Léttari flokkurinn glímdi fyrst. Sigur báru af hólmi Benedikt Ólafsson og Vilhjálmur Jónsson. Gengu þeir þá til móts við hina í þyngri flokknum, en svo fóru leikar að jafnir urðu Óskar Þorgilsson, Björn Skúlason og Benedikt Ólafsson. Þreyttu þeir þá með sér á ný, og hlaut Óskar Þorgilsson fyrstu verðlaun en Björn Skúlason önnur. Engar

ræður voru fluttar og sleit samkomunni um kl. 10.30.

Þriðji fundur var settur kl. 10. f. h. 22. febr. Lesin þingbók. Allmargar athugasemdir komu fram við fundargjörningana, svo frestað var að samþykkja þá unz ritari fengi tóm til að leiðrétta.

*Kenslumál í íslenzku lá fyrir.* Ragnar Stefánsson lagði fram eftirfylgjandi skýrslu um íslenzku kenslu í Winnipeg, er deildin Frón, með tilstyrk Þjóðræknisfélagsins veitir forstöðu.

*Skýrsla*

"Umferðakennara þeirra er þjóðræknisdeildin "Frón" í Winnipeg réð til íslenzku kenslu barna og unglinga hér í borg yfir tímabilin frá 15. nóvember — 15. desember, 1927 og frá 1. janúar — 31. marz 1928.

Hér með fylgja nöfn og heimili foreldra og aðstandenda barna þeirra, er notið hafa kenslunnar á þessum vetri. Skýrsla þessi nær yfir tímabilið frá því að starfið hófst, og til 15. febrúar 1928. Leggist hún með öðrum starfsskýrslum Fróns, fram fyrir forseta og stjórnarnefnd aðalfélagsins á næsta þingi.

Geta má þess að nokkuð hafa þeir verið fleiri á þessum vetri, er hagnýtt hafa sér kenslu þessa en undanfarið—t. d. á síðastl. ári. Alls hafa 93 börn notið kenslunnar og hefir tímanum verið skift á milli þeirra svipað og verið hefir á undanförnum árum. Flest eru börnin á aldrinum 5—12 ára. Þeim má skifta svo í flokka, að tíu séu fluglæs, 20 allvel læs og hin 63 stautfær eða farin að kveða að.

Laugardagsskóla hefir deildin einnig haldið, svo sem venja hefir verið til, og sóttu hann um 40 börn, fyrir jól en síðan hafa aðeins komið um 25 börn hvern laugardag,—þar eð söngkensla hr. Brynjólfs Þorlákssonar fer einnig fram á laugardögum, hefir það dregið úr aðsókninni.

Árangur af íslenzku kenslunni má heita góður eftir öllum ástæðum.

Winnipeg, 20. febr. 1928.

Virðingarfylst,

*Ragnar Stefánsson, Jódís Sigurðsson.*

Skýrslan var þökkuð og samþykt. J. F. Kristjánsson lagði til en G. K. Jónatansson studdi að þriggja manna nefnd væri kosin til þess að íhuga kenslumálið og leggja fram tillögur í því fyrir þingið. Samþykt. Þessir voru kosnir: J. J. Bíldfell, séra J. P. Sólmundsson og Ragnar Stefánsson.

*Útbreiðslumál* var næst á dagskrá. B. B. Olson stakk upp á, en G. K. Jónatansson studdi, að í það sé skipuð þriggja manna nefnd. Samþykt. Þessir voru kosnir: Árni Eggertsson, G. K. Jónatansson og J. S. Gillies.

Með því að flestum málum var nú vísað til nefnda, en skýrslur frá þeim ókomnar, lýsti forseti því yfir að bera mætti upp ný mál fyrir þinginu. B. B. Olson kvaddi sér hljóðs og lýsti því yfir að hann myndi leggja það til að breytingar yrðu gerðar við 4. gr. grundvallarlaganna, á þann hátt að ellefu menn skuli skipa stjórn félagsins í stað 9. Helmingur þeirra skyldi kosinn til tveggja ára. Sömuleiðis kvaðst hann mundi bera fram tillögu á árinu um það að félagið léti semja aukalög. Lagði hann til að 3. manna nefnd væri skipuð í málið. G. K. Jónatansson studdi. Tillagan samþykt. Forseti tilnefndi þessa: séra Jónas A. Sigurðsson, B. B. Olson og Hjálmar Gíslason."

Þá las forseti upp bréf frá Selkirk deildinni "Brúin" er fór þess á leit að félagið veitti deildinni $60.00 styrk til kenslu í íslenzku og söng. A. P. Jóhannsson lagði til og Mrs. Byron studdi að beiðni þessari sé vísað til fjármálanefndar. Samþykt.

A. P. Jóhannsson las þá upp skýrslu yfirskoðunarmanna og lagði til að hún væri samþykt. Skýrslan samþykt í einu hljóði. Var þá fundi slitið og þingi frestað til kl. 2. e. h.

Fjórði þingfundur settur kl. 2 e. h. Fundarbók lesin og samþykt með breytingum. Forseti tilkynti að dr. Ágúst Blöndal væri staddur á þinginu og óskaði að bera upp mál það, er minst hefði verið á. að hr. Emile Walters listmálari vildi koma á sumarnámskeiði fyrir íslenzka unglinga í teikningu og listmálningu. Bauð forseti

dr. Blöndal að taka til máls. Skýrði dr. Blöndal hugmynd þessa, og óskaði þess jafnframt að Þjóðræknisfélagið léði þessu fylgi. Hugmynd Walters sagði hann vera þá, að safna saman um 30 ungmennum, og halda með þeim skóla úti í bygð, helzt á Gimli, á næstkomandi sumri. Kenslugjald var áætlað um $20.00. J. F. Kristjánsson lagði til en séra Jónas A. Sigurðsson studdi, að lækninum væri þakkaður flutningur þessa máls og því vísað til stjórnarnefndar. Samþykt.

A. P. Jóhannson las þá upp svolátandi tillögu fjármálanefndar um fjárveitingar beiðni Heimferðarnefndarinnar:

"Háttvirta þing:

Viðvíkjandi fjárveitingu til Heimferðarnefndarinnar leggur fjármálanefndin það til, að þingið gefi stjórnarnefndinni vald til að veita alt að $250.00 til nauðsynlegra útgjalda."

*A. P. Jóhannsson, J. J. Húnfjörð,*
*Tobías Tobíasson.*

Tillagan samþykt í einu hljóði.

Forseti las bréf frá J. J. Bíldfell þess efnis að veita fjármálaritara $50 þóknun fyrir vel unnið starf. Bréfinu vísað til fjármálanefndar. Formaður fjármálanefndar lagði þá fram eftirfylgjandi tillögu:

"Háttvirta þjóðræknisþing:

Með því að fjármálanefndin hefir að nokkru leyti kynt sér hið ágæta og þarfa verk, sem fjármálaritari félagsins hefir unnið á liðnu ári, með því að taka upp nýja bókfærslu og koma skipulagi á reikningsfærslu félagsmanna, þá leggur nefndin það til að honum sé greiddir úr félagssjóði $50.00 í viðurkenningarskyni fyrir vel unnið starf."

*A. P. Jóhannsson, Jón J. Húnfjörð,*
*Tobías Tobíasson.*

*Löggildingamálið*: Árni Eggertsson las upp bréf frá G. S. Thorvaldson lögmanni, viðvíkjandi löggildingu félagsins. Skýrði Mr. Thorvaldson frá, að fara mætti tvær leiðir að því að löggilda, væri önnur sú að sækja um löggildingu undir hinum svonefnda "Charitable Associations Act," en hin væri sú, að fá það flutt sem einkafrumvarp í Manitobaþinginu. Taldi hann síðarnefndu aðferðina betri en nokkuru dýrari. Lagði A. Eggertsson til en A. B. Olson studdi að stjórnarnefnd félagsins væri falið að hafa þær framkvæmdir í þessu máli á komandi ári er henni sýndust við eiga. Samþykt.

*Útbreiðslumál*: G. K. Jónatansson las upp skýrslu nefndarinnar svohljóðandi:

"Nefndin, er kosin var til þess að íhuga útbreiðslumál Þjóðræknisfélagsins hefir komist að þeirri niðurstöðu að á komandi ári sé sérstaklega gott tækifæri að útbreiða félagið, þar sem að heimferðarmálið er svo lifandi á dagskrá. Leggur hún því til að stjórnarnefndinni sé leyft að verja alt að $250.00 úr félagssjóði, til að stofna deildir þar sem möguleikar eru á því.

Reynt sé til að fá ísl. lestrarfélög sem fyrir eru í bygðum þar sem deildir eru stofnaður, til að sameinast Þjóðræknisfélaginu.

Þar sem ástæður eru ekki hagkvæmar til að stofna deildir sé reynt að fá menn sem flesta til að ganga í aðalfélagið.

Að stuðlað sé að því, þar sem deildir eru stofnaðar, að fá þá menn í embætti er áhuga hafa mikinn fyrir málefninu.

Vér erum þeirrar skoðunar að tvöfalda megi félagatölu á komandi ári ef af alúð er unnið.

*G. K. Jónatansson, Árni Eggertsson,*
*J. J. Húnfjörð."*

Sig. Júl. Jóhannesson sagði tillögur nefndar-álitsins tímabærar. Kvað hann enga deild vera vestur á Kyrrahafsströnd, félagið enn ekki komist yfir fjöllin, þar vestra, þó þjóðrækni sé þar á allháu stigi. Stungið upp á að nefndarálitinu sé vísað til fjármálanefndar. Samþykt.

Stóð þá á nefndarskýrslum svo aftur lágu fyrir ný mál. Dr. Sig. Júl. Jóhannesson lagði til að Dr. Woodsworth þingmanni norður-mið-Winnipeg í sambandsþinginu væri þökkuð tillaga hans eða bending til samgöngumálaráðherra, og forseta falið að skrifa honum. Tillagan samþykt.

Séra J. P. Sólmundsson lagði til að þriggja manna nefnd sé kosin til þess að

undirbúa skýra greinargerð fyrir tilgangi Þjóðræknisfélagsins., fanst A .liður tilgangsgreinarinnar lítt skiljanlegur ef ekki óþarfur. Tillöguna studdi Jóh. Eiríksson. Nokkrar umræður urðu um málið en að því búnu var tillagan dregin til baka.

Var þá lagt fram nefndarálit í skógræktarmálinu af séra Jónasi A. Sigurðssyni svohljóðandi:

"Skógrækt á Íslandi:

Nefndin í málinu um að "klæða landið" eða, Skógrækt á Íslandi, leyfir sér að minna alla hlutaðeigendur á hina víðtæku og miklu þýðingu málsins.

Nefndin treystir því eindregið, að þjóðræknir Ísendingar hér vestra láti sér ant um þessa fögru hugmynd og að heimaþjóðin meti hana að verðugu.

Nefndin hyggur, að er til framkvæmda kemur, muni fræ reynast hagkvæmara en ungjurtir.

Nefndin leggur til:

1. Að Þjóðræknisfélagið láti sér ant um framkvæmdir þessa máls og fái í því stuðning vestur-íslenzkra blaða.

2. Að stjórn Þjóðræknisfélagsins sé falin forganga málsins, og meiri hluti nefndarinnar leggur það til, að stjórnin hagnýti sér bendingar málshefjanda.

3. Að stjórn Þjóðræknisfélagsins komi þessi máli á framfæri við stjórn Íslands.

Virðingarfylst,

*Jónas A. Sigurðsson, B. B. Olson,*
*B. Magnússon.*"

Séra Rögnvaldur Pétursson lagði til, en dr. Sig. Júl. Jóhannesson studdi að nefndarálitið sé samþykt. Var sú tillaga samþykt.

Mrs. Guðrún H. Johnson flutti þinginu kveðju próf. Ágústs H. Bjarnasonar í Reykjavík. Gat hún þess, að hann hefði beðið sig fyrir skilaboð, viðvíkjandi skógræktarmálinu heima. Vildi hann að málið væri sem mest í höndum ungmennafélaga, en þau aðstoðuð eftir föngum að vestan sem heima. Var orðsendingu þessari vel tekið.

A. P. Jóhannsson las þá svohljóðandi skýrslu frá samvinnumálanefndinni:

1. Nefndin lítur svo á sem aðal samvinnumál millum þjóðar vorrar vestan hafs og austan sé hin tilvonandi þús. ára Minningarhátíð Alþingis 1930; vill hún hvetja alla Íslendinga til að láta það mál til sín taka en að öðru leyti álítur hún að allar framkvæmdir í því hér vestra séu fengnar nefndinni, er þegar hefir verið kosin.

2. Með því að útbreiðsla Tímaritsins heima á ættjörðinni hefir, að voru áliti, eigi tekist svo sem félagsmenn hafa óskað eða vonað, leggjum vér til að sú breyting verði gerð á umboðssölu þess, að Þjóðræknisfélagið feli bróðurfélagi voru, "Vestur-Íslendingi," í Reykjavík útbýting þess og útsölu á Íslandi og Norðurlöndum í stað núverandi umboðsmanns í Reykjavík.

3. Nefndinni er það ljóst að ótal fleiri málum mætti skipa undir þennan lið, "Samvinnumál," bæði uppkomnum og óuppkomnum, leggur hún því til að þingið feli þau mál, sem snerta kunna Þjóðræknisfélagið að einhverju leyti, væntanlegri stjórnarnefnd til meðferðar.

Á öskudaginn, 1928.

*A. P. Jóhannsson, Rögnv. Pétursson,*
*Tobías Tobíasson.*

Var nefndarálitið borið upp og samþykt.

Séra Rögnvaldur Pétursson skýrði frá að sér hefði borist í hendur eintak af blaðinu "Free Press" dagsett 16. febr., í því stæði fréttagrein frá Ottawa er frá því segði, að Norðmenn hér í Canada, leituðu löggildingar hjá Sambandsstjórninni, fyrir allsherjar félagsskap, sín á meðal, er þeir nefndu "The League of Norsemen in Canada." Leit hann svo á sem nafn þetta væri mjög villandi og með því væru Norðmenn að helga sér það sem undir nafninu "Norse" hefði gengið. Væri þetta ný tilraun, er lengra gengi en áður, að lögheimila sér einum alt það dýrmætasta sem til væri í arfi vorum frá fornri tíð, svo sem sögurnar, Eddurnar og hinar eldri bókmentir, og þá líka afreksverk feðra vorra til forna. Til nafnsins "Norse" væru þeir eigi fremur bornir en hinar frændþjóðirnar á Norðurlöndum.

Vildi hann láta finna þá fulltrúa þessa nýja félags, er búsettir væru hér í bæ, og benda þeim á að þeir stigi skör framar en hófi gegndi og fara þess á leit við þá, með allri vinsemd, að þeir breytti nafninu. Lagði hann til að málið væri tekið á dagskrá. Séra Jónas A. Sigurðsson studdi. Var það samþykt. Séra Jónas A. Sigurðsson vildi láta Íslendinga andmæla; væri þetta endurtekning margítrekaðra tilrauna að helga sér verk Íslendinga. Lagði til að nefnd yrði skipuð í þinginu til að hugleiða málið og koma með tillögur fyrir þing. Séra Rögnv. Pétursson studdi. Séra J. P. Sólmundsson kvað þetta mál leiða það í ljós að þegar til alvörunnar kæmi gætum vér verið einhuga. Um þetta væru allir sammála. Séra Runólfur Marteinsson kvað orðið 'Norse' hafa fengið nýja merkingu.—Áður hefði það verið sama sem "Norrænn"—nú þýddi það víst oftast "Norwegian." Séra Rögnvaldur kvað nokkuð hæft í því, að þeirri merkingu væri haldið fram af Norðmönnum, án þess þó að þeir vildu láta undanskilja það, sem áður hefði verið látið í því felast. Eftir nokkrar umræður var tillagan samþykt, og í nefndina skipaðir séra Rögnvaldur Pétursson, séra Jónas A. Sigurðsson og séra Runólfur Marteinsson.

Var þá borin upp fundarslita tillaga, skyldi þingi frestað til kl. 10, næsta morguns. Forseti gat þess að samkvæmt venju væri kveldið helgað hinu árlega Miðsvetrarmóti Þjóðræknisdeildarinnar "Frón," er einnig væri nefnt "Þjóðræknismót," og hét á menn að vera til staðar komnir eigi síðar en kl. 8. Var svo fundi slitið og þingi frestað til kl. 10 næsta morguns.

---

Sem til stóð hófst samkoma þessi kl. 8. Var sá fjöldi saman kominn að setja varð stóla á gangana svo allir fengi sæti. Var þess getið síðar um kveldið að sjaldan eða aldrei hefði mótið verið fjölmennara. Séra Runólfur Marteinsson, forseti Fróns, setti samkomuna með ágætri ræðu. Næst honum lék ungfrú J. Johnson á slaghörpu. Flutti þá séra Ragnar E. Kvaran erindi um þjóðræknismálið, áhrifamikið og ágætlega samið, ennfremur dr. Sig. Júl. Jóhannesson annað, um sama efni, kvæði, er skáldið Gutt. J. Guttormsson orti fyrir mótið, las Gísli P. Magnússon. Þá las skáldið Lúðvík Kristjánsson upp gamankvæði er hann hafði þá ort fyrir skemstu. Var því svo vel tekið að ekki fékk hann að ganga af ræðupalli fyr en hann fór með annað, er engu þótti ósnjallara. Þá las séra J. P. Sólmundsson upp drápu, fornyrða, um "Hrólfs eðlið." Milli ræða og kvæða upplesturs skemti prýðilega æfður karlmannakór með fjölda íslenzkra söngva. Í kórnum voru allir hinir valinkunnustu söngmenn, er heima eiga hér í bæ, en söngnum stjórnaði hr. Brynjólfur Þorláksson. Einsöng söng hr. Árni Stefánsson, en að lokum söng herra Sigfús Halldórs frá Höfnum, hið mikla skozka söguljóð, "Archibald Douglas," eftir Fontane, og afhenti glímuköppunum verðlaunin, er þeim höfðu hlotnast kveldinu áður. Gengu þá sumir til snæðings en aðrir véku til dans. Hélt svo samkoman áfram þar til löngu eftir miðnætti. Bar samkoman það með sér, að Þjóðræknisfélaginu vex nú megin með ári hverju.

Fimti þingfundur settur kl. 10 f. h. 23. febr. 1928. Fundarbók lesin og samþykt.

Árni Eggertsson benti á að ýmislegt væri rangt tilfært í fréttum af þinginu í ensku blöðunum, sérstaklega "Tribune." Vildi hann láta útnefna einhvern til þess að veita áreiðanlegar fréttir. Lagt til og samþykt í einu hljóði að maður sé útnefndur í þessa stöðu. Forseti útnefndi Árna Eggertsson.

Herra Ágúst Sædal lagði þá fram eftirfylgjandi nefndartillögu í Bókasafnsmálinu:

Herra forseti! Háttvirta Þjóðræknisþing:

Vér, sem kosnir vorum til að athuga frumvarp til reglugerðar fyrir bókasafni Þjóðræknisfélagsins leyfum oss að láta í ljós álit vort á málinu.

Vér mælum eindregið með fyrnefndu frumvarp eins og það var orðað í 8 liðum.

Vér leggjum til að þingið kjósi 3 manna milliþinganefnd, sem annist um bókakaup og láti smíða sæmilegan bókaskáp fyrir

útlánsbækur safnsins. Sé þeirri nefnd heimilað að verja alt að $100.00 úr félagssjóði á komandi ári, máli þessu til sæmilegrar framkvæmdar.

Winnipeg, 22. febr. 1928,

*Á. Sædal, Hjálmar Gíslason, Mrs. S. Sigbjörnsson.*"

J. F. Kristjánsson lagði til, J. S. Gillies studdi, að reglugerðin fyrir útlán bóka sé tekin fyrir, lið fyrir lið. Samþykt.

A. P. Jóhannsson vildi ekkert bókasafn hafa í Winnipeg, en hvetja deildir til þess að halda við bókasöfnum hjá sér. Lagði hann til að málið yrði borðlagt að öðru leyti en því, að félagsmönnum væri leyft að nota til lesturs þær bækur, er til væri. Jón J. Húnfjörð studdi. Dr. Sig. Júl. Jóhannesson vildi láta stofna lestrarsal og bókasafn í Winnipeg undir umsjón Þjóðræknisfélagsins, þar sem allir Íslendingar, hvar í heimi sem væri, gætu fundið sameiginlegt andlegt heimili; hvað margar bækur glatast þegar gamla fólkið dæi. Þessar bækur ætti félagið að eignast.

Séra Rögnvaldur Pétursson gat þess að fjöldi merkra bóka og rita, jafnvel mikilvæg handrit, væri víðsvegar meðal Íslendinga hér í landi og glötun undirorpin. Væru eigendur, margir að minsta kosti, fúsir að selja fyrir lágt verð og sumir að gefa. Vissi hann um einn mann, er ætti merklegt safn, er hvergi vildi fremur sjá það niðurkomið en í höndum Þjóðræknisfélagsins. Áleit hann að félagið ætti að leggja alla stund á að koma upp safni, en sjálfur væri hann mótfallinn því að það gengist fyrir lestrarfélagsstofnun hér í bæ, taldi hann því frumvarpið að öllu leyti ganga í öfuga átt. Þjóðmenjasafn, íslenzkt ætti að vera takmarkið. Hann kvað það á allra vitund, að hér í bæ yrði í framtíðinni stofnað þjóðmenjasafn, þar sem hverri þjóð gæfist kostur á að leggja inn eitthvað til minningar um menningu sína. Væri þá gott ef Íslendingar hefðu varðveitt eitthvað til minningar um komu sína hingað. Ætti oss að vera það kappsog metnaðarmál að skipa þar fremur heiðurssæti en gerast hornrækir.

Hér var með leyfi þingsins, hætt við þetta mál um stund. Lagði Sigfús Halldórs frá Höfnum fram skýrslu íþróttanefndar svohljóðandi:

"Skýrsla: lögð fram á 9. ársþingi Þjóðræknisfélagsins, frá formanni milliþinganefndar, í glímu og íþróttamálinu:

Herra forseti! Eg legg hér með fram skýrslu frá gjaldkera og ritara milliþinganefndarinnar í glímu- og íþróttamálinu, og skýra þær svo frá störfum nefndarinnar, að eg þykist ekki þurfa miklu við að bæta. —Örfáar athugasemdir nægja.

Nefndinni er það ljóst, að spor var stígið í rétta átt, er hr. Haraldur Sveinbjörnsson var fenginn hingað norður í sumar til íþróttakenslu, þótt svo færi að sú kenzla yrði einungis Winnipeg-búum að notum, sökum fjárskorts og áhugaleysis, enn sem komið er, út um bygðirnar.

Og í sambandi við þetta skal þá fyrst talið, að nefndinni varð vonbrigði að því, hve daufar undirtektir hafa orðið, um þetta efni, meðal þjóðræknisdeilda utan Winnipegborgar. Fastlega hefði nefndin t. d. vonast eftir því, að Selkirk deildin myndi nota sér kunnáttu Haraldar, enda mun viðbúnaður hafa verið hafður þar í því skyni. En eftir því sem nefndinni hefir borist til eyrna, mun það hafa farið í handaskolum, sökum þröngsýni og skilningsleysis einhvers hluta deildarfélaga þar hinna eldri. Mun víða kenna hins sama frá eldri mönnum, því miður. T. d. var glímufélaginu á Oak Point, neitað um leyfi til þess að æfa glímur, án endurgjalds í samkomuhúsi bæjarins í vetur, af einhverjum óskiljanlegum ástæðum, þar eð húsið kvað hafa verið lánað, til annara leikja eða skemtana, unz *enskur* maður í bæjar- eða sveitarstjórninni tók sig til og ávítaði meðnefndarmenn sína fyrir þann þvergirðingshátt.

Ekki hefir verið unt, jafnvel hér í bænum, að hlynna svo að ísl. glímunni, sem nefndin hefði óskað helzt, enda hygg eg það rétt, er eg mælti í fyrra, hér á þinginu, að mjög verði erfitt að vinna glímunni það sæti, er hún ætti að skipa, fyr en almennur áhugi er fenginn meðal Íslendinga fyrir almennri líkamsþjálfun. Þó hygg eg að þjóðræknisdeildir út um

sveitir gætu og ættu að gera meir af því, að glæða áhuga fyrir íslenzkri glímu, en gert hefir verið. Ætti hverri deild t. d. að vera það metnaðarmál, að senda að minsta kosti *einn* glímumann fyrir sína hönd til þátttöku í hinni árlegu kappglímu Þjóðræknisfélagsins um verðlaun Jóhannesar Jósefssonar glímumeistara.

Að síðustu vil eg aðeins geta þess, til leiðbeiningar, að hr. Haraldur Sveinbjörnsson hefir mikinn hug á því enn, að vinna meðal landa sinna hér, þótt minna gefi það honum í aðra hönd. Mun óráðið þessvegna um ferðir hans að sumri.

Winnipeg, 21. febr. 1928,
*Sigfús Halldórs frá Höfnum.*"

Ritaraskýrsla íþróttanefndar Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi:

Herra forseti, heiðraða Þjóðræknisþing!

Nefndin, er kosin var á síðasta þjóðræknisþingi til að annast um íþróttamál félagsins síðastl. ár hefir haft 6 fundi á árinu og afkastað því, sem nú skal greina:

1. Ráðið herra Harald Sveinbjörnsson til að kenna íþróttir.

2. Skrifað deildum og einstaklingum víðsvegar út um bygðir Íslendinga og leitast við að glæða áhuga þeirra fyrir íþróttum.

3. Þar eð undirtektir voru annaðhvort daufar eða engar hjá bygðarlögunum hófum vér þegar samvinnu við "Sleipni" í Winnipeg, með þeim árangri að hr. Haraldur Sveinbjörnsson var vistaður til að kenna líkamsþjálfun innan félagsins yfir 3 sumarmánuðina. Hyggjum vér að starf hans hafi komið að miklum og góðum notum.

4. Í síðastl. mánuði skrifuðum vér eftirfylgjandi bréf og sendum á 16 staði út um bygðir, til þess að hvetja menn til þátttöku í hinni árlegu verðlaunaglímu.

Winnipeg, 16. jan. 1928.

Kæri Herra:

Vér leyfum oss hér með, að minna yður á hina árlegu íslenzku verðlaunaglímu er að þessu sinni verður háð, 21. febr. 1928 í Goodtemplarahúsinu við Sargent Ave., Winnipeg, og hefst kl. 8.30 e. h.

Eitt hundrað dollurum verður varið til verðlauna. Dómnefnd skipa 3 valinkunnir glímumenn. Ef næg þátt-taka fæst verður glíman háð í flokkum eftir þyngd keppenda, með því fær hver einstakur meira tækifæri til að njóta glímni þeirrar, sem hann hefir yfir að ráða.

Allir þátttakendur þurfa að vera klæddir glímubúningi (helzt hvítum), ennfremur vera búnir að tilkynna oss þátt-töku sína fyrir kl. 6 e. m. 21. febr.

Nú er það ósk vor að þér sjáið yður fært að taka þátt í fyrnefndri glímu. Með því styrkið þér gott málefni, yðar eigin hreysti, og fagra íþrótt, er verðskuldar eindregið fylgi allra Íslendinga í þessu landi.

Í þeirri von að þér verðið við tilmælum vorum, erum vér yðar einlægir vinir,

*Sigfús Halldórs frá Höfnum,* forseti,
*Ágúst Sædal,* skrifari,
*Grettir L. Jóhannsson,* féhirðir.

Þess ber að geta með þakklæti að meðnefndarmaður vor og féhirðir nefndarinnar, Grettir L. Jóhannsson, hefir unnið mikið og drengilegt starf fyrir þetta málefni, fyrst með námi sínu í líkamsþjálfun meðan hr. Haraldar Sveinbjörnssonar naut við, og síðan með því að halda uppi stöðugum æfingum og tilsögn í félaginu "Sleipni." Væri betur að þetta velferðarmál ætti fleiri slíka dugnaðarmenn.

Einnig hafa þeir Ben. Ólafsson og Pétur Sigurðsson orðið þessu starfi að miklum notum eins og á liðnum árum. Vottar nefndin þeim innilegt þakklæti sitt.

Málinu til frekari upplýsingar nægir að vísa til meðfylgjandi féhirðisskýrslu nefndarinnar.

Winnipeg, 21. febr. 1928,
*Á. Sædal,* skrifari nefndarinnar.

*Fjárhagsskýrsla*
*Íþróttanefndar Þjóðræknisfél.* 1927.

A. INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári ........ | $108.54 |
| Gjöf frá hr. A. P. Jóhannssyni | 100.00 |
| Gjöf frá hr. A. S. Bardal .... | 100.00 |
| Safnað af hr. J. W. Jóhannsson | 100.00 |
| Bankavextir ............... | 27 |
| Alls ................. | $408.81 |

B. ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Ferðakostnaður hr. Haraldar Sveinbjörnssonar | $100.00 |
| Laun til hr. Har. Sveinbjörnssonar, júní | 100.00 |
| júlí | 100.00 |
| ágúst | 100.00 |
| Í sjóði á Royal Bank of Can. (in trust.) | 8.81 |
| Alls | 408.81 |

Nú í sjóði $8.81.

18. febr. 1928,

*Grettir Leo Jóhannsson, féhirðir.*

Yfirskoðað og rétt fundið 18. febr. 1928,

*B. B. Olson, Walter Jóhannsson.*"

Formanni íþróttanefndar var þökkuð þessi greinargerð. Lagt til og samþykt að forseti skipi 3 manna nefnd í málið. Þessir skipaðir: Hjálmar Gíslason, Jakob F. Kristjánsson og Jón S. Gillies.

Var þá bókasafnsmálið aftur tekið fyrir. Jón S. Gillies kvaðst þakklátur A. P. Jóhannssyni fyrir tillögu hans. Vildi hann ekki að Þjóðræknisfélagið gengist fyrir stofnun lestrarfélags eða bókasafns hér í bæ. Kvað hann það mundi valda óánægju út um land, ef aðalfélagið legði fé í það. Sízt af öllu mætti gera tilraun til að draga allar íslenzkar bækur burt úr bygðunum inn í bæinn. A. B. Olson skýrði frá hvernig sá bókasafnsvísir hefði orðið til, sem félagið ætti. Eigi vanst tími til að útkljá málið, var fundi frestað til kl. 2 e. h.

Sjötti þingfundur settur klukkan 2. e. h. Fundarbók lesin og samþykt. Samkvæmt dagskrá lá fyrir kosning embættismanna. Séra Jónas A. Sigurðsson stakk upp á séra Ragnari E. Kvaran sem forseta, Árni Eggertsson studdi. Séra Rögnvaldur Pétursson lagði til en B. B. Olson studdi að útnefningum sé lokið. Uppástungan samþykt og séra Ragnar E. Kvaran endurkosinn forseti í einu hljóði. Árni Eggertsson stakk upp á J. J. Bíldfell sem vara-forseta, Jónas Jóhannesson studdi. B. B. Olson lagði til að útnefningum sé lokið, séra Jónas A. Sigurðsson studdi. Uppástungan samþykt og Jón J. Bíldfell endurkosinn varaforseti í einu hljóði. Séra Jónas A. Sigurðsson stakk upp á séra Rögnvaldi Péturssyni sem skrifara. B. B. Olson studdi. S. B. Benediktsson stakk upp á Sigfúsi Halldórs frá Höfnum sem ritara, G. K. Jónatansson stakk upp á dr. Sig. Júl. Jóhannessyni sem ritara, E. P. Jónsson studdi. Báðir hinir síðarnefndu afsökuðu sig frá kosningu, og með því að fleiri voru ekki í kjöri var séra Rögnvaldur Pétursson kosinn ritari í einu hljóði. Séra Rögnv. Pétursson stakk upp á séra Runólfi Marteinssyni sem vara-ritara. Fleiri voru ekki tilnefndir. Var séra Runólfur Marteinsson kosinn vara-ritari í einu hljóði. Árni Eggertsson stakk upp á J. G. Jóhannsson sem fjármálaritara, Ágúst Sædal studdi. Sigfús Halldórs frá Höfnum stakk upp á Ásmundi P. Jóhannssyni sem fjármálaritara, Jón J. Húnfjörð studdi. A. P. Jóhannsson afsakaði sig en stakk upp á Halldóri S. Bardal í sinn stað, Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi. Dró þá uppástungumaður til baka útnefn. hr. Jóhannsonar og var H. S. Bardal endurkosinn fjármálaritari í einu hljóði. Séra J. P. Sólmundsson stakk upp á Sigfúsi Halldórs frá Höfnum sem vara-fjármálaritara, Sig. Jóhannsson studdi. Sigfús Halldórs bað að hafa sig undanþeginn kosningu en stakk upp á Hjálmari Gíslasyni í sinn stað, dr. Sig. Júl. Jóhannesson studdi. Ásm. P. Jóhannsson stakk upp á J. G. Jóhannssyni sem vara-fjármálaritara, B. B. Olson studdi. Hjálmar Gíslason lýsti yfir að hann væri ekki í kjöri og með því að fleiri voru ekki útnefndir var J. G. Jóhannsson kosinn vara-fjármálaritari í einu hljóði. B. B. Olson stakk upp á Árna Eggertssyni sem féhirði, E. P. Jónsson studdi. Fleiri voru ekki útnefndir og var Árni Eggertsson endurkosinn féhirðir í einu hljóði. Ágúst Sædal stakk upp á Jakob F. Kristjánssyni sem varaféhirði, séra Rögnv. Pétursson studdi. Fleiri voru ekki í kjöri. Var Jakob F. Kristjánsson kosinn vara-féhirðir í einu hljóði. Þorgils Þorgeirsson stakk upp á A. B. Olson sem skjalaverði, S. B. Benediktsson studdi. Árni Eggertsson stakk upp á Ólafi S. Thorgeirsson sem skjalaverði, dr. Sig.

Júl. Jóhannesson studdi. A. B. Olson afsakaði sig frá kosningu. A. P. Jóhannsson stakk upp á Páli S. Pálssyni sem skjalaverði, Mrs. P. S. Pálsson lýsti yfir fyrir hans hönd að hann gæfi ekki kost á sér til þess embættis. Var þá stungið upp á Hjálmari Gíslasyni er einnig bað afsökunar. Með því að fleiri voru ekki í kjöri var Ó. S. Thorgeirsson kosinn skjalavörður í einu hljóði.

Lýsti forseti þá yfir að lokið væri kosningu stjórnarnefndar, en eftir væri að kjósa tvo endurskoðendur, er samkvæmt lögum félagsins ætti að kjósa annan til tveggja en hinn til eins árs.

Séra Jónas A. Sigurðsson lagði til að B. B. Olson væri kosinn endurskoðandi til tveggja ára en Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi. Fleiri voru ekki í kjöri. Var hann því endurkosinn í einu hljóði. Árni Eggertsson stakk upp á Walter Jóhannsson sem endurskoðunarmanni til eins árs, J. F. Kristjánsson studdi. A. P. Jóhannsson kvað þá útnefndingu ekki gilda, væri sonur sinn ekki á þingi, en hefði látið þess getið að hann tæki ekki kosningu. Gísli Magnússon stakk þá upp á séra J. P. Sólmundssyni en A. B. Olson studdi. Séra Jónas A. Sigurðsson stakk upp á G. K. Jónatanssyni, Jón J. Húnfjörð studdi. Að lokum afsökuðu sig þessir allir og lagði þá Mrs. F. Swanson til, en Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi, að fresta skyldi þessari kosningu unz tal yrði haft af fyrverandi endurskoðanda Walter Jóhannsson og eftir því komist hvort hann myndi fáanlegur til að gegna verkinu áfram. Var tillagan samþykt.

Var þá aftur tekið fyrir *Bókasafnsmálið*. Tillaga A. P. Jóhannssonar borin upp og feld. Fyrsta grein frumvarpsins samþykt, sömuleiðis 2. og 3. Fjórða grein feld: 5. gr. samþykt. Var viðbætt orðunum "sætti lántakandi sig ekki við úrskurð skjalavarðar getur hann skotið máli sínu til stjórnarnefndar, er þá sker úr." 6. gr. samþykt. B. B. Olson gerði breytingartillögu við 7. gr. að bókaverði séu greiddir $25.00 á ári. Breytingartillagan feld, 7. gr. samþykt með 30 atkv. gegn 19.

Tillaga bókasafnsnefndarinnar um að skipa milliþinganefnd til þess að annast um bókakaup rædd. B. B. Olson lagði til, E. P. Jónsson studdi, að í stað milliþinganefndar sé stjórnarnefndinni falið þetta verk. Breytingartillagan borin upp og samþykt. Var þá alt nefndarfrumvarpið borið upp með áorðnum breytingum og samþykt.

A. P. Jóhannson las þá upp eftirfylgjandi tillögu fjármálanefndar um styrkveitingu til útbreiðslu félagsins.

"Fjármálanefndin lítur svo á, að heimfararnefndin muni að meira eða minna leyti starfa að útbreiðslumálum á árinu og hvetja Íslendinga til að styðja og styrkja Þjóðræknisfélagið hvervetna þar sem nefndin fer um bygðir Íslendinga. Leggur því nefndin til að veiting til útbreiðslumála sérstaklega skuli eigi fara fram úr $100.00 og þó með því skilyrði, að fé þessu sé varið til að stofna deildir, þar sem þjóðræknishreyfingin er komin á það stig, að bygðirnar óska eftir, að sér sé sendur fulltrúi frá Þjóðræknisfélaginu til þess að koma deildum á fót.

23. febr. 1928

*A. P. Jóhannsson*, *Tobías Tobíasson*,
*Jón J. Húnfjörð*."

Breytingartillaga við nefndarálitið um að hækka fjárstyrkinn upp í $200.00 og að stjórnarnefndinni séu leyfðar óbundnar hendur með hvernig hún noti fjárveitinguna, var studd og samþykt.

*Björgvinsmálið* var þá næst á dagskrá E. P. Jónsson rakti sögu málsins. Kvað fjársöfnun hafa gengið ágætlega. Líkur væru til að Björgvin Guðmundsson lyki námi á þessu vori. Lagði til að milliþinganefnd væri enn skipuð í málið. Tillöguna studdi B. B. Olson.

Séra Rögnvaldur Pétursson gerði þá breytingu, er studd var af J. S. Gillies að sama nefnd sé endurkosin er málinu hefir veitt forstöðu til þessa. Breytingartillagan samþykt í einu hljóði.

*Íþróttamálið*:—Hjálmar Gíslason lagði fram svohljóðandi nefndarálit:

"Herra forseti! Vér, sem skipaðir voru í nefnd til að athuga íþróttamál og skýrslu

milliþinganefndar, sem starfandi var síðastl. ár, leyfum oss að leggja til:

1. Að skýrslur nefndarinnar séu viðteknar og nefndinni þakkað vel unnið starf.

2. Að nefndin sé endurkosin fyrir komandi ár.

3. Að þingið leiti álits fjármálanefndar um það hvort félagið sjái sér eigi fært að styrkja nefndina með fjárframlögum til útbreiðslu íþrótta.

4. Að þingið hvetji deildir út um landið til að nota sér þá kenslu, sem nefndin kann að geta útvegað, en með þeim skilningi að hlutaðeigandi deildir standist að mestu leyti kostnað sem af því leiðir.

5. Að þingið minnist með þakklæti þeirra einstakra manna, sem svo drengilega hafa stutt íþróttamálið með fjárframlögum á s. l. ári.

Winnipeg 23. febr. 1928.

*J. F. Kristjánsson, J. S. Gillies,*
*Hjálmar Gíslason.*"

Nefndarálitið borið upp og samþykt í einu hljóði.

*Frumvarp til bráðabyrgðar aukalaga* var þá lesið af J. F. Kristjánssyni sem fylgir:

"1. Við stjórn funda og allra mála á fundum skal farið eftir stjórnarskrá félagsins, aukalögum þessum og Roberts Rules of Order.

2. Rétt deilda, eða meðlima deilda, sem ákveðinn er með 21. gr. stjórnarskrárinnar, ber að skilja þannig, að kjörnir erindrekar frá deildum er mæta á ársþingum félagsins fyrir hönd sinna heimadeilda leggi fram í þingbyrjun kjörbréf undirr'tað af forseta og ritara þeirrar deildar, er sendir erindrekann, og taki kjörbréfið greinilega fram, hvað mörg atkvæði fulltrúi fer með til þings og nafngreini, auk þess, þá deildarmeðlimi, sem æskja að fara með sitt eigið atkvæði á þingi.

3. Allir fulltrúar og erindrekar skulu skrásettir við þingbyrjun. Skal rita við nafn hvers þingmanns tölu, er sýnir með hve mörg atkvæði hann fer á þingi. t. d. 1, 2 og 10 o. s. frv.

4. Við atkvæðagreiðslu þingfunda skulu vara-ritari og vara-fjármálaritari, eða í fjarveru þeirra tveir aðrir þingmenn, er forseti nefnir, aðstoða forseta og ritara við talningu atkvæða á fundum.

5. Atkvæðagreiðsla fer fram eftir nafnakalli. Þó getur þingið ákveðið skriflega atkvæðagreiðslu, hvenær sem því sýnist þess þörf.

*Jónas A. Sigurðsson, Hjálmar Gíslason,*
*J. F. Kristjánsson.*"

Samþykt var að ræða frumvarpið lið fyrir lið. Fyrsta gr. borin upp og samþykt; sömuleiðis 2, 3, og 4. gr. Séra Rögnvaldur Pétursson benti á að 5. gr. kæmi í bága við grundvallarlögin, þar sem gert er ráð fyrir í 26. gr. hversu atkvæði skuli gefin. Fimta greinin dregin til baka. Var þá nefndarálitið borið upp með áorðinni breytingu og samþykt.

Séra Rögnvaldur Pétursson gat þess að hann hefði haft tal af hr. Walter Jóhannsson. Væri hann fús til þess að halda áfram yfirskoðunarembættinu komandi ár. Lagði til að hann væri kosinn. Árni Eggertsson studdi. Tillagan samþykt í einu hljóði.

*Útgáfa Tímaritsins*:— Séra Jónas A. Sigurðsson lagði fram eftirfylgjandi nefndarálit:

*"Tímaritsmálið.*
*Til Þjóðræknisþingsins* 1928.

Nefndin, er skipuð var til að íhuga útgáfu Tímaritsins, finnur sig knúða til að kannast við að Tímaritið hefir reynst lífæð og fjársjóður félagsins. Aldrei hefir hagur þess staðið betur en nú. Dylst víst fáum að án Tímaritsins hefði félagsskapur vor orðið skammær. Um hið einstaka í nýprentuðum árgangi ritsins er hér ekki dæmt. Að sjálfsögðu má á eitthvað benda við útgáfu þess, er horfir til bóta. Það er eitt höfuðeinkenni allrar mannlegrar starfsemi.

Á síðasta ársþingi var því ráðstafað, að Tímaritið veitti viðtöku og prentaði ritgerðir um vísindaleg efni. Sanngjarnt er á það að benda, að örðugt mun að samrýma það ákvæði þeirri ósk ýmsra að ritið verði helzt alþýðlegt ungmennablað.

Enda neitaði þingið 1926 tillögu þingnefndar í þá átt í einu hljóði. Það mun einnig sanni næst, að hugmynd félagsmanna með stofnun ritsins hafi frá öndverðu verið sú, að það væri innbyrðis meðal Vestur-Íslendinga og sömuleiðis út á við, merki hinnar íslenzku menningar, er vér þágum að arfi. Efalaust væri mjög æskilegt að Tímaritið túlkaði sem bezt sögu og menningu Vestur-Íslendinga, yrði fulltrúi félags vors á því sviði.

Hvað snertir útbreiðslu Tímaritsins verður við það að kannast að hún hefir verið fremur slælega rekin í hið minsta á síðari tíð, þar sem um jafn vandað og ódýrt rit er að ræða.

Á þessar athuganir leyfir nefndin sér að benda stjórn og þingi.

Nefndin leggur fyrir þing til samþykta:—

1. Að stjórn Þjóðræknisfélagsins sé falið að annast um útgáfu Tímaritsins á yfirstandandi ári. Til framfara myndi horfa, sæi stjórnin sér fært, að gefa ritið út tvisvar á ári.

2. Að stjórninni sé falið að ráðstafa ritstjórn Tímaritsins.

3. Að allir atkvæðisbærir meðlimir félagsins, er greitt hafa félagsgjald fyrir árið 1928, fái þennan árgang ritsins ókeypis.

4. Að stjórnarnefndin ráði kjörkaupum á eldri árgöngum ritsins og auglýsi þau.

5. Að virkileg gangskör sé að því gerð að koma ritinu inn á hvert vestur-íslenzkt heimili.

Á þingi í Winnipeg, 23. febr. 1928.

*Jónas A. Sigurðsson, Finnb. Hjálmarsson,*
*Eiríkur H. Sigurðsson*

Samþykt var að ræða nefndarálitið lið fyrir lið.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson lagði til að unglingadeild sé bætt í ritið, að minsta kosti sem svari 5 af hundraði af prentuðu máli. Séra Runólfur Marteinsson studdi, og benti á þörfina að eitthvað væri gefið út er unglingum væri ætlað að lesa. Séra Rögnvaldur Pétursson kvað tillöguna óþarfa. Erfitt væri að þröngva unglingum til að lesa, þeir yrðu sjálfir að finna hvöt hjá sér til þess. Finnbogi Hjálmarsson kvað aðra aðferð heppilegri en þá, sem bent væri á. T. d. að gefin vær út vikulega örlítil barnablöð með báðum íslenzku blöðunum "Hkr." og "Lögb." Sagðist hafa hugsað sér að vekja athygli á því seinna. Fleiri tóku til máls. Breytingartillagan var borin upp og feld. Fyrsti liður samþyktur. Dr. Sig. Júl. Jóhannesson gerði breytingu við annan lið, að í stað þess að stjórninni sé falið að ráðstafa ritstjórn, kjósi þingið þá séra Jónas A. Sigurðsson og séra Rögnvald Pétursson sem ritstjóra Tímaritsins. Breytingartillagan feld. Annar liður samþyktur, sömuleiðis 3, 4. og 5. liður. Var þá nefndarálitið borið upp í heild og samþykt.

Sigfús Halldórs frá Höfnum bað sér þá hljóðs og flutti eftirfylgjandi þingsyfirlýsingu studda af séra R. Péturssyni:

*Frú Helga Jónsdóttir Stephánsson!*

Í tilefni að láti manns yðar, skáldsins St. G. Stephánssonar vill hið níunda Þjóðræknisþing Vestur-Íslendinga, fyrsta þingið haldið að honum látum, og fyrsta þingið er eigi hefir meðtekið kveðju frá honum, beinlínis eða óbeinlínis, votta yður og börnum yðar, dýpstu hluttekningu sína. Finnur þingið sér þetta því ljúfara, sem vér finnum til þess, að vér eigum með yður sameiginlega sorg. Því eigi var hann einungis heiðursfélagi vor, sem hér erum samankomin, heldur heiður allra Íslendinga, vestan hafs og austan.

Winnipeg 23. febr. 1928.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum,*
*Rögnvaldur Pétursson."*

Yfirlýsing þessi var samþykt í einu hljóði með því að allir risu á fætur og forseta falið að senda afrit hennar til frú Helgu Stephánsson í Markerville, Alta.

Var þá stungið upp á að slíta fundi, og fresta þingi til kl. 8.30 e. h. Forseti gat þess að þessi síðasti fundur þingsins yrði byrjaður með fyrirlestri, er séra Jónas A. Sigurðsson hefði góðfúslega lofast til að flytja. Fleira yrði til skemtunar. Bað hann fólk að vera komið stundvíslega á fundarstað, svo ljúka mætti við þau störf

er enn væru óafgreidd. Þingi frestað til kl. 8.30.

Sjöundi þingfundur var settur kl. 8.30 sama dag. Hófst hann með því að herra Sigfús Halldórs frá Höfnum söng langan flokk íslenzkra þjóðsöngva, en honum til aðstoðar lék ungfrú Þorbjörg Bjarnason á píanó. Séra Jónas A. Sigurðsson flutti langt og rækilegt erindi um menningargildi íslenzkrar tungu og fræða og þörfina á þjóðræknisstarfsemi á meðal vor. Að lokum flutti Sigurður Jóhannsson skáld kvæði. Stóð skemtun þessi til kl. 9.40 að aftur var tekið til þingstarfa. Fundarbók lesin og samþykt.

*Kenslumál*:—Jón J. Bíldfell las upp álit nefndarinnar, er það mál hafði með höndum sem hér fylgir:

"Vér, sem settir vorum í nefnd til að athuga kenslumálin leyfum oss að leggja til:

1. Að áfram verði haldið að styðja og styrkja kenslu í íslenzku á meðal barna og unglinga í Winnipeg og öðrum stöðum þar sem því verður viðkomið, og að stjórnarnefndinni sé veitt full heimild til að verja fé úr félagssjóði kenslunni til stuðnings, eftir því sem kringumstæður leyfa.

2. Þingið lætur í ljósi ánægju sína og þökk fyrir framkvæmdir þær sem orðið hafa í sambandi við kenslu í íslenzkri tungu við gagnfræðaskóla í Manitobafylki og felur stjórnarnefndinni að veita því máli alt það fylgi, sem hún getur á komandi ári.

3. Að þriggja manna milliþinganefnd sé kosin til að leita fyrir sér með, og athuga nýja vegi, sem gæti leitt til hvatningar fyrir ungt fólk vor á meðal að gefa sig meir við námi íslenzkrar tungu og íslenzkra fræða en verið hefir.

*J. J. Bíldfell, J. P. Sólmundsson,*
*Ragnar Stefánsson.*"

Samþykt var að ræða frumvarpið lið fyrir lið. Allir liðirnir samþyktir. Stungið upp á þessum í milliþinganefndina: séra Runólfi Marteinssyni, séra J. P. Sólmundssyni og dr. Sig. Júl. Jóhannessyni. Uppástungan samþykt.

Finnbogi Hjálmarsson bar þá upp tillögu þess efnis að Þjóðræknisfélagið gangist fyrir því, að gefin séu út barnablöð með báðum íslenzku blöðunum "Hkr." og "Lögb." Árni Eggertsson studdi. Tillagan samþykt og málinu vísað til stjórnarnefndar.

Fjármálanefndin lagði fyrir þingið svolátandi tillögu um styrkbeiðni deildarinnar "Brúin" í Selkirk:

Háttvirti forseti, heiðraða þing:—

Fjármálanefnd yðar hefir reynt að gera sér grein fyrir því hve afar þarflegt það er að halda uppi kenslu í íslenzkum söng og íþróttum meðal Íslendinga og vill hér með hvetja allar deildir til þess að gera það af ítrasta megni. Hinsvegar finnur nefndin til þess, hve aðalfélaginu er um megn að styðja slíkt að nokkrum mun, fjárhagslega, eða svo að styrkurinn komi nokkurnveginn jafnt niður á deildirnar.

Eins og mönnum er ljóst, eru aðal inntektir félagsins andvirði fyrir auglýsingar í Tímaritinu, með öðrum orðum, tillög félagsmanna ekki lengur til, að öðru leyti en því, að þeir kaupa ritið. Öllum deildum er nú gefið hálft andvirði þess, en aftur á móti er félagið að færast meira og meira í fang, með ári hverju, hvað útgjöld snertir. Samt sem áður viljum vér leggja til, að deildinni "Brúin" í Selkirk sé veittir $40.00 á þessu fjárhagsári til styrktar kenslumálum.

23. febr. 1928.

*A. P. Jóhannsson, J. Húnfjörð,*
*Tobías Tobíasson.*"

Árni Eggertsson gerði þá breytingartillögu við nefndartillöguna að fjárveitingin sé hækkuð upp í $50.00, stutt af B. B. Olson. Breytingartillagan samþykt og svo nefndarálitið með áorðinni breytingu.

Mrs. I. E. Inge skýrði frá viðgangi Þjóðræknisfél. í Foam Lake bygð. Benti þinginu á að tilhlýðilegt væri að félagið byði dr. Helga Péturss að heimsækja Íslendinga hér, þegar hann hefði tíma og tækifæri til.

A. P. Jóhannsson lagði þá fram tillögu fjármálanefndar í íþróttamálinu:

Háttvirti forseti og þing:— Vér leggj-

um til að þingið veiti stjórnarnefndinni vald til að veita milliþinganefnd íþróttamálsins að jöfnu við peningaframlög í heimahögum, þeim, sem styrktar óska, alt að $250.00 til eflingar glímu og öðrum líkamsæfingum.

23. febr. 1928.

*A. P. Jóhannsson, Tobías Tobíasson, Jón J. Húnfjörð.*"

Tillagan borin upp og samþykt, með meirihluta atkvæða.

Grettir L. Jóhannsson, er ekki var á fundi, þá er milliþinganefnd í íþróttamálinu var endurkosin, bað að hafa sig undanþeginn því starfi á þessu ári. Ben. Ólafsson útnefndur í hans stað af Ágúst Sædal. Tillagan studd af J. F. Kristjánssyni og samþykt í einu hljóði.

Sigfús Halldórs frá Höfnum lagði þá fram eftirfylgjandi nefndarálit í 'Norse' málinu, gat þess um leið að séra Rúnólfur Marteinsson hefði beðist lausnar úr nefndinni en hann gengi í hans stað.

"Álit nefndarinnar er falið var að mótmæla viðleitni Norðmanna í Canada að helga sér og sinni þjóð einni það hugtak, sem felst í orðnu "Norse."

Nefndin álítur það ósamboðið sjálfsvirðingu allra þjóðrækinna Íslendinga, að gera enga tilraun til þess að mótmæla marg-ítrekaðri áleitni Norðmanna, að kasta eign sinni á alt sem ágætast er og minnilegast í menningu vorri til forna, undir því yfirskyni að það megi flokka undir hugtakið "Norse," sem þeir svo túlka á þann veg, einkum í hinum ensku mælandi heimi, sem samgildi það í raun og veru "Norwegian."

Tilefnið til þessarar yfirlýsingar er fregn, er nýlega hefir borist frá fréttastofu kanadískra blaðamanna, um umsókn til Canada-stjórnar, um að löggilda allsherjar félag Norðmanna í Canada, undir nafnnu *"The League of Norsemen in Canada."*

Nefndin leggur til:

1. Að þingið lýsi yfir vanþóknun sinni á þessari ásælni Norðmanna.

2. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, sé falið að finna að máli þá Norðmenn í Winnipeg, er ritað hafa undir áðurnefnda umsókn, og tjá þeim mótmæli þingsins gegn þessu orðalagi umsóknarinnar.

3. Að sjái stjórnarnefndin að þau mótmæli stoði ekki, þá leiti hún samvinnu við Dani og Svía hér í Winnipeg til sameiginlegra mótmæla við stjórnina í Ottawa.

Winnipeg 23. febr. 1928.

*J. A. Sigurðsson, Rögnvaldur Pétursson, Sigfús Halldórs frá Höfnum.*"

Nefndarálitið borið upp og samþykt í einu hljóði.

Séra Rögnvaldur Pétursson lagði fram eintak af blaðinu, "Picture Story Paper" vol. LIX. February 5. 1928, Part 1 and 2, útgefið af The Methodist Book Concern í Cincinnati, Ohio, sem flutti mynd á framsíðu af Eskimóa fjölskyldu og þar með kvæði, um lifnaðarhátt Eskimóa, með fyrirsögninni *"In Iceland."* Lagði séra Rögnvaldur til að ritstjóra og útgefendum sé skrifað og þeir beðnir útskýringar á þessum fróðleik. Tillagan studd og samþykt og málinu vísað til stjórnarnefndar.

Sigfús Halldórs frá Höfnum lét í ljós að æskilegt væri að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins gerði sitt til að létta undir með hr. Jónbirni Gíslasyni við söfnun rímnalaga með því að fá bygðardeildir til þess að gefa bendingar um menn, er orðið gætu honum að liði í þessu efni. Væri ekki ósennilegt að eitthvað geymdist í minnum gamalla Íslendinga hér af rímnalögum, er ef til vill væru glötuð á Íslandi.

Þá lýsti forseti því yfir, fyrir hönd nefndarinnar er dæmdi um verðlaunaritgerðir "Tímaritsins" að nefndinni hefði komið saman um að sæma hr. Pál Bjarnarson, cand. phil., Vancouver, B.C., verðlaununum fyrir ritgerðina er birt væri fremst í nýútkomnum árgangi Tímaritsins: "Um Orðtengðafræði Íslenzka."

Sigfús Halldórs frá Höfnum baðst leyfis, að mega tilkynna, að verðlaunin er veitast áttu fyrir bezt kveðna "hring-

hendu," og skýrt var frá í 'Heimskringlu' á síðastl. hausti, hefðu verið úthlutuð *herra Gunnbirni Stefánssyni*, bónda í suðvestur hluta Saskatchewanfylkis. Vísurnar yrðu birtar í "Heimskringlu."

Séra Rögnvaldur Pétursson gat þess að Mrs. Óvida Swainsson er stóð fyrir kvenbúningadeild íslenzku nefndarinnar er þátt tók í Jubilee-hátíð Canada-ríkis, í Winnipeg síðastliðið sumar hefði afhent sér sem gjöf til Þjóðræknisfélagsins, 4 myndir af þesum búningum og konum þeim og meyjum er búningana báru hátíðisdaginn. Kvaðst hann nú vilja skila myndum þessum og afhenda þær forseta. Þakkaði forseti Mrs. Swainson gjöfina.

Séra J. P. Sólmundsson ávarpaði þingheim í bundnu máli.

Sigfús Halldórs lagði til að stjórnarnefnd félagsins sé falið af þinginu að gangast fyrir stofnun unglingadeilda í Winnipeg og þar annarstaðar, sem deildir eru starfandi. Tillagan samþykt.

B. B. Olson lagði til að Mrs. Chiswell á Gimli sé þakkað starf hennar við kenslu og æfingu unglinga, í að bera fram og lesa íslenzk kvæði og sögur. Samþykt.

Var þá fundarbók þingsins lesin og samþykt.

Forseti bað þingheim að rísa úr sætum og syngja "Eldgamla Ísafold" og "God Save the King."

Var svo þingi slitið.

*Ragnar E. Kvaran,* forseti.
*Rögnvaldur Pétursson,* ritari.



# FJÁRHAGSSKÝRSLA

Féhirðis, Fjármálaritara
og Skjalavarðar

Þjóðræknisfélags Íslendinga
í Vesturheimi

yfir árið 1928.

# Reikningur féhirðis

*yfir tekjur og gjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi*

*fyrir tímabilið frá 15. Feb. 1928 til 22. Feb. 1929*

---

TEKJUR:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 15. Febr. 1928: | Í landsbanka Íslands | 157.96 | |
| | Á Provincial Bank | 2837.08 | |
| | Hjá féhirði | 37.50 | |
| 22. Febr. 1929: | Frá fjármálar. H. S. Bardal | 548.22 | |
| | Frá skjalaverði O. S. Thorgeirsson | 98.52 | |
| | Fyrir "Selskinnu"-sjóð | 47.50 | |
| | Frá Ársæli Árnasyni, Reykjavík | 90.00 | |
| | Frá Th. Thorgieirssyn í byggingarsjóð | 3.00 | |
| | Frá Árna Eggertson fyrir augl. | 2461.50 | |
| | Bankavextir | 100.99 | |
| | | | $ 6382.27 |

GJÖLD:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 22. Febr. 1929: | Kenslulaun í íslenzku | 250.00 | |
| | Ritstjóra og ritlaun | 311.69 | |
| | Verðlaunaritgerð A. Kr. | 100.00 | |
| | Fyrir prentun á 9 árg. Tímaritsins | 752.61 | |
| | Fyrir prentun á 10 árg. Tímaritsins | 264.00 | |
| | Umboðslaun á auglýsingum | 614.12 | |
| | Endurgoldið auglýsanda | 5.00 | |
| | Fundarsalsleiga fyrir ársþing 1928 | 40.00 | |
| | Ferðakostnaður og fundarhöld | 204.90 | |
| | Orgelleigu B. Thorlákssonar | 15.00 | |
| | Flutningur á bókum | 4.00 | |
| | Ábirgðargjöld féhirðis og skjalav. | 16.00 | |
| | Eldsábirgðargjald á bókum félagsins | 15.00 | |
| | Styrkur til "Sleipnir" | 50.00 | |
| | Endurborgun fyrir rit til P. S. P. | 7.80 | |
| | Kostnaður við veizluhöld fyrir Svía og Norðmenn | 66.20 | |
| | Ferðakostnaður yfirskoðara | 19.65 | |
| | Víxlar á ávísunum | .45 | |
| | Ársþing auglýsingar 1928 | 21.00 | |
| | Prent kostnaður | 50.12 | |
| | Þingveitingar til fjármálaritara | 50.00 | |
| | Frímerki og annað | 5.40 | |
| | Peningar í sjóði félagsins | 3519.33 | |
| | | | $ 6382.27 |

ÁRNI EGGERTSON

Yfirskoðað og rétt fundið, 25. febr. 1929.

B. B. Olson, Walter Jóhannsson,
yfirskoðunarmenn.

# Skýrsla skjalavarðar fyrir árið 1928.

TÍMARITIÐ

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 596 eint. | |
| | Seld á árinu | | 1 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 595 eint. |
| 2. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 377 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 377 eint. |
| 3. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 84 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 84 eint. |
| 4. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 277 eint. | |
| | Til meðlima | 1 eint. | | |
| | Seld á árinu | 1 eint. | 2 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 275 eint. |
| 5. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 281 eint. | |
| | Til meðlima | | 1 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 280 eint. |
| 6. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 405 eint. | |
| | Til meðlima | | 1 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 404 eint. |
| 7. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 379 eint. | |
| | Til meðlima | 16 eint. | | |
| | Hjá útsölm. | 1 eint. | 17 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 362 eint. |
| 8. árg. : | Óseld við árslok 1927 | | 435 eint. | |
| | Til deilda | 32 eint. | | |
| | Til útsölm. | 11 eint. | | |
| | Til meðlima | 46 eint. | 89 eint. | |
| | hjá skjalaverði | | | 346 eint. |
| 9. árg. : | Meðtekið frá Col. Press | | 1396 eint. | |
| | Til meðlima | 183 eint. | | |
| | Til auglýsenda | 126 eint. | | |
| | Til útsölum. | 830 eint. | | |
| | Seld á árinu | 9 eint. | | |
| | Hjá útsölum. | 101 eint. | | |
| | Hjá skjalaverði | 248 eint. | | 349 eint. |
| | | 1396 | 1396 | |
| | Samtals óseld eint. | | | 3072 eint. |

History of Iceland:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Óseld við árslok 1927 | | 214 eint. | |
| Seld á árinu | 29 eint. | | |
| Gefin | 3 eint. | 32 eint. | |
| hjá skjalaverði | | | 182 eint. |

Svipleiftur Samtíðarm:

| | | |
|---|---|---|
| Óseld við árslok 1927 | 144 eint. | |
| Seld á árinu | 5 eint. | |
| hjá skjalaverði | | 139 eint. |

ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.

Yfirskoðað og rétt fundið, 25. Febr. 1929.

B. B. Olson, Walter Jóhannson.

